Berum íslenzku-námið saman við aðra tungumála-þekkingu, sem unglingar vorrar þjóðar eiga kost á að afla sér í landi þessu. Munu þeir ekki hafa meira gagn af íslenzkunni, sem þeir geta lært með lítilli fyrirhöfn í æsku, og kynst smám saman meir og meir, eftir því sem þeir stálpast — munu þeir ekki geta aflað meiri lifandi þekkingar á bókmentum þess máls og búið betur að þeirri mentun, heldur en þó þeir komist við illan leik yfir einhverja nasasjón í frönsku eða þýzku, lesi á þeim málum tvær bækur eða þrjár með miklum erviðismunum, og gleymi svo, eins og flesta hendir, öllu saman eftir fáein ár? Íslenzkan tapar engu við þann samanburð og gjörir jafnvel enn betur: þeir unglingar vorir, sem verða að gera sig ánægða með alþýðuskólamentun, geta þó eignast aðgang að bókmentum tveggja skóla, og það með fremur auðveldu móti, ef þeir halda trygð við þjóðararfinn.

— — —

Þjóðernismálið hefi eg nú reynt að skoða frá þeirri hlið einungis, sem veit að skyldum vorum við þetta land. En hins vil eg þó ekki dylja neinn mann, að eg tel ekki þjóðflokk minn lausan frá öllum skyldum við ættlandið, þótt vér séum hingað fluttir og ætlum hér að sitja. Þetta eru voðaleg orð, eg veit það — eða svo finst tíðarandanum. Þó eru þau sönn. Og meira að segja: Hérlenda þjóðin er í ofurlítilli skuld við Ísland. Eða er það sanngjarnt, að borga naut og svín fullu verði, ef flutt eru austan að, en telja sig í engri skuld fyrir mannfólkið, sem þaðan hefir komið? Hafi nokkuð verið í íslenzka landnema spunnið, þá var hingaðflutningur þeirra gróði þessu landi, en tap ættjörðinni, og þá er þetta land siðferðislega skyldugt til að jafna reikninginn í einhverri mynt. Lúkninguna verðum vér að taka að oss, Vestur-Íslendingar, með því að halda frændrækninni við í lengstu lög vera "gamla landinu" hliðhollir, þegar færi gefst, og leitast við að koma andlegri vöru þess í hærra verð á heimsmarkaðinum. Og ekki tapar þetta land heldur, þótt samneytið haldist. Af því að íslenzkan fékk að lifa vor á meðal á landnáms-tíðinni hér, þá fékk Ísland færi á að kynnast Vesturheims-menningunni, og sú kynning verður því meiri, sem málið helzt hér lengur lifandi. Ekki ætti það að vera stórmikið hrygðarefni þjóðræknum Ameríkumönnum.

Stórþjóðirnar hafa náð undir sig öllum nýlendusvæðum heimsins, og taka líklega seint í mál að gefa smælingjunum nokkuð eftir af því herfangi. Um þetta er ekki til neins að kvarta; smáþjóðirnar verða að hafa það, hvort sem það er rétt eða rangt, en þeim er þá líka vorkunn, þótt þær langi til að eiga ítök í hjörtum þeirra barna sinna, sem numið hafa land á vegum annara þjóða. Nú er íslenzkur maður kominn til vor að heiman, launaður af landsfé að sögn, eða með styrktarfé, sem í fyrstu kom úr landssjóði. Svo er að sjá, sem þetta hafi hneykslað einhverja "patríótana" hér. Það var ekki mót von. En hvað skal þá segja

um vesturferða-agentana, sem hérlendar stjórnir kostuðu heim til Íslands, í þeim erindum að ná fólki þaðan burt til Vesturheims? — Það er aum regla, sem ekki má beita á tvo vegu, segir enskurinn.

Skyldur vorar í þjóðræknismálinu horfa þá svona við, að því er mér virðist. Fyrst er skuldin við þetta land; hún verður ætíð að skipa öndvegi. En mikilvægur hluti þessarar skuldar er í því fólginn, að vér eigum að gjöra niðja vora svo vel úr garði, sem unt er, og stelum þar engu undan, sem eflt getur manndóm þeirra, jafnvel þótt það sé komið heiman frá Íslandi. Svo ber hins að gæta, að ættlandsskuldin er ekki úr sögunni, þótt vér hugsum fyrst um skyldur vorar hér.

Ekki er því að leyna, að ef haldið er í þetta horfið, þá verðum vér enn um nokkra hríð sérkennilegur hópur eða ættflokkur í þessu þjóðfélagi, og það eins fyrir því, þótt vér forðumst allar öfgar og einræningsskap. Þetta telja sumir hættulegt. Þeir vilja bræða öll þjóðarbrotin saman, svo að niðjarnir verði allir með sömu þjóðareinkennum og þeim alenskum. Eg held, að þjóð þessi verði ekkert betur komin, þótt hraðað sé þeirri sambræðslu. Allir þurfum vér-auðvitað að dragast saman, eiga í samlögum tungumál landsins og alt hérlent ágæti. En að vér þurfum um leið að losast við sérkennin öll, sem segja til uppruna vors, og renna saman í eina tilbreytingarlausa þjóðernis-flatneskju — það er annað mál. Eg held einmitt, að fjölbreytt þjóðlíf verði miklu nýtara. Kínverjar eru sagðir svo nauðalíkir allir, að hvítir menn geti varla greint þá í sundur. Það yrði, held eg, ekkert heillaverk, þótt þetta land væri gjört að andlegu Kínaveldi.



# Vínlandsferðirnar.

Eftir *Halldór Hermannsson.*

LLMIKIÐ hefir á síðari tímum verið ritað um landafundi forfeðra vorra vestan hafs, en þó hefir það mál ekki verið rætt til neinna muna á íslenzku; stendur þó fáum nær að vita deili á því en Íslendingum, þar sem sjóferðir þessar eru meðal merkustu viðburða í sögu vorri. Hér skal því í stuttu máli getið helztu heimildanna fyrir þessum ferðum og hvernig þær hafa verið skýrðar upp á síðkastið.

Adam kanúki frá Brimum reit um 1170 lýsingu á Norðurlöndum, sem stendur aftan við sögu hans um Hamborgar-biskupa. Þar segir hann, að Sveinn Úlfsson Danakonungur hafi skýrt sér frá, að í hinu ótakmarkaða úthafi hafi fundist eyja, sem héti Vínland, því að þar yxu vínber af sjálfsdáðum, er gæfu hið bezta vín, og einnig væri þar gnægð korns ósáins. Þetta sé engin skröksaga, segir hann, heldur sé þetta samkvæmt áreiðanlegum vitnisburði Dana. En handan við þessa eyju, sagði konungurinn, að ekkert byggilegt land lægi í úthafinu, því að alt það, sem liggur lengra í burtu, væri fult af óþolandi ís og endalausu myrkri. Adam og líklega sögumenn hans gerðu sér þannig auðsjáanlega í hugarlund, að Vínland lægi fyrir utan og norðan Ísland og Grænland. Frásögn þessi mun því flestum hafa þótt all-ótrúleg, þar sem varla mátti ætla, að korn og vínviður gæti vaxið á þeim stað og í slíku loftslagi, sem þar væri. En þetta er nóg til þess að sýna, að Vínlandsnafnið var þekt á 11. öld.

Það getur verið, að til sé annar vitnisburður frá 11. öld um Vínland. Það verður reyndar lítið bygt á því, en þó er bezt að geta þess hér. Um næstsíðustu aldamót var til á bænum Hönen í Hringaríki í Noregi rúnasteinn, sem síðan hefir horfið með öllu. Afrit hafði þó verið tekið af rúnaletrinu á honum, en því miður er það all-óljóst og auðsjáanlega ekki allskostar áreiðanlegt. Samkvæmt því reyndi prófessor Sophus Bugge samt að ráða áletranina, og komst að þeirri niðurstöðu, að hún líklega hefði verið þannig:

"Út ok vítt ok þurfa
þerru ok áts
Vínlandi á ísa
í úbygð at kómu;
auð má ilt vega
[at] deyi ár [þ. e. snemma]."

Ef þessi ráðning er rétt, ætti hún að benda til þess, að steinninn hafi verið reistur eftir mann, sem látist hafi í leiðangri norður eða vestur í höfum, eða með öðrum orðum í Vínlandsferð. Hefir þetta verið sett í samband við ferð, sem Adam kanúki segir, að Haraldur harðráði hafi farið í landaleit út í úthafið, en orðið að hverfa frá vegna þrauta

og kynja, sem hann hafi mætt þar og sloppið nauðulega frá. En gallinn er, að ráðning Bugges er svo efasöm, að það er varasamt að byggja nokkuð á henni, og í öðru lagi er þessi úthafsferð Haralds sjálfsagt sama ferðin og sú, sem hann fór til landkannana norður um Noreg.*

Í Íslendingabók sinni, sem rituð er á þriðja eða fjórða áratug 12. aldar, segir Ari fróði frá því, að þegar Eiríkur rauði og aðrir Íslendingar komu til Grænlands, hafi þeir fundið þar mannavistir, bæði austur og vestur á landi, keiplabrot og steinsmíði, er af má skilja, að þar hafði þess konar þjóð farið, er Vínland hefir bygt og Grænlendingar kalla Skrælingja. Hafði hann þetta eftir Þorkeli Gellissyni, föðurbróður sínum, en honum hafði sagt það á Grænlandi maður, er fylgt hafði Eiríki rauða þangað. Að öðru leyti getur Ari ekki Vínlands. Það er ekki ólíklegt, að frásögn Adams og Ara beri að sama brunni, að því er Vínlandsnafnið snertir. Gellir Þorkelsson, faðir Þorkels og afi Ara, lá lengi í kröm í Hróarskeldu og lézt þar árið 1073, og má vel vera, að hann hafi sagt Sveini konungi frá Vínlandi.

Landnáma getur Vínlands einungis í sambandi við Hvítramannaland eða Írland hið mikla, þar sem sagt er, að það liggi vestur í hafi nærri Vínlandi hinu góða. Þar sem Leifur Eiríksson er nefndur, er ekkert um það getið, að hann hafi fundið Vínland, en Hauksbók segir, að Þorfinnur karlsefni hafi fundið það. Í Heimskringlu segir Snorri Sturluson, að Leifur hafi fundið Vínland hið góða, og sama gerir Kristnisaga. Eyrbyggja getur þess, að Snorri Þorbrandsson hafi farið til Vínlands hins góða með Þorfinni karlsefni, og Grettla nefnir Þórhall Gamlason Vínlending, sem bjó á Melum í Hrútafirði. Í sumum þessum sögum stendur Vindland fyrir Vínland, en það er auðsjáanlega ritvilla eða misskilningur.

Aðal-heimildirnar fyrir Vínlandsferðunum eru Eiríks saga rauða og Grænlendinga þáttur.

Eiríks saga rauða, sem stundum en þó miður réttilega hefir verið kölluð Þorfinns saga karlsefnis, segir frá því, að Leifur, sonur Eiríks rauða, hafi farið (árið 1000) frá Noregi til Grænlands. Hafði hann siglt austur um haf hina syðri sjóleið, og svo sjálfsagt farið hina sömu leið vestur. Velkti hann lengi úti, og hitti hann á lönd þau, er hann vissi áður enga von í. Voru þar hveitiakrar sjálfsánir og vínviður vaxinn; þar voru og þau tré, er mösur hétu; og höfðu þeir af öllu þessu nokkur merki, sum tré svo mikil, að í hús voru lögð. Hann fór með kristna trú til Grænlands, að boði Ólafs konungs Tryggvasonar, og á heimleiðinni bjargaði hann mönnum af skipsflaki og hlaut af því viðurnefnið Leifur hepni. Þegar til Grænlands kom, var mikið rætt um land það, er hann hafði fundið, og réðu menn af að leita þess. Var foringi leiðangursins Þorsteinn, bróðir Leifs. Eiríkur faðir hans

*) Sbr. Bogi Th. Melsteð, *Íslendinga Saga*, II. bindi, bls. 289—290.

var með honum, að því er virðist hálfnauðugur, enda hafði hann orðið fyrir því slysi á leið til skips að falla af hestbaki og brjóta rif sín og lesta öxl sína. Þeir sigldu úr Eiríksfirði í Eystribygð. Þá velkti lengi úti í hafi, og komust ekki þangað, sem ferðinni var heitið, en komu í sýn við Ísland og höfðu fugl af Írlandi. Loks náðu þeir um haustið aftur til Eiríksfjarðar, mæddir og mjög þrekaðir. Þá kvongaðist Þorsteinn Guðríði Þorbjarnardóttur og fóru þau að búa í Lýsufirði í Vestribygð, en um veturinn andaðist Þorsteinn úr drepsótt og flutti Guðríður þá aftur til tengdaföður síns í Brattahlíð. Næsta sumar (1002) komu þeir Þorfinnur karlsefni Þórðarson og Snorri Þorbrandsson út til Grænlands frá Íslandi með 40 manna. Enn fremur komu þá og til Grænlands Bjarni Grímólfsson frá Breiðafirði og Þórhallur Gamlason Austfirðingur; voru þeir og á skipi með 40 manna.—Sátu allir þessir menn í Brattahlíð um veturinn, og þá gekk Þorfinnur að eiga Guðríði, ekkju Þorsteins. Enn varð tíðrætt um Vínlandsfund, og ætluðu þeir Karlsefni og Snorri nú að fara að leita þess. Voru nú þrjú skip búin, sem sé þeirra Þorfinns og Snorra; þá þeirra Bjarna og Þórhalls, og svo skip það, er Þorbjörn Vífilsson, faðir Guðríðar, hafði átt. Á því voru Þorvarður, tengdasonur Eiríks rauða, og kona hans Freydís Eiríksdóttir, og Þorvaldur, sonur Eiríks rauða; enn fremur Þórhallur veiðimaður, og er honum borin heldur illa sagan, en hann hafði það til síns ágætis, að honum var víða kunnugt í óbygðum, enda hafði hann lengi verið í veiðiförum með Eiríki rauða. Á skipunum voru fjórir tugir manna annaðs hundraðs. Sigldu þeir til Vestribygðar og til Bjarneyja. Undan Bjarneyjum höfðu þeir norðanveður og voru úti tvö dægur. Fundu þeir þá land og könnuðu það. Voru þar hellur margar og stórar, svo að tveir menn máttu vel spyrnast í iljar. Þar voru melrakkar margir. Þeir nefndu landið Helluland. Þá sigldu þeir norðanveður tvö dægur og varð þá land fyrir þeim, og á því skógur mikill og dýr mörg. Ey lá í landsuður undan landinu; fundu þeir þar bjarndýr og kölluðu eyjuna Bjarney, en landið Markland. — Enn sigldu þeir tvö dægur og sáu þá land; höfðu þeir það á stjórnborða. Þar var öræfi og strandir langar og sandar. Á nesi einu fundu þeir kjöl af skipi og kölluðu því Kjalarnes, en strandirnar nefndu þeir Furðustrandir, því að langt var með þeim að sigla. — Þá gerðist landið vogskorið, og er þeir höfðu siglt fyrir Furðustrandir, sendi Þorfinnur á land tvö skozk hjú, er Ólafur Tryggvason hafði gefið Leifi og hétu Haki og Hekja; þau hlupu dýrum skjótara. Þau fóru í suðurátt og komu aftur eftir þrjá daga og höfðu þá með sér vínber og hveiti ósáið. Héldu þeir áfram ferð sinni, þar til er varð fjarðskorið. Þeir lögðu skipunum inn á fjörðinn. Þar var ey ein úti fyrir og voru þar straumar miklir og um eyna,

kölluðu þeir hana því Straumsey. Var þar svo mikið af fugli, að trautt mátti fæti niður koma milli eggjanna. Fóru þeir svo inn með firðinum, báru farm sinn á land og bjuggust þar fyrir. Fjöll voru þar og fagurt um að litast. Þeir könnuðu landið og gættu einskis annars, en veturinn var harður, og tókst fyrir veiðarnar og urðu þeir því matarlausir. Fóru þeir þá til eyjarinnar, en þar var lítið til matfanga, þó fé þeirra yrði þar vel. Nú hétu þeir á guð sér til hjálpar, en Þórhallur veiðimaður, sem var hundheiðinn, hvarf þá á burt og var burtu þrjú dægur; var hans leitað og fanst hann þá á hamarsgnípu einni og var hálftryltur af særingum, því að hann var að heita á Þór. Rak þá hval fyrir tilstyrk Þórs, en matsveinum varð ilt af að eta hann og því bauð Karlsefni að fleygja honum í burtu. En þá gaf þeim út að róa og höfðu þeir nú nóg fiskjar og með vorinu gnægð eggja. Nú vildi Þórhallur veiðimaður fara norður um Furðustrandir og fyrir Kjalarnes og leita svo Vínlands, enda var hann óánægður með vistina í Straumsfirði, því að ekkert vín var þar að fá. Tilfærir sagan tvær vísur eftir hann; eru þær einkar merkilegar, því að þær munu rétt tímafærðar. Í seinni vísunni kemur það í ljós, að Þórhallur hefir haft Vínlandsleitina að yfirvarpi; hann vildi halda heim aftur til Grænlands. Fór hann og níu menn með honum á einu skipinu, en veður kom á móti þeim og rak þá upp við Írland; voru þeir þar mjög þjáðir og barðir, og lét Þórhallur þar líf sitt. En Karlsefni og alt hitt liðið hélt suður fyrir land og fóru lengi, unz þeir komu að á einni, sem féll af landi ofan í vatn og svo til sjávar. Eyrar voru þar miklar fyrir árósinum og mátti eigi komast í ána nema að háflóði. Þeir kölluðu landið í Hópi og fundu sjálfsána hveitiakra, þar sem lægðir voru, en vínvið alt þar sem holta kendi. Þar var gnægð fiska og dýra. Er þeir höfðu verið þar í hálfan mánuð, komu íbúar landsins á níu húðkeipum. Þeir voru smáir menn og illilegir, illa hærðir, stóreygir kinnabreiðir. Veifuðu þeir trjám af skipunum sólarsinnis, en þeir Karlsefni báru í gegn hvítan skjöld. Komumenn litu kring um sig og dvöldu litla stund, en héldu svo í burtu. Þeir Karlsefni bygðu þar skála og bjuggust fyrir um veturinn, og bar ei neitt til tíðinda; en er vora tók, komu nú mýmargir Skrælingjar í húðkeipum og héldu þeir nú kaupstefnu við þá. Sóttust Skrælingjar einkum eftir rauðu klæði og létu fyrir skinnavöru; líka vildu þeir fá sverð og spjót, en það bannaði Karlsefni að láta þá fá. Þeir fældust á braut við öskur úr griðungi Karlsefnis, en þrem vikum seinna komu þeir mannmargir aftur og veifuðu nú trjánum af keipunum rangsælis. Sló þá í bardaga, og þá var það að Freydís, sem var vanfær, hræddi Skrælingja með því að slá á brjóst sín með nöktu sverði. Höfðu Skrælingjar stóran hnött, er sprakk með miklum hvell. Flýðu þeir að lokum, en þeir Karlsefni þóttust

hafa orðið fyrir sjónhverfingum. Sagan greinir og frá því, að Skrælingjar náðu í öxi af öðrum Íslendingnum, sem fallið hafði í bardaganum; tóku þeir hana og reyndu á tré, en þegar hún brotnaði við stein, þótti þeim hún að engu nýt. Nú sáu þeir Karlsefni það, að eigi mundi þeim vært að dvelja hér fyrir ófriðar sakir, og ákváðu því að snúa heim aftur. Sigldu þeir nú norður eftir og fundu fimm Skrælingja í skinnhjúpum sofandi, og höfðu þeir með sér stokka og í dýramerg dreyrablandinn; þeir drápu þá alla. Síðan fundu þeir nes eitt og fjölda dýra og var nesið að sjá sem mykjuskán væri, af því að dýrin lágu þar um næturnar. Komu þeir svo í Straumsfjörð og voru þar allsnægtir. En hér bætir nú sagan því við, að það sé sumra manna sögn, að þau Bjarni og Guðríður hafi verið í Straumsfirði og tíu tugir manna með þeim og ekki farið lengra, en þeir Karlsefni og Snorri hafi farið suður og 40 menn með þeim og hafi eigi lengur verið í Hópi en vart tvo mánuði og hafi komið aftur samsumars. Nú fór Karlsefni á einu skipi norður fyrir Kjalarnes, að leita Þórhalls veiðimanns. Bar þá fyrir vestan fram og var landið á bakborða þeim. Þar voru eyðimerkur einar, og er þeir höfðu lengi farið, féll á af landi ofan úr austri í vestur. Þeir lögðu inn í árósinn og lágu við syðri bakkann, og þar var það einn morgun, að einfætingur skaut Þorvald Eiríksson til bana. Síðan fóru þeir norður aftur og þóttust sjá Einfætingaland, en þá vildu þeir eigi lengur hætta liði sínu. Þeir ætluðu öll ein fjöll þau er í Hópi voru, og þau, er þeir fundu, og það stæðist mjög svo á, að væri jafnlangt úr Straumsfirði beggja vegna. — Dvöldu þeir nú þriðja veturinn (1005—06) í Straumsfirði, og urðu þar þá erjur milli kvæntra manna og ókvæntra út af konunum. Fóru þeir þaðan um vorið og höfðu sunnanveður, komu til Marklands, fundu þar Skrælingja fimm, einn skeggjaðan mann með tveim konum og tveim drengjum. Náðu þeir Karlsefni drengjunum, en hin komust undan og sukku í jörð niður. Drengirnir nefndu móður sína Vætilldi og föður Vægi, en konunga þá, er réðu fyrir Skrælingjalandi, Avalldamon og Valldidida. Þeir sögðu þar land gagnvart sínu landi og gengu menn þar í hvítum klæðum og æptu hátt og bæru stangir og færu með flíkur. Það ætla menn Hvítramannaland. Þeir Karlsefni og Snorri komust til Grænlands og voru með Eiríki rauða um veturinn. En þá Bjarna Grímólfsson bar út í Grænlandshaf og komust í maðkasjó; sökk þar skip þeirra, en nokkuð af skipshöfninni bjargaðist á eftirbátnum og náði landi, en Bjarni fórst. Næsta sumar fóru þau Þorfinnur og Guðríður út til Íslands og settust að búi í Reynisnesi. Hafði Snorri sonur þeirra fæðst fyrsta veturinn í Straumsfirði.

Grænlendinga þáttur, sem stundum hefir ranglega verið nefndur Eiríks saga rauða, skýrir öðruvísi frá. Herjólfur Bárðarson

hafði flutt með Eiríki rauða til Grænlands (um 986) og sezt þar að. Bjarni sonur hans var þá í Noregi og er hann samsumars kom út til Íslands og frétti, að faðir sinn hefði farið af landi burt, vildi hann endilega halda til Grænlands þegar til fundar við föður sinn. Lögðu þeir af Eyrum (Eyrarbakka) og hafði enginn skipshafnarinnar áður komið í Grænlandshaf. Sigldu þeir í þrjá daga unz land hvarf; þá tók af byrinn og lagði á norrænur og þokur og vissu þeir ekki, hvert þeir fóru, og skifti það mörgum dægrum. Loks sáu þeir sól og máttu greina áttir; þá sigldu þeir eitt dægur unz þeir sáu land; þeir sigldu nærri því og sáu að það var ófjöllótt og skógi vaxið, með smáum hæðum. Létu þeir landið á bakborða og létu skaut horfa á land. Eftir tveggja dægra siglingu sáu þeir annað land. Það var slétt og viði vaxið. Eigi vildi Bjarni að heldur fara hér á land. Settu þeir nú stafn frá landi og sigla í haf útsynningsbyr í þrjú dægur og sáu þá þriðja landið. Það var eyland hátt og fjöllótt og var jökull á. Enn settu þeir stafn við því og héldu í haf hinn sama byr og sigldu nú í fjögur dægur unz þeir komust síðla dags til Herjólfsnes á Grænlandi einmitt þar sem faðir Bjarna hafði sezt að. Og segir nú, að Bjarni færi til föður síns og hætti siglingum. Þó er það næst frá honum sagt, að hann hafi farið á fund Eiríks jarls, er hann réð Noregi (sem því hefir verið eftir Svoldarbardaga árið 1000, fimtán eða sextán árum eftir Grænlandsferð Bjarna). Sagði Bjarni þar frá landafundum sínum, en hlaut ámæli af því að hafa ekki gengið þar á land eða grenslast frekar eftir landskostum. Fór hann svo sumarið eftir til Grænlands og varð þar nú umræða um landaleitan. Leifur Eiríksson fór til Bjarna og keypti skip hans og réð til sín hálfanfjórða tug manna. Bað hann Eirík föður sinn að vera fyrir förinni;* Eiríkur var tregur og mæltist undan, en lét þó tilleiðast um síðir. Á leið til skips féll hann af baki og lestist fótur hans; fór Eiríkur því hvergi. Þeir Leifur létu í haf og komu fyrst að því landi, er Bjarni hafði séð síðast. Fóru þeir á land og sáu þar eigi gras; jöklar miklir voru alt hið efra, en sem ein hella væri alt til jöklanna frá sjónum, og sýndist þeim það land vera gæðalaust. Kallaði Leifur það Helluland. Sigla þeir nú í burtu og finna annað land og ganga þar upp. Það var slétt og skógi vaxið og sandar hvítir víða þar sem þeir fóru og ósæbratt. Leifur nefndi það Markland og hélt í burtu sem skjótast. Nú sigla þeir þaðan í haf landnyrðings veður og voru úti tvö dægur áður þeir sáu land. Komu þeir að ey einni, er lá norður af landinu, og gengu þar upp; fundu þeir dögg þar á grasinu og brugðu

*) Í þættinum stendur: "Leifr bað föður sinn Eirek at hann mundi *enn* fyrir vera förinni." Þetta *enn* hyggur prófessor Finnur Jónsson (*Aarböger* 1915, bls. 208—209) sýni, að ritari þáttarins hafi haft fyrir sér Eiríks sögu og það bendi til ferðar Eiríks með Þorsteini er þar getur um. Þetta virðist mér mjög ólíklegt. Höfundurinn hefir auðsjáanlega í huga leiðangur Eiríks til Grænlands; og Leifur biður föður sinn nú eins og þá að vera fyrir förinni.

á munn sér og þóttust ekki jafnsætt kent hafa sem það var. Síðan fóru þeir í sund það, er lá milli eyjarinnar og ness þess, er norður gekk af landinu; stefndu þeir í vesturátt fyrir nesið. Þar var grunnsævi mikið um fjöru og stóð þar skip þeirra, en þeir komu því þó upp í árósinn um flóð og síðan inn í vatnið; þar köstuðu þeir akkerum, báru húðföt sín af skipi, gerðu búðir og búast þar til vetrarsetu. Lax var í ánni og vatninu og svo góður landkostur, að þeim virtist, að ekki mundi fénaður þurfa þar fóður á vetrum. Frost komu þar engi og lítt rénuðu þar grös. Meira var þar jafndægri en á Grænlandi eða Íslandi; sól hafði þar eyktarstað og dagmálastað um skammdegi. Að húsagerðinni lokinni skifti Leifur liðinu í tvo flokka, skyldi annar jafnan gæta húsa, en hinn kanna landið; þó skyldu þeir aldrei fara lengra burtu en svo, að þeir kæmi heim að kveldi. En eitt kvöld var, að Tyrkir suðurmaður, fóstri Leifs, kom ekki heim og var farið að leita hans og fanst hann loks drukkinn af því að eta vínber! Tíndu þeir nú vínber og hjuggu vínvið og önnur tré, og fyltu þeir eftirbátinn með vínberjum. Nefndi Leifur landið Vínland. Héldu þeir svo aftur til Grænlands og á þeirri ferð bjargaði Leifur skipbrotsmönnum og hlaut fyrir viðurnefnið hinn hepni, en fyrir þeim var Þórir, norrænn maður og er kallaður maður Guðríðar Þorbjarnardóttur. Um veturinn eftir þetta andaðist Eiríkur rauði, og nú fýsti Þorvald Eiríksson að kanna Vínland betur. Fékk Leifur honum skip sitt, og sigldi hann um sumarið með þrjátíu menn, og dvaldi næsta vetur í Leifsbúðum. Næsta sumar lét hann nokkra menn fara á eftirbátnum fyrir vestan landið og kanna þar. Virtist þeim landið fagurt og skógótt og skamt milli skógar og sjóar og hvítir sandar; þar var eyjótt mjög og grunnsævi. Þeir fundu hvergi manna vistir né dýra, en í eyju einni vestarlega fundu þeir kornhjálm af tré. Um haustið héldu þeir aftur til Leifsbúða. Á öðru sumri fór Þorvaldur fyrir austan með kaupskipið og hið nyrðra fyrir landið; rak þá í stormi upp á annes eitt og brutu kjölinn; dvöldu þeir þar og bættu skipið, en reistu síðan kjölinn á nesinu og kölluðu það Kjalarnes. Sigla svo þaðan austur fyrir landið, og inn í fjarðarkjafta þá, er þar voru næstir, lögðu þar að nálægt skógi-vöxnum höfða. Á sandinum inn frá höfðanum sáu þeir þrjár hæðir og gengu þangað og fundu þar þrjá húðkeipa og þrjá menn undir hverjum. Drápu þeir alla nema einn, sem slapp undan. Seig þá höfgi svo mikill á þá, að þeir sofnuðu allir, en eitthvert kall kom yfir þá og vöknuðu þeir við það. Sáu þeir þá ótal húðkeipa koma inn eftir firðinum. Sló þá í bardaga við Skrælingjana, sem loks flýðu, en Þorvaldur var þar særður með ör til bana. Grófu förunautar hans hann þar og settu krossa að höfði hans og fótum, og kölluðu það þess vegna Krossanes. Fóru síðan til hinna félaga sinna (í Leifsbúðum), dvöldu þar um

veturinn, fengu sér vínber og vínvið til skipsins, sigldu næsta vor til Grænlands og komu í Eiríksfjörð. Á meðan þeir voru í burtu, hafði Þorsteinn Eiríksson kvongast Guðríði Þorbjarnardóttur, og vildi hann nú fara til Vínlands eftir líki Þorvaldar bróður síns. Hafði hann með sér hálfan þriðja tug manna og Guðríði konu sína. Þau velkti úti alt sumarið og vissu þau eigi hvar þau fóru, en er vika var af vetri, tóku þau land í Lýsufirði í Vestribygð. Dvöldu þau þar um veturinn og þar andaðist Þorsteinn úr drepsótt. En um sumarið fór Guðríður til Leifs Eiríkssonar í Brattahlíð, og þar kom þá og Þorfinnur karlsefni utan af Noregi og kvæntist hann Guðríði um veturinn. Næsta sumar fóru þau svo með 60 körlum og 5 konum til Vínlands, og höfðu allskonar fénað með sér, því að þau ætluðu að byggja landið, ef þau mættu. Náðu þau Leifsbúðum og bjuggu þar um veturinn, og voru þar nóg föng, enda hafði góðan og mikinn hval rekið þar. Þar voru vínber og allskonar veiðar og önnur gæði. Um sumarið eftir komu margir Skrælingjar út úr skóginum með skinnavöru. Urðu þeir hræddir við graðung Karlsefnis og leituðu því til bæjar og vildu inn í húsin, en Karlsefni lét ei leyfa þeim það; eigi heldur vildi hann selja þeim vopn eins og þeir sóttust eftir, en lét konur bera út búnyt og átu Skrælingjar hana og skildu eftir bagga sína, sem þeir Karlsefni tóku. Lét Þorfinnur þá gera háan skíðgarð um bæinn og síðar fæddi Guðríður Snorra. Á öndverðum vetri komu enn Skrælingjar og voru miklu fleiri; höfðu þeir enn sem fyr skinnavöru; var borinn fyrir þá matur, en þeir köstuðu böggum sínum inn fyrir skíðgarðinn. Þá er sagt frá því, að kona birtist Guðríði og um sama leyti var einn Skrælingja veginn, en hinir flýðu þá. Nú þóttist Karlsefni mega búast við nýrri heimsókn og skipaði fyrir hvernig haga skyldi vörninni og segir þátturinn greinilega frá því og hvernig þeir bjuggust að nota graðunginn, sem þeir vissu að Skrælingjar óttuðust. Þegar Skrælingjar svo komu, sló í bardaga, og ráku þeir Karlsefni þá loks á flótta inn í skóginn. Þar segir og, að Skrælingi einn hafi tekið öxi upp og reitt að félaga sínum og drepið hann. Hafi þá foringi Skrælingja tekið við henni, litið á hana um stund og kastað síðan á sjó út, sem lengst hann mátti. Um vorið hélt Karlsefni aftur til Grænlands með mörg gæði í vínviði, berjum og skinnavöru, og voru um veturinn í Eiríksfirði. Sumarið sama komu tveir Íslendingar til Grænlands, Helgi og Finnbogi, Austfirðingar, og dvöldu þeir þar um veturinn. Freydís, dóttir Eiríks rauða, fór til fundar við þá og taldi þá á að fara til Vínlands með sér og manni sínum, Þorvarði, og skyldu þeir hafa helming allra gæða, er þar fyndust. Fóru þau svo um sumarið á tveim skipum með þrjátíu vígra manna og konur um fram, en Freydís laumaði fimm mönnum öðrum með á sínu skipi. Sátu þau í Leifsbúðum næsta vetur og segir frá því,

hvernig Freydís lét drepa þá Austfirðingana báða og alla þeirra félaga, en sjálf drap hún konur þeirra með eigin hendi. Um sumarið fóru þau svo aftur til Grænlands.

Hér er nú stór galli á gjöf Njarðar, að tveim aðal-heimildunum um þessa landafundi skuli bera svona illa saman. Er því spurningin hverju heldur megi trúa, sögunni eða þættinum. Um það efni hafa verið nokkuð skiftar skoðanir, og enn greinir menn á um það. Áður tóku menn hvorttveggja jafntrúanlegt, og lögðu jafnvel aðal-áherzluna á þáttinn, en Guðbrandur Vigfússon varð víst fyrstur til að kveða upp úr með það, að sögunni væri betur treystandi, og hafa aðrir síðan haldið því sterklega fram. Enginn efi er á því, að sagan segir betur og skipulegar frá og er yfir höfuð betur rituð; stendur og betur að vígi í því efni, að hún er eldri en þátturinn. Finnur Jónsson telur hana upphaflega ritaða um byrjun 13. aldar, en sú mynd hennar er nú ekki til, svo að það er engan veginn alveg áreiðanlegt, að hún sé skrifuð svo snemma, en þó mun hún ekki yngri en frá seinni hluta þeirrar aldar. Hún finst nú í Hauksbók, ritaðri á fyrri hluta 14. aldar, og í skinn-handriti frá 15. öld (A.M. 557, 4to); eru þau hvort öðru óháð, en byggja á sama frumriti. Þátturinn er ekki ritaður fyr en um 1387, mestmegnis af Jóni presti Þórðarsyni, og er í Flateyjarbók. Það er víst enginn efi á því, að þátturinn sé alveg óháður Eiríks sögu; hins vegar hefir höfundur hans sjálfsagt bygt á öðrum rituðum heimildum, sem nú eru glataðar, og líklega á munnmælum, og ef til vill líka aukið þetta nokkuð frá eigin brjósti eða fært það í stýlinn. En þessi mismunur á aldri sögunnar og þáttarins getur ekki gert það að verkum, að sagan sé að öllu áreiðanleg, en þátturinn lítils eða einskis virði. Atburðirnir voru að minsta kosti tvö hundruð ára gamlir, þegar sagan var færð í letur, ef við gerum ráð fyrir því, að hún hafi verið rituð um 1200, og margt getur breyzt og brákast á skemmri tíma. Þrátt fyrir allan mismuninn, er þó auðsjáanlega sami grundvöllurinn undir báðum; sézt það bezt af ýmsum atriðum í frásögninni, þó röðin hafi raskast. Þannig er landslagið í Hópi og við Leifsbúðir eins; Eiríkur rauði slasast á leið til skips í báðum, og er þátturinn þar líklega trúlegri, þar sem hann segir, að það hafi aftrað för hans; leiðangur Þorsteins er að miklu leyti eins í báðum. Viðskifti Þorfinns við Skrælingja á Vínlandi er nokkuð lík; er betur sagt frá kaupskap þeirra í sögunni, en betur frá bardaganum í þættinum; þátturinn getur um sjón Guðríðar, en sagan um, að þeim hafi verið gerðar sjónhverfingar; bæði geta um öxina, sem Skrælingjarnir fundu, og einnig um hvalrekann. Merkilegt er, að Þórhallur veiðimaður skuli alls ekki nefndur í þættinum; þó mun hann áreiðanlega vera söguleg persóna í þessum leik; á það benda vísur hans. En Tyrkir er einskonar bergmál af honum.

Bezt sézt það af því, að báðir hverfa, og þegar þeirra er leitað, eru þeir fundnir annar hálftryltur af særingum, hinn drukkinn af vínberjaáti. Báðum heimildunum kemur saman um, að Þorvaldur Eiríksson hafi látist í Vínlandsferð, en þátturinn skýrir betur frá því. Deilan milli karlmannanna út af konunum í ferð Þorfinns í sögunni, svarar til meðferðar Freydísar á þeim Austfirðingunum í þættinum. En ósamræmin milli þeirra er þó svo mikil, að ekki verða þau sameinuð. Ferðirnar eru þrjár í sögunni, en sex í þættinum. Reyndar virðist mega telja það víst, að þátturinn geri tvær úr einni, þar sem er Þorfinns og Freydísar. Hvort Þorvaldur hafi verið í för með þeim, getur verið vafasamt; þó bendir vísan um einfætinginn til þess, ef hún er ekta, eins og hún er talin. En af Bjarna Herjólfssyni veit sagan ekkert að segja, né heldur aðrar sögur. Hrakningar hans og landafundir eru þó engan veginn ómögulegir, slíkt gat auðveldlega hent skip, sem fór síðla sumars landa á milli, en frásögnin um hann ber þó óneitanlega skröksögublæ. Það er tortryggilegt, að í Eiríks sögu er getið um Bjarna Grímólfsson í för með Þorfinni. Munurinn á nöfnum þeirra er því einungis fyrsta samstafan í föðurnafninu, en Bjarni Grímólfsson er heldur ekki kunnur úr öðrum sögum. Því hefir verið haldið fram, að ólíklegt sé að Grænlendingar skyldu ekkert gera að því í fimtán eða seytján ár að grenslast um lönd þau, er Bjarni Herjólfsson á að hafa séð. Til þess hefir verið svarað, að þeir hafi verið svo önnum kafnir að setja nýlenduna á fót á Grænlandi, að þeir hafi ekki mátt sinna neinum landkönnunum. Öðruvísi mætti þó líta á það mál. Einmitt vegna þess, að þeir höfðu ekki komið sér vel fyrir á Grænlandi, gat verið ástæða fyrir þá að skygnast um eftir betri löndum. Þó kæmi þar sjálfsagt til greina íhaldssemi Eiríks rauða og ástfóstur það, er hann hafði tekið við Grænland; mun hann hafa aftrað mönnum frá að hverfa þaðan aftur, enda kemur heimildunum saman um það, að honum var nauðugt að fara frekar í landaleitir. En ólíkt er það Eiríki, að fara til landnáms í ókönnuðu landi, eins og þeir Þorfinnur gera í Eiríks sögu. Hefði mátt búast við því, að einhver frekari gangskör hefði verið gerð að því að kanna landið, áður en þrjú skip lögðu af stað með búslóð til að setjast þar að; enda ætlaði Þorsteinn að gera það, en sú ferð mistókst. Manni er því ekki alveg grunlaust um, að þátturinn kunni að hafa rétt fyrir sér í því, að annað hvort Leifur eða Þorvaldur hafi kannað landið á undan Þorfinni. En þetta leikur á svo völtu, að ekkert verður staðhæft um það. Sumum hefir þótt undarlegt, ef það er satt, sem sagan segir, að Leifur hafi fyrstur fundið landið, en hans skuli svo að engu frekar getið við ferðirnar þangað. Þetta gæti þó vel staðist. Leifur átti að erfa föður sinn að fé og valdi á Grænlandi, þegar Eiríkur félli frá; það var því eng-

in hvöt fyrir hann að leita nýs lands. Hins vegar var eðlilegra fyrir Þorstein, sem víst hefir verið yngri sonur, að gera það, og einkum fyrir þau Freydísi og Þorvald, sem líklega hafa bæði verið óskilgetin. Að Þorfinnur varð foringi fararinnar, var sjálfsagt; hann var reyndur formaður, enda tengdur Eiríksættinni, þar sem hann hafði kvænst Guðríði ekkju Þorsteins Eiríkssonar.

Bæði sagan og þátturinn skýra frá ýmsu, sem sprottið er af hjátrú og hindurvitnum, og þarf það ekki í sjálfu sér að rýra gildi þeirra í aðalatriðunum, því að þess má ætíð vænta í miðaldaritum, þar sem menn voru auðtrúa og litu öðruvísi á hlutina en nútíðarmenn. Einfætingurinn gæti t. d. verið Eskimói í kajak, þótt það sé reyndar nokkuð ólíklegt. Þátturinn getur ekki um hann, en hefir í staðinn rödd, er vakti þá Þorvald af svefni. Maðkasjórinn er og einhver sjómannakredda. Sögnin um hrakning Þórhalls veiðimanns og félaga hans og þrælkan þeirra á Írlandi er auðsjáanlega af kristnum rótum runninn til að sýna, að hann hafi hlotið makleg gjöld fyrir illa trú; og verður það ekki tekið bókstaflega, enda ekki sagt, hver hafi verið til frásagnar um það. Sögnin um Haka og Hekju er og blandin

Landa- og staðanöfn eru að miklu leyti hin sömu í báðum; þó er Straumseyjar, Straumsfjarðar og Furðustranda ekki getið í þættinum. Síðasta nafnið er auðsjáanlega upprunalegt, þar sem það kemur fyrir í vísu Þórhalls veiðimanns, en það gæti þó verið, að rangt sé skýrt frá um ástæðuna fyrir því, sem sé vegna þess, að langt var með þeim að sigla. Óneitanlega hefði mátt heldur búast við Löngusröndum eða einhverju þess konar, og styrkist sú grunsemd við það, að í Griplu, sem þó ekki má byggja ofmjög á sem áreiðanlegri heimild, segir, að Furðustrandir liggi fyrir norðan Helluland og séu frost þar svo mikil, að ekki sé byggjandi svo menn viti. Landslýsingarnar eru fyllri og betri í sögunni, og um landskostina kemur þeim nokkurn veginn saman; þátturinn er þó nokkuð drjúgyrtari um vínberin og vínviðinn, en veit hinsvegar ekkert af sjálfsána hveitinu að segja. Lýsingin á Skrælingjunum og á eftirsókn þeirra í rautt klæði er einungis í sögunni, og er það mjög merkilegt atriði, sem leggja verður áherzlu á. En þó verður ekki af því séð, hvort hér sé um Eskimóa eða Indíána að ræða. Lýsingin getur átt við báða, þó eru hvorugir þeirra stóreygir. En það er jafnan sagt, að þeir hafi haft húðkeipa; þá brúka einungis Eskimóar, þar sem Indíánar höfðu barkarbáta (kanóa). Ef það er tekið bókstaflega, ættu landkönnunarmenn aldrei að hafa komist í kynni við Indíána, og það takmarkaði lengd ferðanna suður á við, því að varla hafa Eskimóar nokkurn tíma að staðaldri hafst við sunnan St. Lawrence fljótsins. En þátturinn segir, að árásin á þá Þorfinn hafi verið gerð á landi og getur um engin skip, og gæti það verið áreiðanlegra; væri þá

ekkert til fyrirstöðu, að hér væri um Indíána að ræða. Hins vegar er þess ekki að vænta, að Íslendingar kynnu að gera greinarmun á Eskimóum og Indíönum, þeir eru svo líkir hvor öðrum og litu kommenn þá sömu augum; þeir skoðuðu þá líklega fremur dýr en menn og gátu ekki fengið af sér að kynnast þeim frekar. Því er það vel mögulegt, að Skrælingjarnir á Vínlandi hafi verið Indíánar, en þeir á Marklandi Eskimóar. Nöfnin, sem höfð eru eftir drengjunum frá Marklandi, hefir William Thalbitzer talið, að geti verið og séu líklega Eskimóa-nöfn, en það er þó varla mikið byggjandi á þeim; þau eru auðsjáanlega mjög afbökuð. Það getur mér varla skilist, að sjálft orðið Skrælingi sé af eskimóiskum uppruna, eins og hann heldur fram. En lýsingin á Skrælingjunum í sögunni og viðureignin við þá er, þegar á alt er litið, eitt af merkilegustu atriðunum og ef til vill sýnir bezt, að hér sé verulega um sögulega atburði að ræða. En nákvæmlega verður staða landanna ekki ákveðin eftir því.

Og það verður hún heldur varla af lýsingum landslags og landskosta. Því hefir verið haldið fram, að landslýsingarnar í sögunni væru svo úr garði gerðar, að auðvelt ætti að vera að finna staðina samkvæmt þeim. Og hver er svo árangurinn? Nálega allir, sem um málið hafa skrifað, hafa hver sína skoðun, einkum að því er Straumsfjörð og Hóp eða Vínland snertir. Það virðist nokkurn veginn samkomulag um það, að Helluland sé Labrador, einkum norðurhluti þess, en Markland annaðhvort suðurhluti Labradors eða öllu heldur Newfoundland. Og það er varla efamál, að það sé rétt; þar er tæplega um lýsinguna að villast. Hellur og refir eru einkennilegir fyrir Labrador, en skógar og dýr fyrir Newfoundland, og voru þar þó meiri skógar meðfram austurströndinni fyrrum en nú. Þar sem segir, að siglt hafi verið í svo og svo mörg dægur, það greiðir ekki úr málinu, því að í fyrsta lagi er ekki alveg víst, hvort hér sé heldur um tólf eða tuttugu og fjórar stundir að ræða, og hvort sem væri, hlýtur að vera eitthvað bogið við þær tölur. Áttavísunin er heldur ekki ætíð sem ábyggilegust, enda hætti fornmönnum við að telja norðurátt nokkuð til norðausturs; er líklega sú ástæðan til nafnanna Eystri- og Vestri-bygð á Grænlandi. En eitt af því merkilegasta með tilliti til staðaákvörðunar er greinin í þættinum um sólarganginn í skammdeginu á Vínlandi og skal vikið að því síðar. Og svo eru loks vínberin og hveitið; það hefir löngum verið þrætuepli. Þó að sjálfsprottin vínber hafi að vísu fundist svo norðarlega sem í Nova Scotia á síðari tímum, þá verður það þó varla tekið sem sönnun fyrir því, að þau hafi þroskast þar á þeim tíma, sem hér getur um. Alment er talið, að þau muni víst ekki hafa vaxið norðar á ströndinni en í Massachusetts, eða ef til vill Maine. Og ef hér er því virkilega um vínber að ræða, þá yrði að leita Vínlands þar; en nú

getur margt komið til greina. Ef til vill voru þetta ekki vínber, heldur einhver önnur ber, sem vín mátti gera úr, og létu því farmenn það heita vínber til þess heldur að gera mikið úr landkostunum, nokkuð líkt og þegar Eiríkur rauði nefndi land sitt Grænland, eða Þórólfur smér lofaði Ísland. En það þarf alls ekki að telja það ómögulegt, að þeir hafi komist svo langt suður eftir, að þeir hafi fundið veruleg vínber. Hér er þess líka að gæta, að margir franskir landkönnunarmenn, sem fóru á 17. öld til þessara landa, jafnvel til St.Lawrence flóans,geta um vínber og korn; í sumum tilfellum hefir því þó víst verið bætt inn í frásögn þeirra eftir á. Með hveitið er öðru máli að gegna; að þar sé virkilega um sjálfsáið hveiti að ræða, er frágangssök, því að það gátu þeir ekki fundið á austurströndinni. Það hlýtur því að hafa verið eitthvað gras, sem líktist hveiti, hvort sem það nú hefir verið maís eða eitthvað annað, það verður ekkert um það sagt. Frönsku ferðasögurnar geta um líkt; þó nefna þær aldrei hveiti, heldur korn. Mösurinn er að öllum líkindum viss birkitegund.

Landafundir þessir og ferðir eru eingöngu kunn frá sögum Íslendinga, og því miður hefir enn þá ekkert fundist um ferðirnar, sem óháð væri sögunum og hægt væri að bera þær saman við. Mest væri um það vert, ef einhver merki eftir Íslendinga fyndust á meginlandi Ameríku, svo sem rústir eða annað þvílíkt. En hingað til hafa menn ekki rekist á neitt þess konar, sem við nánari rannsókn hefir reynst ábyggilegt. Fyrst héldu menn að á Dighton klettinum í Taunton-fljótinu í Massachusetts væru rúnir og latneskt letur, og þóttust sumir jafnvel geta lesið það; en brátt kom það upp úr kafinu, að þessar myndir voru eftir Indíána og stóðu í engu sambandi við Evrópumenn eða Vínlandsferðir. Þá var og sívala rústin (Round tower) í Newport, Rhode Island, um eitt skeið talin að vera af norrænum uppruna; en nú er það sannað, að það er rúst af vindmylnu, sem Benedikt Arnold, nýlendustjóri í Rhode Island, bygði nálægt miðri 17 öld. Steinar fundust nálægt Yarmouth í Nova Scotia fyrir nokkru og þóttust sumir sjá rúnaristur á þeim, en ekki reyndist það svo. Þá ritaði og E. N. Horsford, prófessor við Harvard-háskóla, mikið um rústir, sem voru nálægt Charles River (Karlsá) í Massachusetts, og taldi þær vera af Leifsbúðum, en dr. Valtýr Guðmundsson, sem fenginn var til að rannsaka þær, lýsti yfir því, að ekki gætu þær verið eftir norræna menn. Og svo er síðast en ekki sízt Kensingtonsteinninn frá Minnesota, sem fundinn var fyrir nokkrum árum. Á honum er löng rúnarista um Norðmenn og Gauta, sem þangað hafi komið seint á 13. öld og orðið fyrir árásum Indíána og því snúið aftur. Þessi áletran er fölsuð frá upphafi til enda og búin til seint á 19. öld, þó ekki sé víst, hver gert hafi.

Það er því ekki í önnur horn að

venda, en að halda sér við sögurnar íslenzku, brjóta þær til mergjar og reyna svo að komast að einhverri niðurstöðu um legu landanna, sem hér er um að ræða. Margir hafa lagt hönd á plóginn og tekist misjafnlega, eins og við var að búast. Skal eg nú í stuttu máli gera grein fyrir því helzta, sem um málið hefir verið ritað.

Í Grænlands sögu sinni tók Arngrímur Jónsson lærði þetta mál fyrst til meðferðar, og skýrir þar frá landafundunum samkvæmt Grænlendinga þætti, og taldist til, að Vínland væri á 58° 26′ n. br. Grænlands sagan var þýdd á íslenzku af Einari Eyjólfssyni og prentuð í Skálholti 1688, einmitt sama árið sem Grænlendinga þáttur kom þar fyrst á prent í Ólafs sögu Tryggvasonar. Arngrímur þekti víst ekki Eiríks sögu. Það gerði Þormóður Torfason; samdi hann rit á latínu, sem hann kallaði sögu Vínlands hins forna (*Historia Vinlandiæ antiquæ*) og prentuð var í Kaupmannahöfn árið 1705, og skýrði þar frá efni bæði Eiríks sögu og Grænlendinga þátts, og líka frá því, sem um þetta var að finna í öðrum söguritum. Ekki þótti honum það veikja trúna á frásögnina, að heimildunum bar ekki saman. Það var öðru nær; honum fanst það einmitt sönnun fyrir áreiðanleik viðburðanna, að ekki var skýrt frá þeim á sama hátt bæði í sögunni og þættinum, það sýndi sem sé, að tveir höfundar hefðu ritað um þetta, hvor öðrum óháðir, og gæti því ekki komið til mála, að þetta væru lygar. En hann lætur aðra um það að segja, hvar þessi lönd hafi legið. Hann fylgdi í fyrstunni skoðun Arngríms um breiddarstig Vínlands samkvæmt sólargangnum þar eftir þættinum, og telur eins og hann það vera 58° 26′, og því muni það vera í hinu svo nefnda Estotilandi, sem lengi var talið liggja norðaustan til við Ameríku; sýnir þetta, að landfræðishugmyndir Þormóðs hafa verið æði þokukendar, en svo var reyndar um fleiri á þeim tíma. Í viðbæti við bókina breytti hann þó skoðun sinni, kvaðst hafa misreiknað breiddina og taldi hana nú 49° n. br., og kom það betur heim við landskosti þá, er sagt var að væri á Vínlandi, og væri þess þannig að leita í námunda við eða á Newfoundlandi.

Málið lá nú niðri í meira en heila öld, svo að því var lítill gaumur gefinn. Þá kom Karl Kristján Rafn til sögunnar og gaf út árið 1837 stórmikið rit, sem hann nefndi *Antiquitates Americanæ*, og var þar safnað saman öllu því úr forníslenzkum bókmentum og annars staðar frá, er að einhverju leyti snerti þetta efni; íslenzki textinn var prentaður með latneskri þýðingu, sem gerði málið aðgengilegt öllum mentuðum heimi, og svo fylgdu þar með skýringar og ritgerðir. Rafn lét ekkert eftir liggja, að gera alt þetta sem bezt úr garði og var óþreytandi í því að afla sér upplýsinga frá Ameríku viðvíkjandi strandaskipun, landslagi og öðru því, er að einhverju leyti mætti kasta ljósi yfir frásagnir heimild-

anna og ráða fram úr þeim. En hann tók flest trúanlegt og lét sér ant um að láta alt koma sem bezt heim, enda gekk það alt eins og í sögu. Hann tók þáttinn jafngildan og söguna, svo alt féll þar í ljúfa löð, og niðurstaðan varð í stuttu máli þessi: Bjarney (eða Bjarneyjar) við Grænland, sem Karlsefni sigldi frá, var eyjan Disco; Baffínsland og Labrador voru Helluland hið mikla, en Newfoundland Helluland hið litla; þessa skiftingu Hellulands bygði hann á Fornaldarsögum Norðurlanda og Annálum Björns á Skarðsá. Nova Scotia, New Brunswick og löndin þar í kring voru Markland; en Vínland lá í Massachusetts og þar suður af. Kjalarnes var norðuroddinn á Cape Cod, en Furðustrandir austurströndin þar; Marthas Vineyard var Straumsey, en Buzzard Bay Straumsfjörður, og loks Hóp Mount Hope Bay. Hann fylgdi skilningi Páls Vídalíns og Finns biskups á eyktar- og dagmálastað, og útreikningi Tómas Bugges stjörnufræðings í samræmi við hann; þannig varð breiddarstig Hóps 41° 24′ 10″ n. br. Rafn trúði því, að Newport rústin væri af norrænum uppruna, og að rúnir eða latneskt letur væru á Dighton kletti. Írland hið mikla eða Hvítramannaland taldi hann liggja á austurströnd Ameríku alt suður á Florida. Rafn sá um það, að skoðanir sínar fengju mikla útbreiðslu, og ritgerðir hans um þetta mál voru þýddar á flest tungumál Evrópu. Var þeim vel tekið í fyrstu og munu þær hafa sannfært marga; en það sáu þó brátt þeir, sem vit höfðu á, að Rafn hafði sannað of mikið, og svo kom afturkippur í trúna á staðhæfingar hans, og sumir jafnvel hölluðust að þeirri skoðun, að þetta væru sagnir einar og hrófatildur; var þessu því lítt gaumur gefinn um hríð. Þegar öllu var á botninn hvolft, hafði þannig Rafn öllu heldur spilt en bætt fyrir málinu. Það þurfti því einhver að taka það á ný til meðferðar, sem kynni að fara með heimildirnar og rannsaka þær á krítiskan hátt.

Til þessa varð prófessor Gústaf Storm. Árið 1887 kom út löng ritgerð eftir hann um Vínlandsferðirnar.* Hann komst að þeirri niðurstöðu, að lítið væri að treysta frásögninni í Grænlendinga þætti, og rannsóknin yrði því að byggjast aðallega á Eiríkssögu. Þó taldi hann áreiðanlegt, það sem sagt væri um sólarganginn í þættinum; hér væri þó með eykt meint ekki ákveðin klukkustund, eins og fyrri höfundar höfðu talið, heldur sérstakur staður á sjóndeildarhringnum, og væri sólin þar á mismunandi tíma eftir árstíðum. Með aðstoð stjörnufræðingsins Hans Geelmuyden reiknaðist honum til, að norður takmörk slíks sólargangs mundi vera 49° 55′ n. br., en gæti vel verið sunnar, því ekki væri hægt að ákveða takmörkin suður á við. Hins vegar mætti ekki reiða sig alt of mikið á áttavísanirnar í frásögnunum, því að Íslendingar hefðu aldrei komist svo langt suður eftir, og var þess

*) "Studier over Vinlandsreiserne", i *Aarböger for nordisk Oldkyndighed og Historie*, 1887, bls. 293—392.

vegna við því að búast, að þeir gætu ekki vel áttað sig þar. Storm fer varlega í það að staðhæfa nokkuð fyrir fult og fast, en leiðir sem bezt rök að líkindum þeim, sem hann færir fram. Hann telur líkast, að Helluland sé Labrador, því að lýsingin á landslaginu og dýralífinu svari bezt til þess; það geti auðvitað verið norðurhluti Newfoundlands; þar hafi þó melrakkar verið sjaldgæfir svo langt sem sögur ná. Hins vegar sé sennilegt, að Markland sé einmitt Newfoundland, enda hafi Evrópumenn, sem fyrst komu þangað á 16. og 17. öld, sérlega tekið fram skógarvöxt þess, og líka getið þess, að ísbirnir kæmu á eyjarnar þar í kring. Vínland geti maður eftir því helzt búist við að hafi verið Nova Scotia. Kjalarnes væri þá norðuroddinn á Cape Breton Island, en Straumsfjörður einhver af fjörðunum í Guysborough héraði, og Hóp svo legið nokkuð þar fyrir sunnan, en það verði ekki nánar ákveðið. Furðustrandir mun þó nokkuð erfitt að finna á þessum ströndum, en þær hyggur Storm hafi verið austurströndin á Cape Breton eyjunni eða þar suður af. Þegar þeir Þorfinnur fóru í leit eftir Þórhalli veiðimanni, þá hafi þeir siglt norður um Cape Breton (Kjalarnes) og þannig komist inn í St. Lawrence flóann og farið suður með vesturströnd Nova Scotia unz þeir komu að ám þeim, er renna út í Pictou höfnina (Pictou Harbor), þar sem þeir sáu einfætinginn. Eftir upplýsingum þeim, er hann hafði aflað sér úr eldri ritum og frá einstökum mönnum, ætlar hann, að norðurhluti Nova Scotia (Straumsfjörður) liggi utan takmarka vínviðarins, en suðurhlutinn (þar sem Hóps væri að leita) innan þeirra takmarka. Hann vitnar í ýms rit, að á fyrri tímum, og reyndar ennþá, hafi vilt vínber fundist í syðri hluta Nova Scotia, einkum kring um Annapolis. Sömuleiðis geti eldri landkannarar þess, að þar hafi víða vaxið korn, er þeir komu þangað. Vetrarfarið í Straumsfirði og Hópi geti og nokkurn veginn svarað til þess sem eigi sér stað í Nova Scotia. Um Skrælingjana sé það að segja, að Íslendingar hafi þegar af vopnum þeirra og verkfærum séð að þeir voru samskonar lýður og sá, er bygt hafði Grænland og látið þar eftir sig leifar, en frekari greinarmun hafi þeir ekki gert á þeim; þeir hafi ekki greint að Eskimóa og Indíána. Þar sem nú ólíklegt sé, að Eskimóar hafi nokkurn tíma búið fyrir sunnan St. Lawrenceflóann þykir Storm það líklegt, að hér sé um indíánska þjóðflokka að ræða, enda þykist hann geta fært líkur á, að nöfnin, sem handteknu drengirnir gáfu, séu ekki af eskimóiskum uppruna, heldur indíönsk. Þá hafi Beothúkanar búið í Newfoundlandi, en Micmacar í Nova Scotia, og hafi það verið þessir indíönsku þjóðflokkar, sem Íslendingar komust í tæri við. Reyndar virðist lýsingin í Eiríks sögu eiga betur við kajaka eða úmíaka (konubáta) Eskimóa, heldur en við kanóa Indíána, þó sé hún líklega ekki ósamræmanleg við hina síðastnefndu.

Hvítramannaland eða Írland hið mikla sýnir hann hins vegar standi í engu sambandi við Vínlandsferðirnar; það séu írskar sagnir, sem borist hafi til Íslands, enda munu nú flestir á einu máli um það.

Ýmislegt er í rökfærslu Storms, sem að má finna. Það er varhugavert að hafna þættinum, en þó taka frásögnina um sólarganginn gilda; ef hún er áreiðanleg og upprunaleg, kynni eitthvað annað að hafa slæðst með, sem líka væri það. Furðustrandir hefir hann heldur eigi bent á svo viðunandi sé, og fjarlægðin milli Straumsfjarðar og Hóps hlýtur að hafa verið lengri, en hann gerir ráð fyrir, bæði vegna veðráttufars og landskosta, sem og tímans, sem ætla má að tekið hafi að fara þangað úr Straumsfirði. Ef þeir börðust við Indíána í Hópi og það hafi verið í Nova Scotia er líklegt, að Indíánar hefðu ekki látið þá tvo vetur í friði í Straumsfirði, sem eftir skoðun hans ekki lá svo mjög langt í burtu. Að öðru leyti hefir hann farið vel og gætilega með efnið og kent mönnum að fara ekki of geyst í staðhæfingum sínum.

Grasafræðingur amerískur, M. L. Fernald, reyndi því næst að ákveða legu landanna samkvæmt jurtagróðrinum þar.* Hann hallast að þeirri skoðun, að fornmenn hafi viðhaft orðið vínber um önnur ber en þau ein, sem vaxa á vínviðnum, og því þykir honum líklegast, að hér sé að ræða um vissa tegund mýraberja (*vaccinium vitis-idaea*); kæmi það líka vel heim við þáttinn, þar sem sagt sé, að þeir hafi safnað vínberjum um vorið áður þeir sigldu burt; en þessi ber haldist allan veturinn og megi tína þau jafnskjótt og snjóinn leysir. Það er alls engin sönnun eða jafnvel líkur fyrir því, að í fornmálinu vínber hafi þýtt nokkuð annað en ávöxtur vínviðarins. Ver tekst þó tilgáta höfundarins um sjálfsána hveitið. Því hafði áður verið haldið fram af Schuebler og öðrum, að það kunni að hafa verið annað hvort mais eða jurt sú, er kölluð er "wild rice" (*zizania aquatica*), en höfundur segir, að það komi ekki til mála; þessar jurtir séu báðar svo ólíkar hveiti, að þar sé ekki um að villast, og hefir hann víst rétt fyrir sér í því. En hann hyggur, að hveitið hafi verið melur (*elymus arenarius*). Þar sem nú melurinn er alkunnugt gras á Íslandi, virðist það harla ólíklegt, að Íslendingar hafi kallað hann hveiti á Vínlandi. Mösurinn hyggur hann, að hafi verið birkitegundin *betula papyrifera*, og er mjög líklegt, að svo sé. Eftir þessum ályktunum Fernalds hefði Vínland átt að vera fyrir norðan St. Lawrenceflóann, en mér vitanlega hafa þær ekkert fylgi fengið.

Fyrir svo sem tíu árum kom út sérlega merkileg og fróðleg bók eftir Friðþjóf Nansen, sem hann nefndi *Norden i Taakeheimen* og þýdd hefir verið á ensku undir titlinum *In Northern Mists;* er það eins konar landfræðisaga Norðurlanda á fyrri öldum. Er hann þar mjög langorður um Vín-

---

*) "Notes on the plants of Vineland the good", in *Rhodora* XII, 1910, pp. 17-38.

landsferðirnar, enda hélt hann og fyrirlestur um þær í konunglega brezka landfræðisfélaginu árið 1911, þar sem hann gaf stutt yfirlit yfir skoðanir sínar á þeim. * Það gat ekki hjá því farið, að mikil athygli væri veitt orðum svo frægs manns eins og Nansens; hafa því skoðanir hans á þessu máli verið ræddar mikið, en ekki verður sagt, að margir hafi fallist á þær. Hann heldur því fram, að það, sem Adam frá Brimum og íslenzkar sögur segja um Vínland hið góða, séu sögusagnir, sem eigi rót sína að rekja til sagnanna um *Insulæ Fortunatæ* eða Sælueyjarnar, er alt í frá fornöld hefðu gengið á Vesturlöndum; þessar eyjar áttu að liggja einhvers staðar í úthafinu langt til vesturs út við heimsröndina eða hið myrka haf. Lýsingin á eyjum þessum, eins og hún standi í ritum Isidórs frá Seville, sé í fullu samræmi við íslenzku lýsingarnar á Vínlandi. Ísidór segir, að þar séu fjallhryggirnir þaktir villi-vínviði og korn og matjurtir séu jafn algeng eins og gras. Eyja þessara er oft getið í írskum ritum og helgisögum, eins og í sögunni af hinum heilaga Brandanus, sem fann í úthafinu Vínberjaeyjuna (*Insula Uvarum*), þar sem alt var þakið þéttasta vínviðarskógi og vínberin voru svo stór og mörg, að sum trén voru beygð niður að jörð af þunga þeirra. Jafnvel Furðustrandir hyggur Nansen að sé þýðing úr írsku, því í sögnunum þar séu til lík nöfn á löndum og landshlutum í úthafinu, svo sem Furðuland og Miklaströnd. Þar sem bæði rit Ísidórs og Brandanus saga voru kunn á Íslandi, ályktar Nansen, að það sanni, að frá þeim stafi Vínlandssagnirnar. En hér er við það að athuga, að það er víst, að Vínlandsnafnið var notað á Íslandi og í Danmörku á 11. öld, en það er alveg ósannað og enda ólíklegt, að rit Ísidórs og Brandanus saga hafi þá verið kunn þar, þótt þau yrðu það síðar. Jafnvel lýsingin á Skrælingjunum á Vínlandi heldur Nansen sé runnin frá írskum sögnum um álfa og yfirnáttúrlegar verur, sem sagt væru að byggju í þessum úthafseyjum. Alt þetta leitast hann við að sanna með miklum lærdómi og tilvísunum í gömul rit, en stundum verður samanburðurinn æði smásmuglegur, eins og í dæmi því, er hér skal greina. Í Eiríks sögu segir, að þeir Karlsefni hafi séð fjölda húðkeipa róa fyrir nesið, voru þeir svo margir sem *kolum* væri sáð. Þetta á að vera bergmál úr sögu Brandanusar, þar sem sagt er frá því, er hann og félagar hans komu til einnar eyðieyjar og jafnskjótt og þeir komu þar í höfn, fyltist hún af djöflum í dvergalíki svörtum sem *kol!* Margt er þó vel athugað hjá Nansen, eins og við var að búast, þar sem annar eins þjóðsagnafræðingur og Moltke Moe aðstoðaði hann. En þeir hafa farið alt of langt og viljað sanna ofmikið. Að fyrsta áliti virðist skoðun þeirra mjög líkleg. Því er ekki að neita, að sagnir gengu um úthafseyjar með sömu landskost-

*) "The Norsemen in America", í *The Geographical Journal*, 38. bindi 1911, bls. 557—580.

um og sagðir voru á Vínlandi; þó ómögulegt sé að sanna, að sjálft Vínlandsnafnið stafi frá þessum sögnum, er hins vegar ekki ólíklegt, að þegar þær urðu kunnar á Íslandi, hafi þær verið settar í samband við Vínland og því litað nokkuð lýsingarnar á því og líklega verið orsökin til þess, að 'hið góða' var bætt við nafnið, því það er ekki upprunalegt, þar sem hvorki Adam né Ari hafa það. En þó nú Nansen þannig skoði Vínland skröksöguland, neitar hann því ekki, að Íslendingar og Grænlendingar hafi komist til meginlands Ameríku. Sögnin um fund Leifs, segir hann, verði ekki rakin lengra en til 13. aldar, en það sé margt í Eiríks sögu, Grænlendingaþætti og víðar, sem sé órækt vitni um ferðir til Ameríku, og því sé full ástæða til þess að skoða Helluland og Markland sem veruleg lönd, er fundin hafi verið þar vestra, og þó hann reyni ekki að staðfæra þau nánar, virðist hann helzt ætla, að þeirra sé að leita á Labradorströndum. En það er undarlegt, að hann skuli telja meðal sannana fyrir landafundunum tilgátuna um uppruna lacrosseleiksins. Árið 1904 kom Norðmaðurinn Ebbe Hertzberg fram með þá skoðun, að það mundi vera náinn skyldleikur milli norræna knattleiksins og lacrosse-leiksins.* Nú var það talið af amerískum rithöfundi, sem rannsakað hafði málið, að lacrosse mundi komin upp meðal Indíána við St. Lawrencefljótið og breiðst þaðan út um Ameríku. Því þótti Hertzberg ekki ólíklegt, að Íslendingar kynnu að hafa kent Indíönum þeim, er þeir komust í kynni við, knattleik, og væri það uppruni lacrosseleiksins. En nú eru menn ekki á einu máli um það, hvernig norræni knattleikurinn hafi verið. Dr. Björn Bjarnason var þar annarar skoðunar en Hertzberg, og hafa menn alment hallast að skoðun Björns. Tilgáta Hertzbergs er því ekki einungis ósönnuð, hún er jafnvel harla ólíkleg.

Einn af þeim, sem ritað hafa gegn Nansen, er William H. Babcock, amerískur lögfræðingur; hefir hann um langan tíma lagt stund á þetta mál, einkum í sambandi við fornar sagnir um eyjar og lönd í úthafinu og gömul kort. Bók hans, *Early Norse visits to North Aemrica,* kom út árið 1913. Hann vegur efnið vel og setur það fram skilmerkilega. Hann leggur litla áherzlu á Grænlendinga þátt og hallast helzt að skoðunum Storms, og tilgátur sínar setur hann fram með varkárni. Honum þykir líklegast, að Þorfinnur hafi lagt út á Baffinsflóann frá eyjum þeim, sem liggja fyrir landi þar sem Godthaab er nú, og siglt þaðan í suður unz hann kom að Labradorströndum, sem þeir nefndu Helluland; vegna eyja og skerja, sem þar er krökt af, hafi þeir svo siglt langt frá landi suður eftir, þar til þeir komust til Newfoundland, er þeir hafi kallað Markland, og sé Avalon-skaginn líklega Bjarney, þó aðrar eyjar geti þó komið til greina. Þaðan hafi svo verið farið til Nova Scotia, og

---

*) "Nordmændenes gamle Boldspil", i *Historiske Skrifter Tilegnede Ludvig Daae,* Kristiania 1904, bls. 186—220.

hyggur hann, eins og Storm, að Cape Breton hafi líklega verið Kjalarnes. En þegar kemur að Furðuströndum, vandast málið. Austurströndin á Nova Scotia, eins og hún er nú, geti með engu móti samrýmst því, sem segi um Furðustrandir, en vel geti verið, að hún hafi breyzt að mun síðan á 11. öld. Rannsóknir hafi sem sé sýnt, að austurströndin á Ameríku fyrir norðan Massachusetts hafi risið að mun, sumstaðar, eins og á Labrador, að miklum mun, og ef svo hefir verið á Nova Scotia, getur það hafa breytt talsvert útliti strandarinnar. Straumsey telur hann líklegt að sé Grand Manan eyjan og Straumsfjörður Passamaquoddy fjörðurinn þar inn af. Því til stuðnings tilfærir hann aðallega hina miklu strauma og mismun á flóði og fjöru, sem eigi sér stað í Fundy-flóanum. En eigi menn að taka söguna um vínberin og hveitið trúanlega, verði að leita Hóps sunnar. Eftir því sem höfundur kveðst hafa komist næst, hefir óræktaður vínviður varla þróast norðar en Massachusetts. Um sjálfsána hveitið vill hann ekkert segja með vissu, og erfitt sé að eiga við lýsinguna á íbúum landsins, en þó geti mörg einkennin, sem tilfærð séu um Skrælingjana, heimfærst upp á ýmsa Indíánaflokka þar um slóðir. Erfiðast af öllu muni þó að finna Hóp þar suður frá, því að hér hefir ströndin sigið að mun á síðari öldum og líti því alt öðruvísi út en á dögum Þorfinns. Þó finst honum freistandi að geta þess til, að Hóp sé Mount Hope Bay, og þykir honum það þó engin meðmæli með tilgátunni, að Rafn hafði komist áður að þeirri niðurstöðu. En hvar eru þá fjöllin í Hópi?

Árið 1914 kom út *The voyages of the Norsemen to America*, eftir William Hovgaard, fyrrum foringja í sjóliði Dana og síðar prófessor við Fjöllistaskólann í Boston, og bróður Hovgaards þess, er eitt sinn var skipstjóri á "Thyru" og mörgum Íslendingum var að góðu kunnur. Það er í fyrsta skifti að siglingafróður maður hefir ritað ítarlega um málið; þó verður vart sagt, að hann hafi gefið nýjar skýringar á því eða opnað nýja vegu til skilnings á ferðunum, sem menn geti alment fallist á. Samt má taka það fram, að hann bendir á, að efalaust muni rétt sagt frá ferð Þorfinns upp með vesturströnd Grænlands jafnvel norður fyrir Vestribygð, því það sýni einmitt, hve athugulir og reyndir fornmenn hafi verið í sjóferðum og siglingum. Ísbreiðan liggur oft fyrir vesturströndinni á vorin og fram eftir sumri norður að 63° n. br., en þar fyrir norðan og alt upp að 67° n.br. er að miklu leyti auður sjór. Með því að fara svo norðarlega út í Baffínsflóann, gat Þorfinnur búist við, að förin gengi greiðar, að hann losnaði við ísinn og að hann hefði strauma og vind með sér suður eftir. Hovgaard telur Grænlendinga þátt jafn-áreiðanlegan og Eiríks sögu, og leggur því hvorttveggja til grundvallar fyrir rannsókn sinni. Hann telur upp þrjá möguleika, að því er snertir vínberin, hveitið og mösurinn. Í fyrsta lagi kunni

landkannendur virkilega að hafa fundið vínber; í öðru lagi megi telja víst, að þeir í öllu falli hafi fundið mýraber og ribsber, einhverjar grastegundir líkar hveiti, og birkitré, og geti það legið til grundvallar fyrir sögunum. Í þriðja lagi hafi ef til vill landkannarar sjálfir eða seinni sögumenn fundið upp á því að segja, að þetta hafi fundist þar, til lofs og dýrðar nýja landinu eða til að fegra frásögnina. Fyrsta möguleikann vill hann láta gilda um ferðir Leifs og Þorvaldar samkvæmt þættinum, hinir komi til greina við ferð Þorfinns samkvæmt sögunni. Hvort Skrælingjarnir hafi verið Indíánar eða Eskimóar, segir hann sé erfitt að ákveða með vissu, enda muni hafa verið ilt fyrir fornmenn að gera greinarmun á þeim; en báðar heimildarnar beri þess ljósan vott, að hér sé um verulega villimenn að ræða, sem fornmenn hafi séð, en engar ímyndaðar verur, eins og Nansen vildi láta þá vera. Þar sem sagt sé, að Skrælngjarnir í Hópi hafi haft húðkeipa, þá skeri það ekki algerlega úr; það geti verið, að Íslendingar hafi ekki nákvæmlega gætt að bátunum eða úr hvaða efni þeir voru, og svo kunni það líka að hafa blandast í sögunni; húðkeipar voru alment kunnir frá Grænlandi, en birkibátar óþektir. Tilgáta hans er því, að Skrælingjarnir, sem börðust við Þorvald í þættinum, og þeir, sem komu til Þorfinns í Hópi samkvæmt sögunni, hafi verið Indíánar, og mergurinn blandaður blóði hafi verið einskonar pilsur, sem kunnugt er að Rauðskinnar í Newfoundland bjuggu til. Hins vegar hafi Skrælingjarnir, sem Þorfinnur náði á Marklandi, verið Eskimóar.

Hovgaard er mjög ant um að skýra þáttinn og sýna áreiðanleik hans. Ferð Bjarna Herjólfssonar telur hann ekkert athugavert við og þykir líklegt, að svo langt hafi liðið milli landafunda hans og ferða Leifs vegna þess, að Grænlendingar hafi þá haft annað að starfa en leita landa, og hefi eg vikið að því hér að framan. Hann leggur áherzlu á það, að þátturinn geti um langar, flatar og hvítar sjávarstrandir og þær séu einmitt til á austurströnd Ameríku, og það sé mjög eðlilegt, að fornmenn hafi sérstaklega veitt þeim athygli og munað eftir þeim, því að ekkert líkt þeim þektu þeir frá löndum þeim, þar sem þeir höfðu áður búið. Lýsingin á landinu í sambandi við ferð Þorvalds virðist honum koma mjög vel heim við Cape Cod og þar í kring. Niðurstaðan hjá honum verður því, að landanöfnin í sögunni og þættinum svari ekki til sömu landa. Vínland Leifs og Þorvalds liggi líklega í Massachusetts fyrir sunnan Cape Cod; Markland Leifs geti verið Nova Scotia, og Helluland Leifs og Bjarna muni vera Resolution Island, sunnan til við Baffínsland í Hudsonsundinu. Hins vegar hyggur hann, að Karlsefni hafi aldrei komist eins langt suður eftir eins og hinir; ferð hans hafi gengið seinlegar, því hann flutti svo mikið með sér. Helluland hans sé því sennilega einhvers-

staðar norðan til á Labrador nálægt Four Peaks, en Markland nokkru sunnar kring um Nain eða Davis Inlet, nálægt miðri austurströndinni á Labrador. Sandwich Bay á ströndinni þar sunnar þykir honum líklegt að muni vera Straumsfjörður, og þar suður af alt að Belle Isle sundinu séu Furðustrandir. Kjalarnes sé Cape Bauld á Newfoundlandi, en Hóp liggi í svo kölluðum Sops Arm, sem gengur inn úr White Bay (Hvítaflóa) norðaustan til við Newfoundland. Þetta er nú að snúa upp og niður á sögunni, því að það er víst, að Furðustrandir voru fyrir norðan Straumsfjörð, en hvort Kjalarnes var fyrir sunnan þær eða norðan, verður ekki séð með fullri vissu, en þó liggur næst að halda, að það hafi verið fyrir norðan þær. Þegar Þórhallur veiðimaður skildi við Þorfinn, segir sagan, að hann hafi siglt norður fyrir Furðustrandir og Kjalarnes. Er Þorfinnur fór að leita hans, segir sagan, að hann hafi farið norður fyrir Kjalarnes, en nefnir ekki Furðustrandir. Nú lætur Hovgaard hann sigla úr Straumsfirði í suður, en ekki í norður, eins og segir í sögunni, og fara í gegnum Belle Isle sundið, svo meðfram norðvesturströnd Newfoundlands unz hann kemur til mynnisins á Humberfljótinu, og á hann þar að hafa rekist á einfætinginn. Að hafa svona hausavíxl á hlutunum, er ófært. Og ekki verður því heldur bót mælt, að láta Þorfinn fara þannig að, að gefa þessi nöfn löndum, sem hann vissi að ekki svöruðu til þeirra, er Leifur hafði fundið og nefnt. Það getur varla leikið efi á því, að Þorfinnur hafi haft með sér menn, sem höfðu verið með Leifi eða Þorvaldi, því að slíkt var venja fornmanna, ef þess var auðið, að hafa jafnan með sér menn, er kunnu að vísa leið. En mér virðist að með þessu geri Hovgaard Þorfinn að hálfgerðum refjakarli, eins konar dr. Cook, sem hafi látið það í veðri vaka, að hann hafi komist lengra en hann verulega gerði. Þorfinnur er talinn sæmdarmaður og góður farmaður í sögunni, og því virðist þessi tilgáta fjarri sanni. Yfir höfuð virðist mér úrlausn Hovgaards hafa mistekist. Bók hans er þó merkileg að mörgu leyti, sérstaklega vegna hinna ágætu mynda og margra landfræðilegra upplýsinga, sem hún gefur.

H. P. Steensby, prófessor í landfræði við háskólann í Kaupmannahöfn, gaf út árið 1918 bækling, sem hann nefndi *The Norsemen's route from Greenland to Wineland,* og hafði þar á boðstólum nýja skýringu á ferðunum. Hann hefir annars talsvert fengist við rannsóknir á Grænlandi og meðal annars skrifað bók um Eskimóa. Hann er sömu skoðunar og Storm, að sárlítið verði bygt á Grænlendinga þætti, og fylgir hann því í öllum atriðum Eiríks sögu. Hann leggur áherzlu á það, að Grænlendingar hafi ekki að eins rekist á Vínland, heldur hafi þeim verið vel kunn leiðin þangað. Þetta virðist mér ekki koma vel heim við niðurstöðu þá, er hann kemst að um legu landanna. Hann vill líka láta gæta þess, að forn-

menn hafi siglt með ströndum fram, þegar þeir gátu komið því við, en ódeigir lögðu þeir þó út á djúpið, þegar nauðsyn krafði. Hann er algerlega á sama máli og Hovgaard um ferð þeirra Þorfinns til Vestribygðar og jafnvel norður fyrir hana, og þykir honum það sýna sjókænsku þeirra. Þeir hafi svo fyrst komið að landi norðarlega á Labrador og kallað það Helluland, því næst lent á suðausturströndu þess og þar muni Markland vera, frá Nain og alt til Cape Whittle. Síðan hafi þeir enn siglt fram með ströndinni og beygt inn í Belle Isle sund, séð þá norðurodda Newfoundlands og kallað hann Bjarney. En síðan hafi þeir fylgt suðurströnd Labradors inni í St. Lawrence flóanum, og þar þykist höfundurinn einmitt finna strönd, er svari til lýsingarinnar á Furðuströndum. Ströndin þar er lá, mýrótt, sendin, tilbreytingarlaus og lítt vogskorin, einkum eftir því sem vestar dregur, unz kemur í mynnið á St. Lawrencefljótinu; þá verður hún dálítið vogskornari, eftir því sem lengra dregur inn; hafi þeir sjálfsagt álitið Saguenayfljótið vera fjörð. Loks hafi þeir komið að Hare Island og það sé Straumsey þeirra; og þeir hafi haldið, að St. Lawrencefljótið væri fjörður og kallað það Straumsfjörð. Um veturinn hafi þeir svo búið í eyjunni, en það gerðu þeir ekki samkvæmt sögunni, heldur dvöldu þeir á landi, en fóru á öndverðum vetri út í Straumsey, og skjátlast því höfundi þar. Næsta sumar, segir hann, hafi þeir svo lagt inn eftir fljótinu og komið loks að stað þeim, sem nú er kallaður Montmagny eða St. Thomas og liggur við litla á, og samkvæmt nákvæmustu kortum þykist höfundurinn þar finna öll þau einkenni, er landið hafði í Hópi. En hann kemst í hálfgerð vandræði með að finna Kjalarnes, telur það þó líklega vera Point Vaches austan við mynnið á Saguenayfljótinu; eins gengur honum erfiðlega að rekja för Þorfinns, er hann leitaði Þórhalls veiðimanns. Hins vegar þykist hann jafnvel geta fundið nesið, þar sem skánin var eftir dýrin, þó ekkert nafn sé því gefið í sögunni; það heldur hann sé Orignaux Point (Elgsnes), og dregur hann það aðallega af nafninu. Eins þykir honum það líka benda til þess, að Vínland kunni að vera hér, að Cartier á 17. öld hafi kallað Isle d'Orleans, eyju, sem þar liggur nálægt, Isle de Bacchus, vegna þess að hann fann þar svo mikið af viltum vínberjum. Líklega hafa takmörk vínviðarins legið nokkuð norðar hér inni í landinu en á austurströndinni, og getur tilgáta Steensby ef til vill í því efni staðið betur að vígi en aðrar, en um hveitið erum við engu nær, né með vetrarveðrið í Hópi. Eftir þessu ætti þá sjálft Hóp að liggja í Straumsfirði, en það kemur í bága við söguna. Auk þess er Montmagny ekki fullar 10 mílur danskar frá Hare Island, og yrði það heldur stuttur sumarleiðangur fyrir röska sjómenn. Þar að auki nær það engri átt, að þarna liggi Vínland það, sem Leifur fann samkvæmt sögunni. Hann hefir

varla komist inn í St. Lawrence flóann, hvað þá heldur farið svo langt inn í fljótið. Hann hefði aldrei farið vestur úr Belle Isle sundi, því þar sést land á báðar hliðar; hafi hann rekist inn á flóann, hlyti það að hafa verið gegn um Cabot sund fyrir sunnan Newfoundland, því að það er miklu breiðara, en líklega hefði hann þó þar fengið brátt kenning af landi öðruhvoru megin og áttað sig. Eg held líka næst að ætla af sögunni, að öll þrjú löndin, sem hún getur um, hafi verið aðskilin af sjó, og því hafi þeir gefið þeim nafnið land, en auðvitað er þetta ekki einhlítt. En hvers vegna skyldu þeir hafa farið að beygja vestur með suðurströnd Labradors í staðinn fyrir að halda sér við Newfoundland, sem þeir hlutu að hafa séð, þegar þeir komu í Belle Isle sund, og í þá átt var þó líklegra að leita Vínlandsins, er Leifur hafði komið að, og það má telja víst, að einhverjir hafi verið með Þorfinni, sem áður fylgdu Leifi. Að vísu gefur frásögnin um Þórhall veiðimann, ef hún er sönn, í skyn, að þeir hafi verið í nokkurri óvissu um legu landsins. Eftir vísunni að dæma, er Þórhallur þó að eins óánægður yfir því, að þeir fundu ekki strax Vínland, og notaði það sem ástæðu til þess að snúa heim. En ólíklegast er þó það í þessari skýringu Steensby, að þeir Þorfinnur hafi setið heilan vetur í Montmagny og ekki kannað landið svo vel, að þeir uppgötvuðu, að þeir væru í fljóti en ekki firði. Ef þeir hefðu farið einungis fáar mílur lengra upp eftir, hefðu þeir fundið hvers kyns vatnið var, og ekki mundi sagan hafa gleymt að segja frá því.

Reyndar er það ekki í fyrsta skifti, að reynt er að leita Vínlands inni í St. Lawrence flóanum. Fyrir eitthvað tuttugu árum hélt M. F. Hawley, biskup á Newfoundland, því fram í ritgerð,* að Helluland væri við Point Riche norðarlega á vesturströnd Newfoundlands, Markland sé Magdalenueyjarnar, en Vínland liggi við Miramichifjörðinn. Ástæður hans eru harla léttvægar og virðist ekki ástæða til að fara frekar út í þær hér. Og sama árið sem Steensby kom fram með sína kenningu, gaf einhver dr. Andrew Fossum út bók í Minneapolis, *The Norse discovery of America*, og snýst hún að miklu leyti um St. Lawrenceflóann. En hann beitir líkri aðferð og Hovgaard, tekur bæði söguna og þáttinn gild, og fær svo tvö Vínlöndin, annað, sem þeir Leifur og Þorvaldur fóru til eftir þættinum, langt inni í St. Lawrence fljótinu, en hitt, sem Karlsefni fann á austurströnd Newfoundlands; hann hyggur, að bæði Straumsförður og Hóp hafi verið þar, en Kjalarnes, Cape Norman, norðuroddinn á Newfoundlandi. Höfundur er drjúgur yfir því, að allir hafi áður misskilið hugmynd fornmanna um löndin kring um Grænland, en það situr illa á gutlara, eins og hann virðist vera í þessum efnum, að bregða mönnum eins og Storm um van-

*) "Vinland vindicated", í *Proceedings and Transactions of the Royal Society of Canada*, 2nd Series, Vol. IV, 1898, Sect. II, bls. 77—79.

þekkingu. Hann vill sýna, að Eiríkur rauði hafi komist til Baffinslands, þegar hann var að kanna Grænland; auðvitað er sönnunin fyrir því bygð á röngum skilningi hans sjálfs. Það er engin vissa fyrir því, að Grænlendingar hafi komið til Baffinslands, nema ef vera skyldi á rannsóknarferð þeirra norður eftir árið 1266, og getur það ekki komið til greina í þessu sambandi. Hann segir að Eiríkssaga sé vilhöll Þorfinni, og eignar hann það Hauk lögmanni, afkomanda hans. Eg held Nansen hafi komið fram með líka skoðun, en það er lítil ástæða til að ætla það, því að sagan er eldri en Haukur, og yrðu því einhverjir aðrir niðjar Þorfinns að hafa skrifað hana eða lagað hana í hendi sér. Þó verður að gæta þess, að Landnáma Hauksbókar hefir ein innskotið um það, að Karlsefni hafi fundið Vínland. Hins vegar heldur Fossum, að Grænlendingaþáttur sýni arfsögu Eiríksættarinnar, en það er erfitt að sjá, hvernig því skyldi vera varið. Að minsta kosti virðist þátturinn ekki vera vilhallur í garð niðja Eiríks, þar sem hann sviftir Leif þeim frama, að hafa fundið Vínland fyrstur manna og gerir Freydísi að hinum versta kvendjöfli.

Af þessu, sem nú hefir verið skráð, munu menn sjá, að það er ekki lítill ágreiningur um lausnina á þessari landfræðisþraut. Öllum kemur þó saman um, að fornmenn hafi komist til meginlands Ameríku. Það gat ekki hjá því farið, að þeir fyndu Ameríku, þar sem þeir bjuggu í margar aldir á Grænlandi, eins og merkur enskur landfræðingur komst að orði. En að finna þá staði, þar sem þeir komu að landi, það er þrautin þyngri, og það tekst, að mínu áliti, ekki fyr en einhverjar menjar eftir þá finnast hér vestra. Lýsingarnar á löndunum í heimildunum eru ekki nógu nákvæmar til þess, enda ekki gott að segja, hve áreiðanlegar þær séu. Öllum þeim, sem þekkja bezt sögurit vor, kemur saman um, að Eiríks sögu muni betra að treysta en þættinum. Tímatal hennar virðist koma betur heim við aðrar sögur. Eftir henni ætti ferð Þorfinns að hafa varað frá 1003 til 1006, samkvæmt þættinum frá 1009 til 1011; hið fyrra kemur líklega betur heim við Eyrbyggju. En það má þó engan veginn algerlega vanrækja þáttinn, og þá kemur spurningin, hvernig eigi að sameina hann við söguna, og það hefir ekki tekist hingað til, svo vel megi treysta.

Það er leiðinlegt, að leiðin til þessara landa skyldi gleymast. Á 11. öld er ekki getið um fleiri ferðir en nú hafa verið greindar, en í íslenzkum annálum er sagt frá því, að árið 1121 hafi Eiríkur upsi Grænlendingabiskup farið að leita Vínlands, líklega í trúboðserindum. Er hans svo ekki frekar getið, en sennilega hefir hann ekki komið aftur úr þeirri ferð, því nokkrum árum seinna fá Grænlendingar annan biskup. Enn fremur er þess getið í annálum, að árið 1347 hafi komið skip af Grænlandi minna en smá Íslandsför; það kom í Straumsfjörð hinn ytra og var akkerislaust; voru á því 17 menn

og höfðu farið til Marklands, en síðan orðið hafreka til Íslands. Eftir þessu að dæma er líklegt, að Grænlendingar hafi sótt við til Marklands, þó eigi fari aðrar sögur af því. En þetta er hið síðasta, sem finst um ferðir til þessara landa.

Nú liggur nær að spyrja, hvort þessar ferðir hafi haft nokkra þýðingu fyrir landkannanir á seinni öldum. Að undanskildu því, sem Adam frá Brimum reit, var mönnum utan Íslands ekki kunnugt um landafundi þessa, og rit Adams var aldrei mjög útbreitt, enda mun lýsing hans á Vínlandi hafa þótt harla ótrúleg, svo að menn tóku víst ekki mikið tillit til hennar. Á kort miðaldanna komst Grænland fyrst í byrjun 15. aldar og var það Claudius Clavus, danskur maður, sem fyrstur gerði uppdrætti af því, og tóku svo aðrir kortateiknarar það upp. Storm og aðrir hafa getið þess til, að Illa Verde á gömlum kortum kunni að eiga við Grænland, og Illa de Brazil við Markland, en það er víst áreiðanlegt, að svo er ekki. Einu kortin af löndum þessum, sem til eru frá fyrri öldum, eru íslenzk, eftir Sigurð skólameistara Stefánsson og Jón Guðmundsson lærða.

Það er heldur engin ástæða til að ætla, að Kolumbus hafi heyrt neitt um þessar ferðir. Þó er það víst, að hann kom til Íslands með enskum fiskimönnum frá Bristol. Kafli eftir hann sjálfan, sem tekinn er upp í æfisögu hans, er Fernando Colombo, sonur hans, samdi, skýrir frá því, að í febrúar árið 1477 hafi hann siglt 100 mílur norður fyrir eyjuna Tile (Thule); suðurhluti hennar sé 73° n. br., en ekki 63° eins og sumir segi, og liggi hún vestar en Ptolemæus segi; eyja sú sé eins stór og England og flytji Englendingar þangað vörur sínar, einkum íbúarnir í Bristol; á þeim tíma, sem hann var þar, hafi sjórinn ekki verið frosinn, en mikill var þar munur flóðs og fjöru, alt að 25 föðmum eða meira. Þó margt sé rangt í þessu, þá er engin ástæða til að hafna því. Á þeim tímum var það alment, að mönnum reiknaðist fjarlægðin stærri en hún í raun og veru var, og breiddarstig urðu ekki ákveðin nákvæmlega og um lengdarstigin urðu menn mestmegnis að geta sér til, og hætt var við að menn gerðu of mikið úr stærð landanna. En hvað ísalög snertir, kemur þetta vel heim við íslenzka annála því að þar segir, að veturinn 1476—1477 hafi verið óvenjulega mildur, og ísalaus. Af því að Kolumbus sá engan ís í þessari ferð, kom honum til hugar, að hægt mundi vera að sigla til norðurpólsins, og hafði hann jafnvel í hyggju að reyna það. Af kaflanum verður ekki séð, hvort Kolumbus kom á land á Íslandi eða átti nokkur mök við Íslendinga. Finnur Magnússon gat þess til, að skipið, er hann var á, kynni að hafa komið í Hvalfjörð, og þar sem einmitt á því ári Magnús Eyjólfsson, biskup í Skálholti, visíteraði kirkjurnar á Hvalfjarðarströndinni og Reykjanesi, kynni hann að hafa átt tal við Kolumbus á latínu og sagt honum

frá landafundum Íslendinga, en Finnur hyggur, að það sé mjög líklegt, að Magnúsi biskupi hafi verið kunnugt um þá, þar sem hann áður hafði verið ábóti á Helgafelli, en þar telur hann, að helzt muni hafa verið um ferðirnar ritað. En þetta er getgáta alveg út í bláinn. Kolumbus fór ekki að leita nýrra landa, hann vildi finna sjóleiðina til Indlands.

Það gæti hins vegar verið, að þeir John og Sebastian Cabot, sem sigldu frá Bristol og fundu Newfoundland seint á 15. öld, kynnu að hafa heyrt eitthvað um Vínlandsferðirnar, en þó verður ekkert fært því til stuðnings með vissu. Sakir hinna tíðu ferða milli Íslands og Bristol, er þó ekki ómögulegt, að einhver kvis kunni að hafa komist þangað um þær. En eins og svo margt annað í sögu Cabotanna, verður þetta atriði líka að eiga sig.

Það má nefna höfunda, sem hafa verið að spjara sig á því að sýna, að Kolumbus ætti ekki þann heiður skilið, er honum hafi verið eignaður, að hafa fundið Ameríku fyrstur manna, því að það hafi Íslendingar gert á undan honum. Þetta eru hártoganir einar, því ferðir forfeðra vorra draga engan veginn úr afrekum Kolumbusar eða kasta skugga á hann. Íslendingar fundu að vísu Ameríku, en þeir týndu henni aftur, og var það aðallega vegna þess, hvernig ástatt var í heiminum um þær mundir. Þeir voru alt of fámennir til að nema svo stórt land eins og Ameríku, og þjóðir Vesturlanda höfðu á þeim tímum engan áhuga á skipaferðum og landnámi. Þar voru Norðmenn og Íslendingar nálega einir um hituna, svo að samkepnin var engin. Alt öðru máli var að gegna á dögum Kolumbusar. Þá voru siglingar talsvert auðveldari einkum vegna kompássins, og þá var kapp meðal þjóðanna um sjóferðir og landafundi. Ítalir, Portúgalsmenn, Spánverjar, Frakkar, Englendingar voru þá allir í landaleitum, og flaug þá fiskisagan, ef einhver fann nýtt land, og einn vildi verða öðrum meiri, og þetta voru þjóðir, sem bæði höfðu fé og fólki á að skipa.

Þótt eigi verði séð, að þessar ferðir Íslendinga standi í neinu beinu sambandi við landafundi seinni alda, eru þær engu að síður þýðingarmiklar, því að þær hefja nýtt tímabil í sögu siglinga og sæfara. Alt frá elztu tímum höfðu sjómenn ætíð haldið með ströndum fram, sjaldan farið úr landsýn og ekki hætt sér langt út á haf; jafnan leituðust þeir við, að komast í höfn að kveldi og liggja þar unz dagaði. Að vísu munu Persar og Arabar hafa siglt um Indlandshaf langt frá landi, en þar gátu þeir treyst staðvindunum, enda voru þeim vel kunnar strandir allar umhverfis og gátu þeir leitað þangað, ef í nauðir rak. Norðmenn urðu fyrstir manna til að sigla út á reginhaf og vera úti ekki að eins dögum saman, heldur vikum og jafnvel mánuðum. Þeir höfðu smám saman fært sig upp á skaftið; fyrst komust þeir til Hjaltlands og þaðan til annara vestur-

eyja; svo fundu þeir Færeyjar, Ísland og Grænland, og loks tóku þeir hina syðri leið beint til Grænlands, milli Hjaltlands og Færeyja, eins og sagt er um Leif, og þá mátti ekki mikið út af bera, að þeir ekki rækjust á meginland Ameríku. Það þurfti kjark og karlmensku til slíkra ferða, með þeim tækjum, er menn þá höfðu, og gátu þeir búist við að komast í allskonar hættur og að mæta ófreskjum og illvættum, sem samkvæmt almanna rómi áttu að hafast við í úthafinu.

Ef einhverjir legðu nú út á djúpið, þó ekki væri lengra en milli Íslands og Færeyja, án þess að hafa leiðarstein, sjókort eða hraðamælir, mundu flestir telja þá viti sínu fjær, enda mætti búast við, að þeir yrðu ekki vel reiðfara. En þetta gerðu þó Norðmenn í gamla daga og komust víst oftast að leiðarenda. Á tímum Vínlandsferðanna þektu þeir ekki leiðarsteininn, sjókort höfðu þeir engin eða hraðamæli; ef til vill hafa þeir stundum haft blýsökku til dýptamælinga. Stundaglasið hafa þeir víst ekki þekt, og engin verkfæri til að mæla breidd og lengd; að því er breiddina snerti fóru þeir eftir sólarganginum, en ekki var þeim mögulegt með því að ná neinni nákvæmni; um lengdina gátu þeir víst ekkert vitað með vissu, en þeir gátu sér til um hana af fuglum, ís, hita og lit sjóarins, þar sem þeir voru svo kunnugir, að þeir gátu dregið ályktanir af því. Á daginn sigldu þeir eftir sólinni, á næturna eftir leiðarstjörnunni (pólarstjörnunni). Nú eru í norðurhluta Atlantshafsins þokur, stormar og dimmviðri mjög títt, og má geta því nærri, að fornmenn hafa oft komist í krappan að átta sig þar. Sólarstein hafa þeir ef til vill notað, þó það sé ekki alveg víst. Stundum hafa þeir tekið fugla með sér, eins og Hrafna-Flóki gerði. En þess ber að gæta, að fyrrum voru menn miklu athugulli en nú á tímum, þegar þeir hafa svo mörg og nákvæm verkfæri til aðstoðar. "Nemdu vandlega birting lofts og gang himintungla, dægrafar og eyktarskipan, ok kunn vel at skilja ok marka, hversu þverr eða vex úkyrrleikr sjóar", segir faðirinn í Konungsskuggsjá. Stýrimenn urðu þá að vera fróðir menn og glöggir, þurftu að þekkja loftslag og landslag, dýralíf og jurta, svo að þeir gætu af því getið sér til, hvar þeir væru og hvert halda skyldi; Þannig segir um Þorstein Eiríksson í Eiríks sögu, að þeir höfðu fugl af Írlandi. Og þá var ekki heldur aðbúnaðurinn á skipunum sem beztur; kalt hefir þar verið einatt og vosbúð mikil, og meðan þeir voru á sjó úti, gátu þeir ekki fengið neitt heitt að hita sér á; alt varð að eta og drekka kalt, því að ekki varð þá eldur hafður um hönd. Maturinn hefir víst verið mestmegnis harður fiskur, þurkað eða reykt kjöt, kornmeti og smjör, en drykkurinn vatn, sýra eða ef til vill mjöður. Hvernig þeir gátu birgt sig upp með nóg vatn í langferðir, er ekki gott að vita. Að fara frekar út í þetta efni hér, er þó ekki ætlan mín. En því meir, sem menn kynnast siglingum og sjóferðum hinna fornu Norðmanna, því ljósara verður það, hvílíkir afreksmenn þeir voru á því sviði.

# Málið okkar

*"Gott er að hafa tungur tvær."*

---

Fátæk þjóð í litlu landi
Lengi bjó í friðarskjóli.
Helgisagnir, hetjuandi,
Hennar reyndist undranjóli
Nöðru er aldar andans varðist,
Allur þegar heimur barðist.

Hetjusagnir, hetjuandi,
Heilagt mál frá goðasögum,
Þarna reyndist líf í landi,
Lýðsins sól á myrkum dögum.
Sögumál og söguljóðin
Söng og lærði gjörvöll þjóðin.

Ekkert hefir eins og *málið*
Andað ljúft og þýtt um sveitir,
"Mjúkt sem blómstur, sterkt sem stálið"
Styrk það börnum Íslands veitir. —
Þar er eins og málsins megin
Mönnum bendi á þroska veginn.

Leitið inn — í íslenzk hjörtu,
Andans finnið norður-pólinn:
Málið varð að báli björtu,
Bjartara en júní-sólin.
Eina þjóðlífs ættarbandið,
Arinhella fyrir landið.

Meira varð úr mannsins anda
Málið ef hann lærði *betur;*
Meira úr starfi hugar, handa,
Hlýrri og styttri lífsins vetur. —
Menning fylgdi málsins göfgi,
Málsins blöndun þjóðlífs höfgi.

Málin tvenn—og mörg—hér skarta,
Mörgum láta vel á tungu.
*Málið okkar,* mál vors hjarta,
Mæður fyrst oss börnum sungu.
*Tungumál* þó heimsins heyrum,
*Hjartansmálið* bezt við eirum.

Málið, — okkar móðurtunga,
Málið, — ríkt af Snorra orðum, —
Megingjarða mælsku þunga,
Mjúkt er söng hann Jónas forðum, —
Kent af Guði, mælt af móður,
Minjagripur, helgisjóður.

— — —

Danska, ill og afskræmd, lengi
Íslenzkunnar hreinleik spilti. —
Höfðinginn, í háu gengi,
Hér, sem oftar, margan vilti.
Fyrir það varð fínt og lenzka:
Forðum danska, síðar enska.

Nú skal fórna frægð og ljóðum,
Fornum sögum, hetjuanda,
Öllu, sem með öðrum þjóðum
Enn telzt gimsteinn Norðurlanda,—
Nýrri tízku aldar andans:
Enskunni í munni landans.

— — —

Fátæk þjóð — og úthafseyja,
Aldnar sagnir, fögur ljóðin,
Aldrei fyrnast, aldrei deyja,
Ódauðlegt er mál — sem þjóðin.
— Hvað sem enskir ættmenn skrifa:
*Íslenzkan mun dafna, — lifa.*

*Jónas A. Sigurðsson.*

————o————

# Íslendingar vakna.

Eftir *Indriða Einarsson.*

## I. Íslendingar fá friðinn.

SAGA landsmanna, er full kunn á söguöldinni, og að hér bjó kröftug þjóð og gáfum gædd, sem stýrði sér sjálf, gaf sér góð lög og var allvel efnum búin í samanburði við aðrar þjóðir. Goðarnir stjórnuðu landinu, og komu saman á Alþingi einu sinni á ári, og höfðu sér til fylgdar all-marga menn. Þangað sóktu ekki þingmenn að eins, heldur ýmislegt skyldulið goðanna, og synir og dætur heldri manna. Þar réðu goðarnir fram úr öllum vandamálum, létu dæma dóma, og endurbæta lög með beztu manna yfirsjá. Þeir giftu þar börn sín, sem varð til þess, að flestar heldri manna ættir runnu saman. Álögurnar á þessa þjóð voru þingfararkaupið, sem gekk til þess að standast kostnaðinn af Alþingi, og hoftollar til að halda við hofunum, en í þeirra stað kom síðar tíundin, sem átti að halda uppi klerkum og kirkju.

Eitt vantaði lýðveldi Íslendinga. Það var yfir-framkvæmdarstórn. Og sá galli við fyrirkomulagið varð því að falli. Goðorðin gengu í erfðir. Þau gátu fengist með giftingu, þau gengu kaupum og sölum, og voru oft gefin að gjöf. Landamæri goðorðanna voru ekki fastákveðin. Þingmenn goðans gátu sagt sig undan honum, og valið sér annan goða. Daufgerður maður, atkvæðalítill, hafði ekkert með þá tign að gera, menn vildu ekki fylgja honum, og ef hann komst í málaferli við goða sér voldugri, þá var hann féflettur svo, að mannaforráð hans urðu fremur byrði en valdaauki. Fyrir hann var ekkert að flýja, Alþingi hafði felt dóminn yfir honum, hinn hafði unnið málið, því hann var liðfleiri, og yfirstjórn var ekki til, svo ekki var þangað að leita undan ójöfnuðinum. Sá goði, sem fékk dóm yfir öðrum, varð sjálfur að framkvæma dóminn, og það olli oft mestu óeirðum, vígum og manndrápum.

Þetta hafði fall hins íslenzka lýðveldis í för með sér. Mörg goðorð komust í fáar hendur. Goði, sem stýrði sex goðorðum, var ekki sjaldgæfur höfðingi. Einn einasti goði stóð fyrir öllum Norðlendingafjórðungi frá 1238—46. Svo voldugir menn réðu öllu á Alþingi. Voldugustu höfðingjarnir komu á herútboði innan ríkis síns, og höfðingi Hegraness og Húnaþings reið til Alþingis og til vopnafunda með 700 manns. Á landinu voru megnustu óeirðir frá því Guðmundur góði var orðinn biskup, og til 1246. Eftir það var innanlands styrjöld, sem endaði með því, að landsmenn keyptu friðinn með því að ganga undir Noregskonung, og sverja honum eiða; áður létu hinir inn-

lendu höfðingjar helztu menn í þeim landshlutum, sem þeir lögðu undir sig, sverja *sér* eiða og tryggðir, sem oftast entust illa og voru ekki til frambúðar.

1264 gekk Ísland undir konung, sem síðan gaf landinu lögin, og tók af því skatta. Íslendingar byrjuðu að dotta í löggjöf, líkt og átti sér stað með Norðmönnum. Málið, sem þeir töluðu, var enn sama málið, sem er á Íslendingasögum, Sturlungu og Heimskringlu, en án efa líkast málinu á Sturlungu, sem er nokkru yngra. Áður en landsmenn fengu friðinn, hafði Snorri Sturluson ritað hin ódauðlegu verk sín, Heimskringlu og Snorra-Eddu, og Sturla Þórðarson hafði ritað mikið af Sturlungu og sum önnur rit sín, en ýmsir höfundar skrifað Íslendingasögur. Við stjórnarfarsbreytinguna hurfu rósturnar innanlands. Menn hættu að berjast hundruðum eða þúsundum saman hver við annan. Landsmenn tóku á sig náðir, eftir 60 ára innanlands-óeirðir. — Íslendingar höfðu fengið friðinn.

## II. Landsmenn sofna frá stórræðunum.

Það, sem vanst við friðinn, var ró innanlands, í samanburði við það, sem áður var. Erlendir menn ýmsir, sem hingað voru sendir eða hingað komu, gjörðu tilraunir til að kúga landsmenn, en yfirgangi þeirra lauk jafnan skjótlega, því þeir voru teknir af lífi, eftir að hafa vaðið uppi nokkurn tíma, — oftast stuttan tíma. Íslendingar höfðu fengið yfir sig framkvæmdarvald, en það var fjarlægt vald, sem vissi lítið hvað hér gerðist. Um innlendar stjórnarráðstafanir almenningi til góðs var ekki fremur að tala eftir að landið gekk undir konung, fremur en fyrir þann tíma. Skattar og fésektir, sem ekki þurftu til þess að halda Alþingi uppi—og ekki voru biskups, kirkju eða klaustra tekjur—gengu í konungssjóð. Skylda konungsins var aftur á móti, að halda uppi lögum og réttindum landsmanna, halda við friði innanlands og sjá um, að minsta kosti fjögur skip sigldu á ári til landsins, því ef allir korn-innflutningar stöðvuðust, þá stóð hungrið fyrir dyrum. Að minsta kosti hvíldi þetta fjarlæga vald létt á landsmönnum, það hafði tæpast bolmagn til að kúga þá, og mun heldur ekki hafa haft neina löngun til þess að stjórna öðru vísi en vel, því Íslendingar gátu þá sagt konungi upp trú og hollustu.

Höfðingjarnir höfðu fengið vald yfir sig, sem hélt yfirgangi þeirra á Sturlungaöldinni niðri, en auk konungsvaldsins óx upp vald kirkjunnar í landinu. Fyrir 1264 höfðu höfðingjarnir, eða aðall landsins, ávalt brotið biskupsvaldið á bak aftur, hvenær sem þeim þótti við þurfa. Þeir gerðu það, hvort sem biskupinn, eins og Guðmundur góði, eyddi fé stólsins og fór um með rupli og ólögum, eða flakki og síkjum, eða biskupinn, eins og Þorlákur helgi, vildi vanda um siðina og hafði rétt að mæla. Nú varð höfðingjavaldið að lúta konungi, og kirkjan hóf brátt að sýna yfirgang við landsmenn. Biskuparnir voru orðnir voldugustu mennirnir í landinu. Þeir sóttu

það fast, að draga fasteignir undir kirkjur og klaustur, og varð svo vel ágengt í þeim efnum, að 1525 er gizkað á, að kirkjan hafi átt aðra hvora jörð í Hólabiskupsdæmi. Hver hnignun það hafi verið fyrir landbúnaðinn og sjálfstæði bænda, er hægt að ímynda sér. —

Biskupastólarnir og klaustrin voru aðal menningarsetrin í landinu. Í klaustrunum voru Íslendingasögur og Konungasögurnar skrifaðar upp, hvað eftir annað, og án þeirra hefðu hinar fornu gullaldar-bókmentir gleymst. Það sem kirkjumenningin sjálf lagði til íslenzkra bókmenta, og ritað var í klaustrum og af klerkum þess-utan, voru mest helgimannasögur og kvæði um helga menn, og annálar. Þótt annálar frá þeim dögum verði tæpast vegnir upp með gulli, þá er þó afturförin stórkostleg. Þjóðarmentun, sem frá ritum Snorra Sturlusonar og Íslendingasögum hefir lækkað sig niður til að semja annála og helgimannasögur, á skamt til sólarlags. Þó voru þetta merki um það, að eitthvert líf leyndist með henni. En svo kom Svartidauði 1402 og síðari plágan 1492—5, sem fækkaði landsmönnum um helming í hvort skiftið, eða því sem næst, og tók einkum og sér í lagi klerka og lærða menn, sem allstaðar voru sóttir til að þónusta sjúka. Síðari plágan gjöreyddi staðinn í Skálholti þrisvar að lærðum mönnum. Þjóðinni blæddi til ólífis í plágunum. Þeim höndum, sem unnu að kvikfárrækt og fiskiveiðum, hafði fækkað stórlega. Kraftur þjóðarinnar var horfinn, og eignir hennar urðu verðlausar. Andlegu leiðtogarnir voru dauðir, og dauðadvala svefn færðist yfir alt framkvæmdalíf og andlegt líf Íslendinga. Íslenzka þjóðin var sofnuð, og kirkjan notaði sér af verðfalli fasteigna til að útvega sér jarðirnar til kaups eða að gjöf, og þaðan stafaði veldi hennar, þegar landsmönnum fór að fjölga aftur.

### III. Svefnrof.

Þrátt fyrir þjóðarsvefninn vakna þó stórmenni landsins tvisvar frá 1500 til 1760. Í fyrra skiftið er það fall kaþólsku kirkjunnar, sem vekur atgjörðadjarft stórmenni til framkvæmda, og í hitt skiftið er það lúterska trúin, sem vekur sigrihrósandi tvo andans menn og gefur anda þeirra ljóma, sem nú enn í dag lýsir skæran. Fyrra skiftið var það Jón biskup Arason, sem reis upp og hófst handa til þess að verja trúna og hið pólitíska sjálfstæði landsins. Jón Arason var íslenzkari en nokkur Íslendingur, og í ríkisráði Noregs var hann norskari, en nokkur Norðmaður. Hann var skáld gott og einkennilegt. Hver setning, sem höfð er eftir honum, og því-nær hver vísa, sem til er eftir hann, vekur sömu tilfinningar hjá manni eins og maður sjái gamm slá með stálkló niður í klett. Tvö síðustu árin áður en hann var "dæmdur af danskri slekt" til dauða, vakti hann upp Sturlungaöldina aftur, fór með her manns yfir og lagði Skálholtsstað undir sig, og ávalt hafði hann lög að mæla, segja lögfræðingar vorra

daga. Hann leitaði liðsinnis páfa, sem andlega yfirvaldsins í heiminum, og liðsinnis rómverska keisarans, sem bar varnarsverð trúarinnar. Hann lagði alt landið undir sig um tíma, nema "hálfan annan kotungsson". Það var heili kotungssonurinn, sem sigraði Jón Arason í bardaganum á Sauðafelli 1550, tók hann og sonu hans tvo til fanga, og voru þeir síðan teknir af lífi í Skálholti 7. nóv. sama ár. — Eftir dauða Jóns biskups Arasonar var kaþólskan fallið veldi á Íslandi; mikið af eignum kirkju og klaustra rann til konungsvaldsins, sem ókst að miklum mun við að eignir og andlegt vald kirkjunnar féll til konungsins.

Það var kraftur í vörn og baráttu Jóns Arasonar fyrir trú og kirkjuvaldi, eða höfðingjaveldinu gamla, sem þá var horfið undir kirkju og biskup. Ólafur Engibrektsson, sem var erkibiskup í Niðarósi, vildi veita sömu viðstöðu gegn lúterskunni og konungdóminum sem Jón Arason hér. Þeir, sem munu hafa verið bærastir að dæma um afl hinnar íslenzku og norsku þjóðar, munu hafa verið konungurinn og ríkisráð hans. Þeir dæmdu svo um málið, að þeir sendu 400 leiguhermenn til Noregs, en 3 herskip með 1,600 manna til Íslands. Þeir hafa litið svo á, sem meira liðs þyrfti með gegn Jóni Arasyni, en erkibiskupinum í Niðarósi. —

Næst þegar Íslendingar rjúfa svefninn, þá er enn vaknað fyrir innan endimörk kirkjunnar. En nú er það lúterska kirkjan, sem vaknar, því 100 árum eftir dauða Jóns Arasonar hefir hún fest rætur á Íslandi. Fátækur prestur, holdsveikur og heilsulaus, lýkur við Passíusálmana 1659, eftir að hafa verið að yrkja þá í 10 ár. Þetta ágætis-verk Hallgríms Péturssonar hefir verið sungið svo að segja á hverju heimili fram til vorra daga síðan, og hefir sett sterkan blæ á trúarlíf landsmanna. Annað mikilmennið, sem vaknaði á andans sviði, var Meistari Jón Vídalín, biskup í Skálholti, landsins mesti mælskumaður. Eftir hann kom út 1717 hin ágæta Vídalíns postilla, sem var höfð til húslestra á sunnudögum um alt land fram til 1870, og hefir haft óvenju mikil áhrif á íslenzkt trúarlíf í 160 ár. Alt þetta tímabil var það kirkjan ein, sem vaknaði; allar aðrar bókmentir frá þeim tímum má segja að liggi undir snjó og séu faldar í handritum, sem fáir þekkja og fáir vita um.

## IV. Íslenzkar bókmentir vakna.

Eftir síðari pláguna, 1492—95, leit svo út um tíma, sem íslenzka þjóðin mundi deyja alveg í svefni; lærðir menn voru um tíma undir lok liðnir, og á þeim bar lítið þangað til að trúarbragðaskiftin vöktu þá upp aftur eftir tvo mannsaldra. Árið 1700 eru 54,000 manns á landinu. Páll Vídalín og Árni Magnússon gerðu þau nefndarstörf, sem þeim voru falin, með þeirri snild, sem hver hin mesta mentaþjóð heimsins mundi hrósa sér af þann dag í dag, ef þau hefðu verið gerð hjá þeim. Í skáldskapnum er það samt sem áður Eggert Ólafsson, sem fyrst byrjar endur-

fæðingu íslenzkra bókmenta. Hann yrkir eftir nýtízku hætti, hann yrkir búnaðarbálk, eins konar kenniljóð um búnað; hann yrkir eymdaróð, sem sýnir afleiðingarnar af löku búskaparlagi; hann yrkir heimsádeilukvæði og gamankvæði o.s.frv. Tilgangur hans með kveðskap sínum var að kenna landsmönnum að yrkja líkt og títt hafði verið með Rómverjum, og títt var þá- annars staðar í heim inum. Kennikvæði hans má heimfæra undir realismann gamla. Hann hefir ritað formála fyrir kvæðum sínum, áður en hann lézt, og þótt hann druknaði 1768, komu þau ekki út í heild sinni fyr en 1832, þótt Búnaðarbálkur og fleiri kvæði hans væru gefin út meðan hann lifði.

Áður en Eggerts Ólafssonar misti við, var að renna upp annað skáld, sem ekki hafði minni þýðingu fyrir íslenzka menningu en hann. Það var þjóðskáldið Jón Þorláksson. 1768 er hann 24 ára og byrjaður að yrkja. Kvæði Jóns Þorlákssonar voru numin, sungin og kveðin frá því fyrsta. Eggert Ólafsson yrkir af lærdómi, þekkingu og mentun, Jón Þorláksson er skáldið af guðs náð. Andi hans er skýr og skarpur og fjörugri en flestra annara skálda landsins. Hann notaði þó ekki gáfur sínar til þess að yrkja heildarkvæði, eins og til dæmis eru Passíusálmar Hallgríms Péturssonar, enda má segja, að íslenzk skáld hafi lítið gert að því. Í öllum rímum er sagan samin áður, og skáldið fylgir sögunni oftast eins og þjónn, sem gengur á eftir húsbónda sínum og fetar í fótspor hans. Séra Jón Þorláksson tók upp á herðar sínar að þýða snildarljóð annara þjóða og gjöra þau kunn á Íslandi. Ungur byrjaði hann að þýða kvæði eftir Tullin, og valdi sér svo hvert hlutverkið öðru stærra í sömu átt. Hann þýddi "Tilraun um manninn" eftir Pope. Hann þýddi allan "Paradísarmissir" eftir Milton, og að lokum "Messíasar kviðu" eftir Klopstock. Þýðingin á Klopstock varð hinn eiginlegi svanasöngur þjóðskáldsins. Hann lauk henni, þegar hann var kominn yfir sjötugt, haltur eftir illa læknað fótbrot og líkamlega bugaður af gigt og því, sem alment er kallað fátækt, og hafði þá leitt til sætis á bekk íslenzkra bókmenta aðalstórverk þriggja erlendra heimsskálda. — Þótt verðlaunin kæmu of seint, þá komu þau þó. Friðrik VI. veitti séra Jóni Þorlákssyni 40 ríkisdala skáldalaun síðasta árið sem hann lifði. Henderson biskup á Englandi útvegaði honum 30 pund sterling árlega. Sé þessum skáldalaunum breytt í nútíðargildi (árið 1919), verða þau alls 3,300 kr. árlega. En Jón Þorláksson naut þeirra ekki, nema hvað hann átti þau vís síðasta árið, sem hann lifði. Enskur maður lagði fram féð til að gefa út "Paradísarmissir". Þegar séra Jón Þorláksson lézt 1819, orti Dr. Magnús Stephensen beztu erfiljóðin sín eftir hann, og stendur þetta snemma í kvæðinu:

"Svans ei framar söngvar fagrir hljóma,
Suða taka hásir gæsa rómar".

Svo mjög þótti honum hafa hljóðn-

að yfir íslenzkri ljóðlist við lát þjóðskáldsins.

"Hásir gæsarómar" áttu þó ekki að suða lengi einir saman. Bjarni Thorarensen kom heim hingað 1811, og var byrjaður að yrkja áður en hann kom heim úr siglingu, og Jónas Hallgrímsson var þá 12 ára og gekk til prests í Bægisársóknum. Bjarni Thorarensen lézt 1841, en Jónas Hallgrímsson 1845. Bjarni var stórfengilegt skáld, íslenzkur í húð og hár, oft er hann talinn framhald af Eggert Ólafssyni, en er það ekki. Stór-töfrar íslenzkrar náttúru og hetjumyndirnar úr sögunum hafa gjört hann að skáldi, og skapað hann í sinni mynd, það er að segja í þeirri mynd af hvorutveggju, sem hann vildi helzt sjá. Bjarni var mikill en lítt slípaður demant, sem mun kasta geislum yfir íslenzka ljóðlist langt fram á ókomnar aldir, hve nær sem hann er tekinn upp. Hingað barst fyrir nokkru sú smásaga af Selmu Lagerlöf, að hún læsi aldrei nema eitt einasta kvæði, og það væru Sigrúnarljóð Bjarna Thorarensens. Bæði útlend skáld og innlendir menn finna til þessara risavöxnu og sérkennilegu hugmynda, sem framar öllum öðrum skáldum bregður fyrir hjá honum. — Jónas Hallgrímsson er annað þjóðskáldið frá sama tímanum, sem átti að fylgja þeirri köllun, að endurreisa íslenzka ljóðlist. Í skóla "Fjölnismanna" — en hann var einn af helztu höfundum "Fjölnis" — hafði hann lært málið, ef honum var ekki tilfinningin fyrir því meðfædd gáfa. Hann yrkir hvert kvæðið öðru fegurra, og á máli, sem englarnir að líkindum tala, þegar þeir tala íslenzku. Hann yrkir "kvæðin ljúfu, þýðu", svo að allir lesa þau með unun, og enginn seinni aldar maður hefir kveðið á íslenzka tungu með annari eins snild og þýðleika. Margur, sem fer yfir íslenzkar bókmentir í huganum, hneigist að því að líkja Bjarna Thorarensen og Jónasi Hallgrímssyni til Goethe og Schillers á Þýzkalandi, og að þeir séu upphafsmennirnir að því að vekja íslenzka ljóðlist af dvala.

Eftir 1830 tóku rithöfundar mjög að hreinsa málið og voru þeir þar fremstir í flokki Konráð Gíslason og Sveinbjörn Egilsson. Hinn síðari sneri hetjukvæðum Hómers á íslenzku, og orti þess utan. Áður en Jónas Hallgrímsson dó, var Grímur Thomsen byrjaður að yrkja, en orti lítið framan af, ef dæma skal af því, sem kom út eftir hann. Hann var alíslenzkt skáld og einkennilega hugfastur við alt íslenzkt, svo ekkert skáld síðari tíma hefir tekið honum fram. Hann hefir ekki gert nein heildarverk, fremur en Bjarni eða Jónas, en um tíma lærði allur þorri fólks hvert kvæði utan að, sem frá honum kom á prent. 1848 skrifaði Jón Thoroddsen "Pilt og Stúlku" á litlu kvistherbergi í Höfn, og samdi þannig fyrsta heildarrit frumsamið í nýjum íslenzkum bókmentum. Jón Thoroddsen orti mikið af kvæðum. Eitt af þeim, "Ó, fögur er vor fósturjörð", er fyrir löngu orðið þjóðsöngur, og sungið við flest tækifæri. Ljóðagerð Jóns Thoroddsen er óvenju-

lega lipur og létt. Hann orti oftast svo einfalt og óbrotið, að hann sigrar lesandann með því. Á síðari árum skrifaði hann skáldsöguna "Maður og Kona", sem hann þó ekki entist til að ljúka við. Sú saga hefir verið prentuð hálfnuð. — Litlu eftir 1850 byrjaði Benedikt Gröndal yngri að yrkja. Gröndal orti mikið af ljóðum og lagði út ljóð eftir erlend skáld. Hann er sá fyrsti, sem semur heildarljóð, þegar hann yrkir Örvar-Odds drápu, sem þó sýnist hafa fallið niður hjá almenningi. Það átti að verða hlutverk Gröndals að rita fyndnasta ritið í íslenzkum bókmentum, "Heljarslóðarorustu", og það skáld hefir ekki lifað til einskis, sem hefir skemt svo vel. Hann er ávalt Gröndal sjálfur, og segir í formálanum, sem hann ritaði fyrir kvæðabók sinni, er kom út 1900: "Eg hefi aldrei heilagur verið, og reyni þess vegna ekki að sýnast heilagur í kvæðum mínum. Eg hefi aldrei munað eftir að reyna til að vera *spekingur;* eg hefi aldrei hugsað um að þóknast neinum." —Hann reyndi aldrei að sýnast annað en það, sem honum var eiginlegt.

Fyrir 1860 byrjuðu þeir að yrkja, Matthías Jochumsson og Steingrímur Thorsteinsson. Hinn síðari vann mest að því framan af, að þýða erlend skáldrit og flytja landsmönnum erlenda menningu og skáldskaparlist heim í hlaðið. Þýðingarnar þóttu afbragð, að málgæðum og mállipurð. Hann þýddi "Þúsund og eina nótt", og kom henni með því inn hjá okkur. Honum svipar að nokkru leyti til Jóns Þorlákssonar, sem þýddi aðalverk erlendra höfuðskálda, að hann þýddi nýjar rómanskar skáldsögur. Hann var skáld í miklu áliti, og síðari ár sín þýddi hann Lear konung eftir Shakespeare. — Matthías Jochumsson orti fyrst ljóðkvæði og þýddi Friðþjófsögu eftir Tegnér. Fyrir 1860 skrifaði hann "Útilegumenn" sína, leikrit í 5 þáttum, breytti því riti síðar og nefndi það "Skuggasvein". Hann ritaði leikritið "Vesturfararnir" og "Aldamót." Hann skrifaði sorgarleikinn "Jón Arason". Alt eru það frumsamin leikrit og heildarverk. Matthías Jochumsson. hefir þýtt sorgarleikina "Macbeth", "Romeo og Júlía", "Othello" og "Hamlet" eftir Shakespeare, og fjölda af kvæðum eftir erlend skáld. Það sem Íslendingum finst samt allra mest til um, eru ljóðin hans. "Grettisljóð" hans eru heildarverk með sama innihaldi og sagan, en séð með hans eigin augum, og aðallega skilur hann söguna svo, sem hún sé barátta milli kristninnar og heiðninnar hér á landi. Af öllu því mikla, sem Matthías Jochumsson hefir afrekað, eru þó ljóðin hans lang lýðkærust. Hann er skáldið af guðs náð, og það mun sannast, þegar hann er fallinn frá. sem Hannes Hafstein sagði einu sinni í ræðu, að það líður langt þangað til annað stórskáld kemur upp á meðal vor. Hann orti þjóðhátíðarsönginn 1874, og er oft meðal mentamanna á Íslandi kallaður "lárviðar skáldið", sem þýðir hjá þeim, sem svo tala, ljóð-

skáldið, sem ber af öllum öðrum.

Milli 1860 og 1870 kom fram Kristján Jónsson, og kvað mikið að ljóðum hans, sem flest eru gerð af snild. Kvæðin hans eru þunglyndisleg eins og var æfi hans; hann andaðist 26 ára gamall 1869, að líkindum löngu áður en hann náði fullum þroska og framförum. — Um 1880 komu enn fram þrjú af skáldum vorum, þeir Gestur Pálsson, Einar H. Kvaran og Hannes Hafstein. Gestur Pálsson ritaði aðallega stuttar skáldsögur, sem öllum eru kunnar fyrir það, hve vel þær eru skrifaðar; mjög kennir þar kaldhæðni og svartsýni á lífi og mönnum. Formið var slípað og fínt og byggingin svo góð, að enginn ritdómari mun nokkurn tíma hafa gjört tilraun til að hafa ofan af þeim skóinn. Hannes Hafstein varð eitt af okkar mestu ljóðskáldum, og hjá Einari Hjörleifssyni Kvaran átti móðins sagnakveðskapur að ná upp á efsta hjallann, sem hann hefir náð. Þeir eru hvor um sig einir mestu rithöfundar vorir, annar á ljóðum og hinn á mæltu máli. Einar H. Kvaran hefir þess utan samið tvö leikrit: "Lénharður fógeti" og "Syndir annara."

Litlu síðar en þessir menn byrjuðu að yrkja og rita, fór Þorsteinn Erlingsson að yrkja. Hann kom að eins fram sem ljóðskáld, og það er hann, sem hefir ort svo vel ferskeyttar vísur, að þær mega heita komnar aftur upp á háborðið hjá Íslendingum. Eitt heildarverk, "Eiðurinn", var Þorsteinn Erlingsson að semja, áður en hann dó, og lauk að eins við fyrra hluta þess. — Guðmundur Guðmundsson orti fjölda af ljóðkvæðum. Af hans verkum er "Friður á jörðu" heildarverk. Hann einkendi sig frá flestum öðrum með fínum kvæðum og fögru þýðu máli, og svipaði að því leyti til Jónasar Hallgrímssonar. — Guðmundur Magnússon var afkastamikill rithöfundur, og lagði margt á gjörfa hönd. Hann orti ljóð og hann samdi sorgarleikinn "Teitur" lauskveðinn (blank verse) og "Dóttir Faraós". Hann skrifaði mikið af sögum, bæði stuttar skáldsögur og langar. — Báðir þeir nafnar létust í fyrra vetur, Guðmundur Magnússon úr spönsku veikinni og Guðm. Guðmundsson úr afleiðingum hennar.

Meðan öll þessi fyrtöldu skáld og rithöfundar sömdu rit sín, sem aðallega voru veraldlegs efnis, var kirkjusálmabókin endurskoðuð og bætt svo vel, að betri sálmabók munu Íslendingar aldrei hafa átt áður, og má einkum þakka það séra Valdemar Briem og Matthíasi Jochumssyni. Auk þess orti séra Valdemar Briem stórt heildarverk í tveim bindum, sem eru kveðin út af heilagri ritningu og heita "Biblíuljóð". Þar koma enn einu sinni fram helgiljóðin, sem var svo títt að yrkja á fyrri öldum.

Eitt af vorum stærstu ljóðskáldum er Einar Benediktsson. Ljóðmæli hans eru nú orðin þrjú bindi. Þau eru öll einkennileg fyrir sterka hugsun og óvenju vald yfir íslenzkri tungu. Ekkert íslenzkt skáld hugsar, vekur og mótar eins margar hugsanir og Einar Benediktsson. Hann er stundum

fremur torskilinn, og minnir oft á danska skáldið Schark-Staffelt, þó hann stæli hann alls ekki. Þeim svipar að ýmsu leyti saman, Stephani G. Stephanssyni og Einari Benediktssyni, þótt þeir búi hvor á sínum helmingi hnattarins. — Þessum línum er þangað ætlað, sem ekki þarf að lýsa Stephani G. Stephanssyni nákvæmar.

Íslendingar hafa ekki numið staðar við ljóðlist og skáldsögur, þeir hafa einnig lagt fyrir sig leikritgerð, eins og að framan hefverið sýnt. Sigurður Pétursson lét leika "Hrólf" eftir sig í latínuskólanum á Hólavelli 1. des. 1795. Auk Hrólfs samdi hann "Narfi", sem Rask lék í hér á landi. Næsta leikritaskáldið varð Matth. Jochumsson, og er hans rita getið áður. Næst honum kom Indriði Einarsson, og eftir hann eru 4 leikrit prentuð. Þá Þorsteinn Egilsson, sem hefir samið tvö leikrit. Þá Guðmundur Magnússon, sem áður er getið. Þá Jóhann Sigurjónsson, sem hefir samið "Fjalla-Eyvind", sem nú er frægt leikrit orðið og hefir farið víða um Þýzkaland og Norðurlönd. Hann samdi þar á undan "Bóndann á Hrauni" og síðar "Galdra-Loft" og "Mörð"; síðasta leikritið hefir ekki komið út á íslenzku enn þá. Jóhann Sigurjónsson var í sumar, þegar hann dó, álitinn mesta leikritaskáld á Norðurlöndum. Næst á eftir honum kom fram Guðmundur Kamban, sem samdi *Hadda-Padda*, er fékk óblandað lof beztu listdómara í Danmörku, og "Konga glimen" og "Guld", sem hvorug hefir komið út á íslenzku, þótt "Konungsglíman" hafi verið leikin hér.

Hjá 90,000 manns eru þetta miklar bókmentir að vöxtunum, en það eru gæðin, sem alt er komið undir. Fámenn þjóð er afar tilfinninganæm fyrir áliti útlendinga, og ef lagður er mælikvarði útlendinga á íslenzkar bókmentir, þá höfum vér fulla ástæðu til þess að miklast af þeim. Betri mælikvarða, en þýðingar erlendra manna á íslenzkum bókum og kvæðum er naumast hægt að benda á. Enginn erlendur maður leggur verk í það að þýða kvæði eða skáldrit, sem hann álítur lítils virði; það er að vinna fyrir gýg, og vita það fyrir fram. Töluverðu af kvæðum ljóðskáldanna eftir dag Jóns Þorlákssonar hefir verið snúið á dönsku og þýzku. Og ýmsar af sögum Guðmundar Magnússonar hafa verið þýddar á dönsku, ein eða tvær smásögur á frönsku og eitthvað hefir komið út á ensku. "Piltur og Stúlka" hefir verið þýdd á mörg mál, þar á meðal á hollenzku. Skáldsögur eftir Einar H. Kvaran hafa verið þýddar á þýzku, dönsku, ný-norrænu, sænsku og bömisku. "Fjalla-Eyvindur" Jóhanns Sigurjónssonar hefir verið þýddur á sænsku og þýzku, þótt mér sé ekki kunnugt um, að hann hafi komið út á þýzku, og á norsku. "Galdra-Loftur" hefir verið þýddur á sænsku. Höfundurinn skrifaði bæði ritin upphaflega á dönsku, og því er ekki talað um danska þýðingu hér. "Sverð og bagall" Indriða Einarssonar hefir verið þýddur á dönsku, þýzku og ensku. "Nýársnóttin" að eins á þýzku.

Svo má líta á, sem þetta séu dómar erlendra þjóða um íslenzkar bókmentir nítjándu og tuttugustu aldarinnar. Vel má það vera, að hér sé einhverjum þýðingum gleymt vegna skorts á bókfræði þess, sem þetta skrifar. En dómur útlendinga er svo góður, að Íslendingar hafa ástæðu til þess að þykjast af honum.

## V. Sjálfstjórn og listir.

Þótt landsmenn hefðu gengið undir Noregskonung, þá hélt Alþingi þó fram að dæma dóma, skera úr málum, velja lögsagnara og bæta lögin, svo að þau svöruðu betur til hvers tíma. 1662 var einveldi Danakonungs innleitt á Íslandi í raun og veru, þótt Alþingi héldi samkomurétti og fornum réttindum að mestu, og breytingin hið ytra væri ekki veruleg. Landsmenn sofnuðu smátt og smátt, og köstuðu þegar fram liðu stundir öllum sínum áhyggjum upp á konunginn. 1800 var Alþingi afnumið, og yfirréttur settur á fót í stað þess. Í 43 ár var landið þinglaust. Jóni Sigurðssyni var títt að rekja andlega strauma, sem komu til Íslands, til einhverra viðburða erlendis, og hann lítur svo á, sem Baldvin Einarsson, sem gaf út "Ármann á Alþingi" 1828—32, hafi farið að vekja athygli á þörf landsmanna fyrir viðreisn Alþingis hins forna út af byltingunni á Frakklandi 1830. Baldvin Einarsson sýndi fram á, hve hin ráðgefandi þing í Danmörku væru ónóg fyrir Ísland, og það varð Kristján konungur hinn VIII. sem setti hið ráðgefandi Alþingi á fót 1845. Frakkland lá á árum í 18 ár. 1849 varð ný stjórnarbylting, sem gerði Frakkland að lýðveldi. Í Danmörku var sterkur straumur í frjálslyndari átt, og þegar Friðrik VII. var kominn til ríkis, gaf hann og ríkisþing Dana Danmörku stjórnarskrána frá 1849, sem innleiddi þingbundna konungsstjórn í stað einveldisins. Til er konungsbréf, sem hét Íslendingum meiri réttindum, frá þeim tímum. Ísland var í uppreist á móti fyrirkomulaginu, sem var 1851. Norðlenzkir bændur riðu norður á Friðriksgáfu og vildu að amtmaðurinn færi frá. Nemendur latínuskólans hrópuðu rektor skólans af, og þegar þingmennirnir, sem valdir voru á þjóðfundinn 1851, komu þar, heimtuðu þeir að setjast við og semja sérstaka stjórnarskrá fyrir Ísland, en stjórnin svaraði með því að rjúfa fundinn og senda hann heim.

Þrátt fyrir það vanst Jóni Sigurðssyni það þó á, að landið fékk rétt til að verzla við allar þjóðir 1854. Deilan um landsréttindin hélt þó áfram sleitulaust til 1874, að þá fékk landið stjórnarskrána frá 5. janúar s. á. og með henni hlaut Alþingi löggjafarrétt í landsins sérmálum og fjárveitingarrétt; — áður hafði hvorutveggja verið í höndum ríkisþings Dana.

En Íslendingar voru ekki ánægðir með það, að sækja allflesta úrskurði í málum sínum 300 mílur að. Þeir vildu draga valdið inn í landið, og það hepnaðist þeim 1903, með nýrri stjórnarskrá. Hún hafði þann galla, að ráðherr-

ann, sem var í hvort skiftið að eins einn einasti maður, sem bæði var forsætisráðherra hjá sjálfum sér og konungur um leið. 1917 var ráðherrunum fjölgað svo að þeir urðu þrír, og í desember 1918 gekk í gildi samningurinn um sambandið milli Íslands og Danmerkur, sem er konungsamband eingöngu, eða "personal union". Með þeim samningi er Ísland komið í tölu fullvalda ríkja.

Í pólitíkinni hafa Íslendingar haldið sömu stefnu frá því 1851 og til 1. desember 1918, og unnið góðan sigur. Það var meira en vanalegur atburður fyrir menn, sem höfðu verið vitandi vits mestan hluta þessara 67 ára, að sjá Íslandsfánann dreginn á stöng á stjórnarráðsbyggingunni og heyra danska herskipið skjóta af fallbyssum sínum til að heilsa hinu fullvalda ríki. 67 ára hvíldarlaus barátta var til lykta leidd, og friðurinn var saminn.

Meðan deilan stóð, höfðu bókmentir landsins blómgast svo, sem að framan er sýnt. Íslendingar voru búnir að afla sér mikils fjár, en þá vantaði fólk; það fer svo allsstaðar þar sem miklir fólksflutningar hafa verið til annara landa. Allar listir voru í framþróun. Myndhöggvara listin átti einn frægan myndhöggvara, og einn ef ekki tvo aðra upprennandi listamenn í þeirri grein. Leiklistin átti 3 eða 4 sanna listamenn og konur í sinni grein. Í málaralistinni voru tveir víðkunnir málarar, og ýmsir upprennandi að auki. Músíkin átti tvö eða þrjú þekt tónskáld, og aðrir eru að sigla upp í kjölfarið. Landið átti *sportsmann*, sem hafði borið nafn þess víðsvegar með sér um heiminn, og fjölda ungra manna, sem iðkuðu þær íþróttir. Íslendingar voru vaknaðir af svefninum langa í flestum greinum og gengu heim til sín um daginn með glaðvakandi meðvitund um sjálfa sig og ættjörðina.

———o———

## *SVAR ELLINNAR.*

Eftir *Guðrúnu skáldkonu Þórðardóttur. frá Valshamri.*

Hefi eg hvorki hár né tönn,
Holds er burtu litur,
Nístir mig í ógnar önn
Elli kaldur þytur.

Þröng er leið á þyrni stig,
Þrymur rauna bára,
Sannarlega sérðu mig
Sjötígi og fjögra ára.

Fellur í stormi fúin eik,
Færist á mig dómur,
Líður senn á lífsins kveyk,
Lampinn fjörs er tómur.

Hefi eg það í hljóði lágt,
Horfir fæzt til þrifa,
Eg á stundum býsna bágt
Að berjast við að lifa.

# Vilhjálmur Stefánsson

Þótt kunni' eg ei Varðlokk að kveða,
er kynnir þær náttúrur lands,
sem happfróðir söngvarar seiða
til samtíðar spákonuranns,
þá syng eg þig, Vilhjálmur, sjálfan,
fyrst sjálfs er ei kunnáttan nóg,
því þú ert það kjarnbezta kvæði,
sem Canada' og Ísland til bjó.

Vér möttum í munnmæla sögum
hvern manndóm — ei erfðavöld há:
hvern karlsson og konungsson jafnan,
ef kostirnir stóðust þar á.
Vér unnum þeim æfintýrs sveini,
sem æskunnar starfrækti þrá.
Í fátækra flutningnum vestur,
var fluttur sá draumur um sjá.

Við Huldá í Hvammrjóðri smáu,
og hringgirtu' af Ný-Íslands skóg,
í bjálkhýsi frumbyggja fæddist
vor fagnaðsspá — óskrifuð þó:
Vor ósksveinn í æfintýrs draumum,
sem erfði' alla norðursins von. —
Úr þjóðbroti Þorfinns, á ströndum
Rís þjóð vorri heimsfrægur son.

Frá skotbakka lista og leikja
á langskip í víking þú fórst.
Þín heppni, þinn hugur, þinn þróttur
í Hrafnistu ættina sórst.
Og byrinn að óskum þú áttir
og örvar, sem leituðu máls.
En ef, að þær þrjár gátu' ei orkað,
þá áttirðu steinskeyti karls.

Þú hrímþursa heim hefir sótta
og hálftröll og snædverga gist.
Við jötna og bergrisa barist
og borið af öllum með list.
Til Útgarða norðurs þú náðir,
— Þau nyrztu spor íslenzkur fór, —
og þangað þú sigurinn sóttir
og söguna, stærri en Þór.

Um norðurhöf frosta og fanna
að Furðuströnd nýrri þig bar.
Með heppninni' hans Leifs fanstu landið
og löndin um elvoga þar.
Þar máske á landnáms að leita
það líf, sem ei enn þá er fætt.
Þá minnast þeir frömuðsins fyrsta,
sem festa þar nöfn sín og ætt.

Úr norðursins leiftrandi ljóma
þú lýsigull þekkingar grófst.
Með mannkynsins merkustu sonum
þú menningar vísindin hófst.
Sem skammdegið norðurljós lýsa,
þú lýsir upp eyðurnar þær,
sem þjóðirnar þekkja á morgun,
en þekti ei heimur í gær.

Þótt veröldin verkin þín eignist
og Vesturfold orðstírinn þinn,
þín ættmóðir elskar þig heitast,
sem óskbarn og frægðarmög sinn.
Og það er oss, íslenzkum, öllum
sú ósk, sem í hjarta er fest:
að æfi þín öll verði sigur —
þig eiga sem lengst og sem bezt.

1919

*Þorsteinn Þ. Þorsteinsson.*



# Snjór.

Eftir *Kristinn Stefánsson.*

---

Veðrið er gott.

Himininn er heiður, svo heiður, að eg sé einungis ofurlitla skýhnoðra, sem líða norður himinhvolfið með hægum, jöfnum hraða þangað sem öll hin skýin hurfu. "Norður líður aldan öll."

Eg horfi á norðurför þessara litlu, ljósu himinfara.

Þeir eru eins og leifar af útdeyjandi kynslóð.

"Fáir, fátækir, smáir", þýtur í andvaranum. —

Tunglið er komið hátt á loft. Fult og glóbjart horfir það niður, af hinum bláu svölum sínum, yfir borgarinnar margvíslegu og mislitu húsaraðir. Það skín líka á víðáttumiklu mjallarflötina umhverfis mig, eins langt og augað eygir.

Hvíti, hreini Snjór!"

Mér er vel við þig, þó sumir kalli þig landsins ókost.

Fólkið segir æfinlega, þegar þú kemur fyrst á haustin: "Æ, nú er farið að snjóa!" Og svo fer um það hrollur, er það hugsar til þín; en það vonast þá til svo góðs af sólunnni, að hún reki þig á landflótta, í burtu; "rétt núna," segir það. Þú komir of snemma, þú hljótir að fara burtu. Þinn tími sé enn ekki kominn. Þetta sé bara frumhlaup af þér.

Ekki hefir nokkrum orðið að vegi að leggja þér liðsyrði.

Engan heyri eg tala um það, hversu heilsusamleg er koma þín.

Enginn minnist þess, hversu þú, úr himinhæð þinni til jarðarinnar, ert hreinn og hvítur eins og sakleysið.

Hreini, hvíti snjór!

Þú brúar forarflæmið með sjálfum þér, grásvarta leðjuna, þar sem fólkið öslaði og bar blýþunga leirsoppuna á fótunum út á grænu rindana, sem regndropinn og sólargeislinn höfðu kepst við að skreyta, svo borgarbörnin fengi frétt um vorkomuna.

Nú sjást þar engin óhrein spor. Þú hefir um tíma gersamlega hulið þau.

Hreini, hvíti Snjór!

Þú dregur eiturmagnið úr sóttkveikju efninu í óþrifabælunum, því þá sjaldan að þar er einhver smuga opin, andar þú þar inn svölu og lífgandi vetrarloftinu.

En — hvíti, hreini snjór!

Það er til for, sem þú getur ekki brúað, og spor, sem þú getur ekki hulið.

Bráðum fer þú nú að kveðja okkur hérna á láglendinu.

Dóttir Mundilfara gamla verður ekki í rónni, fyrr en þú býst til

brottferðar. En ekki er henni til mikils fagnaðar að heimsækja þig í ríki þitt, yfir á fjöllin fjarlægðar bláu.

Fólkið fer nú aftur að hlakka til þess að sjá þig hverfa. Það fer aftur að halda sér til fyrir vorinu. Yngismeyjan með blómskreytta hattinn og nýtízku kjólinn, fer aftur að sjá skuggamynd sína í forarpollinum; og sperr-brýndi, fölleiti skrifstofuþjónninn fer aftur að trítla við hlið hennar.

Og sömu orðin og þau í fyrra verða endurtekin: "Er þetta ekki indælt kveld?" Og svarið verður eilíflega það sama: "Jú, elskulegt "

Og forin verður aftur límkend og hnígandi, tekur þétt í fæturna og fellur smjalsandi inn í sporin, er hún missir af takinu.

—o—

# Vísur.

*(Eftir Guðrúnu skáldkonu Þórðardóttur frá Valshamri* 1820—1896.)

Yfir lýði æðir mest
Ama-hríða-geimur;
Sorg og kvíða bætir bezt
Betri tíða heimur.

Mér ef lýsti svásúð sól
Suðrænu með vindum,
Eg þá vildi eiga ból
Upp á fjallatindum.

Nú er liðin nóttin svört
nauða strjáluð skýjum
Krónuð friði, birtan björt
Bjarma máluð hlýjum.

Raddir hvelt í allri átt
Unun fríða boða.
Austurbelti himins hátt
Er hátíðlegt að skoða.

———

Sumri hallar, hausta fer,
Heyri snjallir ýtar
Hafa fjalla hnjúkarnir
Húfur mjalla hvítar.

Nú er dauðans dauði vís,
Dregur af mörgum sköllin,
Er nú þakið alt með hrís
Eylandið og fjöllin.

Kári herðir feiknar flug,
Fjötrin af sér leysti.
Við skulum allir drýgja dug
og deyja svo með hreysti.

———

Kramar bára er kvíða vegur,
Kólnar blómstrið frítt.
Sjötigi árin, eitt og fjögur
Eg hefi þolgóð strítt.

Orku þrotin ekkert sýsla,
Ellin veldur bleik,
Eg er brotin birkihrísla,,
Bogin, hreld og veik.

# Ísland fullvalda ríki.

Eftir *Jón Jónsson* frá Sleðbrjót.

TJÓRNFRELSIS - barátta Íslendinga byrjar aðallega fyrir rúmum sjötíu árum. Fyrsti vísirinn til viðurkenningar rétti, Íslendinga frá Dana hálfu, má telja það, er Danakonungur gaf út opið bréf 23. sept. 1848, að ekkert skyldi verða ákveðið um stöðu Íslands í ríkinu, fyr en kallað hefði verið saman þing á Íslandi til að ræða það mál.

Íslendingar voru þá svo heppnir, að eiga slíkan foringja, sem Jón Sigurðsson var, sem gæddur var þeim kostum, að hafa sameinaða afbragðs vitsmuni og þekkingu, og drengskap og óeigingirni, sem aldrei brást. Barátta hans fyrir réttindum og framför íslenzku þjóðarinnar, er svo alkunn, að um hana er óþarft að fjölyrða. Honum auðnaðist, áður en hann féll að velli, að leiða stjórnfrelsis mál Íslendinga til svo mikils sigurs, að alþingi hafði þá fengið fjárforráð og löggjafarvald í þeim málum, er viðurkend voru sérmál Íslands.

Eftir Jón Sigurðsson látinn tók Benedikt sýslum. Sveinsson við forustu í stjórnarbaráttunni, um 1880, og hélt henni til dauðadags (2. ág. 1897). Hann barðist fyrir því, að fá innlenda stjórn og landstjóra á Íslandi, er hafði umboð konungs. Á þeim tíma komu fram ýmsar aðrar stefnur í þessu máli, svo sem "miðlunin" 1889, er þeir börðust fyrir, Páll og Eiríkur Briem og Jón Ólafsson. Vildu þeir haga sambandi Íslands og Danmerkur sem líkast því, er samband Canada og Englands er. Og 1895 kom Dr. Valtýr Guðmundsson fram með nýja stefnu, sem kom til umræðu á alþingi 1897; lagði sú stefna mesta áherzlu á, að skipaður væri sérstakur ráðherra fyrir Ísland, búsettur í Kaupmannahöfn, er skildi og talaði íslenzka tungu og mætt gæti á alþingi. En hin önnur deiluatriði vildi hann láta bíða betri tíma.

Afleiðing af öllum þessum stefnum varð sú, að stjórnin var færð inn í landið árið 1904, og skipaður sérstakur ráðgjafi, með fullri ábyrgð fyrir alþingi og búsettur á Íslandi.

Árin þar á eftir komu fram ýms merkileg atriði, sem eflaust höfðu áhrif á það að hrinda sjálfstjórnar-málinu áfram, svo sem heimboð íslenzkra alþingismanna til Danmerkur 1906, og heimsókn konungs og danskra þingmanna til Íslands 1907, skipun hinnar dansk-íslenzku sambandslaga - nefndar sama ár, og tilraunir til að semja ný sambandslög, sem af því leiddu. Fram að 1904, þegar stjórnin var færð inn í landið, var stjórnfrelsis-baráttan háð á þeim grundvelli, að Ísland væri "óaðskiljanlegur hluti Danaveldis, með sérstökum

landsréttindum." Og aðal-spursmálið var þá, að ná sem fylstum yfirráðum í hinum sérstöku málum Íslands, og var það alt af viðkvæðið í þeirri baráttu, að þó alt fengist ekki í einu, þá væri "geymt ekki gleymt." En þegar stjórnin færðist inn í landið, kom það brátt í ljós, að örðugt var að ákveða takmörkin milli hinna sérstöku og sameiginlegu mála; þau gripu víða hvert inn í annað og sumt, sem Íslendingar töldu sérstök mál Íslands, töldu Danir sameiginleg mál. Má til dæmis nefna fánamálið, sem Íslendingar álitu sérstakt mál, af því það heyrði til verzlunar- og siglingamálum, sem voru viðurkend sérstök mál Íslands. En Danir álitu það sameiginlegt mál, og álitu fánann tákna yfirráð Dana yfir Íslendingum, og ef Danir veittu Íslendingum leyfi til að hafa sérstakan fána, feldist í því viðurkenning um, að Ísland væri sérstakt ríki.

Hannes Hafsteinn var sá, er fyrstur tróð hina vandasömu slóð að vera íslenzkur ráðgjafi, og hann var aðal-hvatamaður þess, að reynt væri að semja ný sambandslög, og tel eg víst, að ein af aðalhvötunum til þess, að hann lagði svo mikið kapp á að koma á nýjum sambandslögum milli Dana og Íslendinga, hafi verið sú, að reynslan hafi sýnt honum það, að þessi glundroði um sérstöku og sameiginlegu málin, mundi verða til sífeldrar óánægju og farartálma á frelsisbraut Íslendinga. Allar þessar stefnur og atburðir, sem bent er á hér að framan, urðu til þess, að þoka sjálfstjórnarmálinu áfram að því takmarki, sem nú er náð, þótt ýmsar þeirra hefðu þá galla, að ekki hefði verið heppilegt, að þær hefðu sigrað á þeim tíma. En um þær urðu harðar deilur, sem vöktu þjóðina til umhugsunar og framkvæmda, ýmist með þeim eða á móti. Málið var skoðað frá fleiri hliðum, og kostir og gallar metnir nákvæmar en annars hefði orðið. — En um það efni skal hér ei meira rætt. Sagan fellir sinn dóm um þessar stefnur og forustumenn þeirra, þegar flokkshiti augnabliksins er úr sögunni.

Flestir munu þeir Íslendingar, sem gleðjast yfir því, að takmarkinu er nú náð, að flestu leyti viðunanlega. Ísland er nú viðurkent fullvalda ríki af Dönum, og þeir hafa tilkynt öllum þjóðum, að Ísland sé nú fullvalda. Að vísu í konungs-sambandi við Dani og að sumu leyti í málefna-sambandi um utanríkismál, fyrst um sinn. En sá er nú munur og áður á meðferð sameiginlegu málanna, að íslenzka ríkið hefir nú af *frjálsu fullveldi* samið við Dani um meðferð þessara mála um óákveðinn tíma, og svo er um hnútana búið, að ekki verður betur séð, en Íslendingar geti á friðsamlegan hátt slitið sambandinu við Dani eftir 25 ár, ef hið núverandi samband reynist illa. Það er nú hlutverk íslenzku þjóðarinnar, að haga svo störfum sínum og stjórn, að Ísendingar verði frjáls og fullvalda þjóð, ekki einungis í orði, heldur líka á borði.

Eg gat þess hér að framan, að flestir Íslendingar mundu fagna því, að íslenzka þjóðin væri nú orðin fullvalda þjóð, og það er trú

mín, að svo sé. Jafnvel ýmsir Vestur-Íslendingar, sem ekki trúa því til fulls, að fullveldið verði hinni íslenzku þjóð lyftistöng til menningarþroska, munu gleðjast yfir því, af gömlum, heiman-aðfluttum ríg við Dani, að Íslendingar höfðu sitt mál fram viðunanlega vel. Eg býst við, að það séu einkum í hópi Vestur-Íslendinga, menn með þeim hugsunarhætti. Sá hugsunarháttur hefir ósjaldan skotið upp höfðinu hér, jafnvel hjá vitrum og merkum mönnum, sem hafa í aðra röndina sýnt það, að þeir vilji styðja verklega menningu Íslands, þegar um mikilsverð mál er að ræða (t. d. Eimskipafélagið). Þetta eru einkum menn, sem fóru frá Íslandi áður en nokkrar verulegar verklegar framfarir byrjuðu þar; þeir fóru margir þaðan fátækir, sumir örsnauðir, sumir þreyttir af löngu striti fullorðinsáranna, sem þeim fanst árangurslaust orðið hafa; sumir með brostnar vonir framgjarnra unglinga, sem örvænt höfðu um það, að þeir ættu nokkra framtíð á Íslandi, aðra en árangurslaust stríð og strit. — Þeir komu hér að ónotuðu, frjósömu landi, með ótal tækifærum fyrir framgjarna unglinga, hjá vakandi æskuþjóð. Hér hafa margir þeirra safnað auði, komið sér fram til menningar og manndóms, sem þeir hefðu eflaust ekki náð á Íslandi, eins og þá hagaði þar til. Af þessu hefir skapast hjá þeim sú skoðun, að Ísland væri svo hart, og kalt og ófrjótt land, að þar gæti aldrei þrifist menningarþjóð, og yfir þjóðinni íslenzku gæti aldrei annað en hvílt einhver andlegur íshafs-drungi, sem engir hlýir menningar-straumar gætu rofið. Þeir hafa flaskað á því, að kenna *landinu* um alt það framfaraleysi, sem þar ríkti, er þeir skildu við það, en ekki gætt þess nógu vel, að því olli meira öfugt stjórnarfar og margra alda kúgun í stjórnarfari og verzlun. Og þessi hugsun hefir víða þroskast af þekkingarleysi á því, sem hefir verið að gjörast á Íslandi, sem að sumu leyti á rót sína að rekja til þess, hvað Íslendingum er ótamt að auglýsa heiminum hvað gjörist í framsóknarbaráttu þeirra. Sem dæmi má nefna það, að Íslendingum heima dettur nærri aldrei í hug, þó síminn sé starfandi þar, að senda bræðrum sínum hér vestan hafs skeyti um merkustu viðburði þar heima, t. d. úrslit kosninga, stjórnarskifti o. fl. Eg er þess t. d. fullviss, að úrslit kosninganna, sem fara fram á Íslandi í dag, berast ekki hingað fyr en eftir langan tíma. Helzt, ef eftir fyrri ára reynslu skal dæma, berast þesskonar fréttir eftir símskeytum til Danmerkur, þaðan til danskra og norskra blaða í Bandaríkjunum, og þaðan hingað til Canada.

Af þessum ástæðum býst eg við, að ýmsir spyrji, ekki sízt hér vestan hafs:

Hvað gagnar Íslendingum, þó þeir séu nú fullvalda þjóð? 1.) Er ekki Ísland sama harða og kalda landið, með sömu byljunum, sömu fannkyngjunum, hafísþökunum, og harðinda-árunum og horfellinum? 2.) Er ekki íslenzka þjóðin sama daufgerða, framtaks-

lausa og fátæka þjóðin? 3.) Eru nokkur líkindi til, að íslenzku þjóðinni líði betur, að hún verði meiri menningarþjóð, þó hún sé nú kölluð fullvalda þjóð?

Þessum spurningum vil eg nú reyna að svara, og bið lesendurna að virða á hægra veg, þótt svarið verði lauslegt. Nærri 18 ára fjarvera mín frá föðurlandi mínu gjörir mér dálítið örðugt, og skortur á heimildarritum, einkum hagskýrslum, frá Íslandi, eru mér slæmur þröskuldur í vegi. En eg treysti góðgirni lesendanna og að þeir leiðrétti, sem betur vita og finst eg ekki fara með rétt mál.

Svar mitt við tveimur fyrstu spurningunum verður bæði játandi og neitandi. Ísland er sama kalda landið, með sömu byljunum, fannkyngjunum og hafísbreiðunum í harðindaárunum, eins og verið hefir. Það er nú "Íslands lag":

"Heyrið brim á björgum svarra,
bylji þjóta, svipi snarra—
Íslands er það lag."

Svo kvað Grímur Thomsen um Ísland og það lag mun hljóma bæði í kvæði Gríms og náttúrunni, meðan Ísland rís úr sæ. En hinu má heldur ekki gleyma, að á Íslandi koma mörg góð ár, sem um er sagt með réttu, að ágætisár séu "bæði til lands og sjávar."— En íslenzka þjóðin er *ekki* sama þjóð, eins og hún var fyrir 100 árum, og ekki eins og hún var fyrir 50 eða 20 árum. Hún er nú vaknandi þjóð. Framtakssemi og starfsþróttur hennar hefir aukist, — og þjóðareignin stórum aukist. Þjóðinni hefir bæst víðsýni. Það hafa vaknað hjá henni ný öfl, sem sýna sig í andlegum og verklegum framkvæmdum. Þjóðin hefir gjört sér nýja og betri grein fyrir kostum lands og lýðs heima fyrir, og hún hefir opnað augu sín fyrir því, sem er að gjörast hjá öðrum þjóðum, reiðubúin til að taka það til eftirdæmis, að því leyti sem við á íslenzka hagi. Þjóðarauðurinn hefir aukist svo mikið, að nú er talað um miljónir, jafnvel tugi miljóna, þegar verið er að ræða um að efla framför landsins, þar sem áður þótti ganga goðgá næst, að nefna 100 þúsundir.

Þriðju spurningunni, hvort Íslendingum muni líða betur, hvort þeir muni verða meiri menningarþjóð fyrir fullveldið, henni svara eg frá mínu sjónarmiði *hiklaust játandi,* og það er ekki spádómur. Það er fortíðar-reynslan, sem sannar það. Því hún sýnir, að í hvert sinn, sem íslenzka þjóðin slepti valdi sínu í erlendar hendur, og hvenær sem erlenda valdið gat hert á þrælatökum sínum á hinni íslenzku þjóð, þá dofnaði sjálfstæðis-tilfinning og ábyrgðar-tilfinning þjóðarinnar, framvæmdin innanlands þverraði og fátækt, hjátrú og vesalmenska dafnaði og þróaðist. En þegar íslenzka þjóðin fór að vakna og gat höggvið af sér ófrelsisböndin smátt og smátt í stjórn og verzlun, þá jókst framförin, starfsþrótturinn, víðsýnið og ábyrgðartilfinningin. — Öll hin verklega framför, sem orðið hefir á Íslandi, að mun, *hefir framkvæmd verið síðan þjóðin fékk fjárforráð og löggjafarvald* 1874. Þótt hægt færi fyrst, af því svo miklum hluta af þjóðarþrótt-

inum var til þess varið að berjast fyrir auknum þjóðarrétti. Og eftir að stjórnin var færð inn í landið 1904, má sjá þess glögg og mörg merki, að framfara-skrefin urðu lengri, framfara-sporin dýpri en áður Og hví skyldi þá ekki sama lögmál gilda, þegar þjóðin er nú fullvalda um mál sín og framkvæmdir, að framfarasporin yrðu þá enn lengi og dýpri?

Mig langar að færa nokkrar sannanir fram um framfarir Íslands hin síðustu ár, þótt eg geti það eigi sem skyldi, af því mig vantar hagfræðisskýrslur Íslands. Eg sný því máli mínu sérstaklega til Vestur-Íslendinga, því Íslendingar heima hafa eflaust gleggri sögu um þetta, en eg get í té látið.

Eg vil því sérstaklega biðja hina eldri Vestur-Íslendinga, sem eru á sama aldursskeiði og eg og muna meira og minna um ástæður íslenzku þjóðarinnar á árunum 1850 til 1870, að líta með mér aftur í tímann og rifja upp hvernig ástæður íslenzku þjóðarinnar voru *þá*, og bera það saman við það, sem *nú er*. Og eg vildi biðja hina yngri kynslóð, sem ekki þekkir Ísland, margt af henni, nema af afspurn, að taka nú vel eftir, þegar við gamla fólkið förum að rifja upp ástæður lands og lýðs frá þeim árum. Undir yngri kynslóðinni er það komið, hvort vinsamleg systkina sambúð milli Austur- og Vestur-Íslendinga getur haldist áfram og hvort íslenzkt mál og þekking á Íslandi getur haldist hér við. Við, hinir eldri, erum nú bráðum úr sögunni. En það bið eg lesendurna vel að athuga, að þessi samanburður er um ástandið eins og það var *alment*. Það eru alt af til menn, sem eru undantekning frá því almenna, undan sínum tíma, bæði í hugsun og framkvæmdum.

*Landbúnaðurinn.*—Eg ætla fyrst að byrja á honum, þótt í honum sé — því er ver — minstar framfarirnar á Íslandi. Á æskuárum okkar eldra fólksins var það næsta fátítt, að sléttaður væri nokkur blettur í túni. Girðingar um tún og engi voru fátíðar, og vatnsveitingar nær engar. Menn reyndu aðeins að 'bera á' túnin og slá bæði þau og sömu engin ár eftir ár. Öll nýbreytni í ræktun var alment talin ómöguleg. Það mundi "ekki borga sig", að leggja í svo óviss fyrirtæki.

*Sjávarútvegurinn* var aðallega smá-seglbátar, sem ekki var hægt að fara nema skamt á og urðu því að standa í nausti, ef fiskurinn kipti sér frá eða veður bagaði. Að eins örfá stærri skip, sem mestmegnis voru notuð til hákarlaveiða. Á þeim árum voru þó eins og enn er, margir hraustir sjómenn, sem voguðu oft lífi sínu, enda fóru á þeim árum mörg "hraust bein í sjóinn."

*Verzlunin* var þá nær undantekningarlaust í höndum útlendra, mest danskra stórkaupmanna, sem settu verð eftir eigin geðþótta, bæði á innlenda og útlenda vöru, og fluttu svo allan arðinn úr landinu jafnóðum; og ekki dæmalaust, að þeir flyttu landsmönnum vörur, sem ekki voru manna matur. Sumir þeirra komu aldrei til Íslands, en höfðu háttlaunaða um-

boðsmenn á Íslandi, alt á kostnað landsmanna. Verzlunararðurinn, sem skifti miljónum, rann allur út úr landinu. Og allur flutningskostnaður á vörunum til landsins og frá því, rann í vasa útlendinga, en landsmenn borguðu hann í vöruverðinu.

*Samgöngurnar* frá útlöndum voru þannig, að það komu skip til hverrar verzlunar haust og vor, og einstöku lausakaupmaður á sumrum. Skip, sem fluttu póst, komu að eins til Reykjavíkur nokkrum sinnum á ári, á vetrum að eins einu sinni eða tvisvar. Engar skipaferðir kringum landið. Póstferðir mjög strjálar og aðeins milli landsfjórðunga, þar til síðustu árin. Það, sem gerðist í heiminum, fréttist því víða á landinu ekki fyr en eftir hálft eða heilt ár. Jafnvel það, er gjörðist innanlands líka, fréttist litlu fyr. — Vegabætur voru mjög litlar og lélegar, og engin af öllum stórám á landinu var brúuð, nema Jökulsá á Fljótsdalshéraði; yfir þær varð að fara á ferju og sundleggja hestana, hvernig sem veður var.

Nú skulum við snúa okkur að ástandinu á Íslandi, eins og það er *nú*. Og líta þá fyrst á *landbúnaðinn*. Í honum eru framfaravonir minstar og þó töluverðar, og ekki sízt það, að nú hafa opnast augu þjóðarinnar fyrir því, hvað gjöra þurfi og hægt sé að gjöra landbúnaðinum til eflingar, og þá er stórt spor stigið, því allri framkvæmd þarf að fylgja fyrirhyggja og trú á málefnið, ef vel á að fara. —Víða er og á landinu byrjað á töluverðum verklegum framförum í landbúnaði. Túnasléttun víða byrjuð að mun. Girðingar reistar um tún og engi, víða úr stálvír. Vatnsveitingar byrjaðar á nokkrum stöðum, og á einum stað, í Flóunum í Árnessýslu, er verið að koma af stað vatnsveitu, sem áætlað er að kosti svo miljónum skifti. —Farið er og að nota nokkuð vélar, bæði til plæginga og heyskapar, þó skamt sé á veg komið að nota þær—skemur en skyldi—, og vanti eflaust bæði þekkingu og verklægni til þess að hafa þann hag af þeim, sem hægt er. — Búnaðarfélag er nú stofnað fyrir alt landið, sem hefir á hendi allar meiriháttar framkvæmdir í búnaðarmálum; hefir það í sumar eð var sókt um styrk til alþingis, landbúnaðinum til eflingar, að upphæð ¼ úr milj., og mun það vera nærri eins mikið og veitt var á ári til allra framfara fyrirtækja, fyrst eftir að þjóðin fékk fjárforráð.

Til sönnunar því, að töluverð framför sé í landbúnaði, ætla eg að tilfæra nokkur orð úr bréfi, frá einum góðkunningja mínum á Austurlandi: "Á þessum 17 árum, síðan þú fórst, hefi eg bygt tvílyft steinsteypuhús, með góðum kjallara undir, sléttað alt túnið og girt það með gaddavír; —og ýmislegt fleira smávegis hefi eg kostað til umbóta. Samt er eg skuldlaus og á dálítið "til góða" við ýmsar verzlanir." — Eg vona, að þetta sé ei einsdæmi. Þegar eg fór, var maður þessi alls ekki ríkur. En er hygginn og duglegur. — Þetta sýnir, hvað *hægt er að gera* á Íslandi í landbúnaði.

*Sjávarútvegurinn* hefir umskap-

ast svo á Íslandi, að örðugt er fyrir okkur í fjarlægðinni að gjöra okkur fulla grein fyrir því. Í stað smáu seglbátanna eru nú komnir mótorbátar af ýmsri stærð, og fjöldi þilskipa, sem geta elt fiskinn langar leiðir; og síðast, en ekki sízt má geta botnvörpunganna, sem ausa upp fiskinum og flytja hann til útlanda og selja hann þar fyrir margar milj. króna árlega. Og nú stunda Íslendingar nýjan fiskiútveg, síldveiðarnar, sem færa þjóðinni miljóna arð. Sem dæmi þess, hve hraðfleyg er framförin í fiskiveiðunum, má geta þess, að árið 1901 voru útfluttar fiskiafurðir 5 miljónir króna, en árið 1913 voru þær orðnar 13⅓ miljón króna, og hefir þó aukist drjúgum síðan. — Innlent skipavátryggingarfélag er nú stofnað.

*Verzlun* Íslands er nú að kalla má undantekningarlaust *innlend*. Innlendir kaupmenn og kaupfélög. Jafnvel heildsölu-verzlunin er að verða innlend. Kaupfélögin, sem mörg voru í byrjun afllítil og oft mishepnuð, eru nú að færast í aukana og fjölga árlega, og eru nú að byggja á traustari grundvelli; hefir þeim aukist svo afl og samheldi, að þau eru í byrjun með undirbúning að koma sér upp heildsöluverzlun, og farin að safna fé til að kaupa skip, svo þau geti sjálf annast um flutning á vörum sínum.— Búið er líka með samlagsfé að stofna nokkur rjómabú og sláturhús, og er það stór hagur, bæði fyrir landbúnað og verzlun. Settir eru líka af landstjórninni vörumatsmenn, er meta og flokka niður kjöt, ull og fisk, og hefir leitt af því miklu meiri vöruvöndun, svo íslenzkar vörur eru nú í miklu hærra verði og meira áliti á heimsmarkaðinum. — Eins og kunnugt er, hafa tveir bankar verið stofnaðir; er annar þeirra Landsbankinn, þjóðeign, hinn Íslandsbanki, eign hlutafélags. Hafa þeir mjög aukið peninga veltu í landinu og greitt úr peningavandræðum, bæði fyrir einstaklingum og þjóðfélaginu, og hjálpað til að hrinda í framkvæmd ýmsum fyrirtækjum, sem ekki hefði verið neinn kostur að ráðast í án þeirra. Og að miklu leyti fyrir aðstoð bankanna er nú mestöll verzlun á Íslandi orðin peningaverzlun, fyrir borgun út í hönd í stað hinnar drepandi skuldaverzlunar, er áður var.

*Samgöngurnar* eru stórum bættar, þó mikið vanti á, að þær séu enn eins og þörfin krefur. Skipaferðir milli Íslands og útlanda eru nú stöðugar. Koma oft skip í viku hverri frá útlöndum til Reykjavíkur og ýmsra annara staða á landinu. Stöðugar hringferðir, umhverfis landið, eru komnar á alt árið, og auk þess víða í landsfjórðungunum smærri flutningsbátar, sem fara inn á víkur og voga, hvar sem fært er. — Vitar eru reistir mjög víða á ströndum landsins, til að gera skipaferðir hættuminni. Stór og vönduð höfn er bygð í Reykjavík, sem kostað hefir miljónir króna, og víðar á landinu er verið að gjöra hafnarbætur í smærri stíl (t. d. í Vestmannaeyjum og á fleiri stöðum). Nokkur hluti af verzlunarskipum er nú orðinn eign Íslendinga. Eimskipafélagið á tvö

skip og er að kaupa hið þriðja. Þjóðfélagið á þrjú skip ("landsjóðsskipin"), og eitthvað mun vera af verzlunarskipum, sem einstakir menn eiga. Er það því orðinn álitlegur hluti af farmgjöldum og fargjöldum, sem nú renna í vasa þjóðarinnar, sem áður rann alt í vasa útlendra auðkýfinga. Og auk þess hefir nú fjöldi Íslendinga góða atvinnu við siglingar, þar sem áður var enginn, er þá iðn stundaði.— Póstgöngur hafa stórum batnað, þó þær séu mjög ónógar enn. Nú kemur þó póstur í hverja sveit á landinu, auk þess sem skipaferðirnar umhverfis landið greiða mjög fyrir póstgöngum. — Búið er nú að brúa nær allar stórár og fjölda af smærri ám á landinu, nema jökulárnar á Suðurlandi, þar sem jökulhlaupin hindra brúargerð. — Akbrautir eru nú komnir víða á landinu, og víða eru nú niðurlagðar þar hinar seig-drepandi lestaferðir, og sumstaðar er farið að nota mótorvagna til vöruflutnings , t. d. á Fagradal, upp frá Reyðarfirði til Fljótsdalshéraðs, og í sveitunum út frá Reykjavík, í Þingeyjarsýslu frá Húsavík til Einarsstaða, og líklega víðar, þó mér sé það ekki kunnugt.— Til samgöngubóta mun og mega telja bifreiðarnar (automobiles), sem alment eru kallaðir "bílar" heima á Íslandi. Á þeim er nú víða þotið áfram eftir sveitunum og eins á hjólhestum; má t. d. nefna það, að nú er hægt að fara á "bíl" frá Reykjavík austur í Rangárvallasýslu og koma aftur að kvöldi, sem áður þurfti 3 til 4 daga að fara fram og aftur, þó á góðum hestum færi ferðast.

Og síðast, en ekki sízt, má nefna landsímann; ritsímann og talsímann, sem gjörir hægt að senda skeyti með hinum fyrnefnda, bæði til útlanda og um landið, og talast við landshornanna á milli í hinum síðarnefnda. Þetta stórvirki er og mun verða óbrotgjarn bautasteinn, sem jafnan mun minna á innanlandsmála dugnað Hannesar Hafsteins, hverjir dómar sem að öðru leyti verða feldir um stjórn hans. Nú geta Íslendingar á hverjum degi vitað, hvað við ber í heiminum, og heima á Íslandi víðast. Aðeins vantar samsvarandi póstgöngur innanlands, svo gagn símans geti komist inn á hvert einasta heimili. Það verður ei með tölum talið, hver þægindi og hagnað símakerfið hefir veitt mörgum einstaklingum þjóðarinnar, né hver lyftistöng það hefir orðið, framförum íslenzku þjóðarinnar í heild sinni, og auk alls þessa hefir síminn veitt þjóðinni tekjur, afgangs reksturs kostnaði, svo hundruðum þúsunda skiftir á hverju fjárhagstímabili.

Dálítill vísir af innlendum verksmiðju-iðnaði er byrjaður á Íslandi, tóvinnu verksmiðjur o. fl.— og húsagerð hefir stórum aukist og batnað. Steinhúsagerð víða orðin almenn í verzlunarstöðum, og mörg steinhús bygð í sveitum, í stað hinna endingarlitlu moldarbæja. Raflýsing er víða að komast á í kaupstöðum, og sumstaðar er rafmagnið líka notað til að sjóða matvæli og hita hús, og á einstöku sveitabæjum eru þessi rafmagnstæki líka komin. Má

gjöra sér vissa von um mikla framför á komandi tíma í þeim efnum, jafn auðugt land sem Ísland er að vatnsafli.

Andlegar framfarir eru jöfnum höndum á Íslandi. Skólum hefir fjölgað, háskóli verið stofnaður og ekki sízt má það framför telja, hve margir hinna yngri manna snúa nú inn á þá braut, að læra verkfræði. Bókagjörð hefir stórum aukist og fleira komið út af bókum, sem hafa "praktiska" þýðing fyrir verklega menningu þjóðarinnar.

— — —

Af þessu, sem hér hefir verið sagt, þó lauslega sé yfir farið, má sjá það, hve stórkostlega þjóðeignin hefir aukist, þó miklar skuldir hvíli á þjóðinni. Eg hefi einhvers staðar séð það, að þjóðin eigi umfram skuldir ellefu miljónir. Hugsið yður, lesendur góðir, hvers virði er alt símakerfið, verzlunar- og siglinga-flotinn, vitarnir og hafnargerðirnar, allar vegagerðirnar og brýrnar, og steinhúsin og fjölgun húsa í kaupstöðum, raflýsingarnar og verkstæðin, og margt fleira mætti telja. Hugsið yður, hver þjóðargróði það er orðinn, og verður þó meiri í framtíðinni, að nú rennur inn í landið *margra miljónagróði* af verzluninni, og talsvert af flutningsgjaldi og fargjaldi, sem áður rann alt í vasa útlendra auðmanna, og auk þess hafa nú fjöldi Íslendinga atvinnu við verzlun og siglingar, sem fáir höfðu áður. Alt þetta bendir á, að það er að eflast og þroskast hjá Íslendingum, bæði í hugsun og framkvæmd, að "Ísland sé fyrir Íslendinga", en hætti að vera mjólkurgripur stærri þjóða.

Eg hefi verið svona fjölorður um þetta, til að reyna að vekja gleggri hugsun Vestur-Íslendinga um það, hver breyting í betri átt er orðin á þjóðhögum Íslendinga, frá því sem áður var. Eg vona samanburðurinn, sem hér er sýndur, þó lauslegur sé, skýri það að nokkru, og svo hjálpar eflaust mörgum til að sjá mismuninn ýmsar endurminningar þeirra um það, sem áður var. Vel veit eg það, að margt er í ólagi á Íslandi enn. Margir eiga þar við fátækt að stríða. En hver er sú þjóð, sem ekki hafi þá sögu að segja? Og eg vil *endurtaka það*: *Allar þessar framfarir hafa byrjað og þroskast á því tímabili, sem liðið er síðan Íslendingar fengu fjárforráð og löggjafarvald. Á fyrsta tímabilinu, frá 1874 til 1904, voru bankarnir stofnaðir, vegagjörðir miklar og brúargjörðir, þilskipaflotinn aukinn o. fl. En eftir að stjórnin færðist inn í landið 1904, komu stærri fyrirtækin til sögunnar: botnvörpunga flotinn, símabyggingin, hafnargjörðirnar,* auk framhalds á vegagjörðum, brúargjörðum, vitabyggingum o. fl. — Þessar framfarir eru eðlileg *afleiðing af auknu þjóðfrelsi*, því aukið frelsi færir ætíð með sér *aukna ábyrgðartilfinning,* sem er ein sterkasta lyftistöng, bæði einstakingum og heilum þjóðum, sem nokkuð er í spunnið, til að efla framtakssemi, starfsþrótt og víðsýni. Og þegar hvert spor, sem Íslendingar hafa færst áfram hingað til á sjálfstjórnarbraut-

inni, hefir haft í för með sér aukna þjóðarvakning, aukinn þjóðarþrótt, aukna þjóðar-starfsemi, og aukinn þjóðarauð, þá getum vér Íslendingar og allir, sem Íslandi unna, gjört okkur glaða von um, að fullveldi íslenzku þjóðarinnar muni knýja fram hjá henni í fyllra mæli starfsþrótt hennar og þjóðkosti.

Íslenzka þjóðin á nú fyrir höndum, að ráða fram úr mörgum og stórum vandamálum í nálægri framtíð. Á úrslitum margra þeirra mála veltur það, hvort þjóðinni eykst sjálfstæði í reyndinni við það að verða fullvalda þjóð. En ef íslenzka þjóðin lætur vera vakandi í hugsun sinni og sýnir í störfum sínum, að hún muni hið spaklega Aldamótakvæði Hannesar Hafsteins:

> "Starfið er margt, en eitt er bræðrabandið,
> boðorðið, hvar sem þér í fylking standið,
> hvernig sem stríðið þá og þá er blandið,
> það er að elska, byggja og treysta á landið",

þá, og þá að eins, mun Ísland og hin íslenzka þjóð eiga bjarta framtíð fyrir höndum.



# Vísur

Eftir *Guðrúnu skáldkonu Þórðardóttur frá Valshamri.*

Hjartað sýkist, æðar önd,
Öll svo myrðist gleðin,
Mér ei hjúkrar hlýleg hönd,
Hún er stirð og freðin.

Það má kalla þyngsta stríð,
Þróast kali' í geði,
Eg má varla eyktar-tíð
Eiga mér til gleði.

Nú er hrelda lundin lin,
Ljótir fjötrar beygja,
Eg á heldur engan vin
Angur mitt að segja.

Sérhvað hræðir muna minn,
Magnað kæluslögum.
Friðar-hæða fulltrúinn
Forði mæðuhögum.

Ljósið dafnar dagsins ótt,
Drýpur tár af hvörmum.
Eg mun sofna sætt og rótt
Sem í vinar örmum.

Jafnan þessa sé eg sýn,
—Sinni kært vér gjörum—
Hugar- blessuð -brosin þín
Blika skært á vörum.

# Haustraddir.

Eftir *Henry van Dyke.*

---

Þegar andi haustsins kossi' um kinnar mér
köldum fer,
þegar sumarblómin fögru fölna' í röð —
falla skrælnuð blöð, —
gegnum moldar gljúpa þræði, er glóey spann,
geigur rann;
jörðin sjálf, er gróður bar um ár og öld,
andar þungt í kvöld.

Þar, sem blómin spruttu í röðum, rauð og blá,
runnum hjá,
liggur stígur yfir grasi gróinn völl —
geymir sporin öll,
geymir raddir liðins tíma, tár og sár,
töpuð ár,
glæsta drauma, æskuvona dauðadóm,
dáin vorsins blóm.

Samt hin dapra minning ei mér eykur harm,
en í barm
vekur styrk, er sýnist finna fróun þrá
fortíð bjartri hjá, —
og eg man hve auðan margur átti veg,
eins og eg,
og að angurvakinn haustsins hugar blær
heim til allra nær.

Ó, hve mörg var allra þeirra eftirsjá —
ófylt þrá,
og hve heit mörg bæn um aukið afl og styrk
eftir sporin myrk.
Eg hef troðið út og fram hinn auða stíg
ei fyrir gýg,
því mér slíkra manna runnnið reynslu skeið
rauna stytti leið.

Mannkynssorgin dunar eins og öldusog
    út um vog;
þó oss hljómar ávalt lífs vors inn við naust
    einhver hlýleg raust.
Ef þú vilt mig leiða, vina, lífs um braut,
    léttist þraut, —
þeir, sem ljúft er annara' að létta eymd og böl,
    eiga á samhug völ.

*Gísli Jónsson.*



# Tónsnillingurinn.

Eftir *Þorstein Þ. Þorsteinsson.*

LANGT úti í löndum hjá þjóð, sem önnur voldugri hafði öldum saman niðurnítt, fæddist hann.

Frá forfeðrunum löngu dánu, sem voru frjálsir menn í frjálsu landi, erfði hann sálina og sögu þeirra með, en búningurinn var samtíðarinnar, sem ól hann.

Þegar hann var fulltíða maður, elskaði hann tvent, þjóðina sína og hljóðfærið sitt; en eitt var sem hann hataði—þjóðina miklu, sem í blindri drotnun sinni fótum tróð fólk hans og land.

Nótt eftir nótt snertu hendur hans hljóðfærið, og frá djúpi þess risu þungar stunur — angistar-óp þjóðhjartans, ummynduð í harmlög listamannsins.

Þjóðin hans lærði lögin, og hún grét, en vissi ekki hvers vegna, því hún var ekki vakandi og þekti ei lengur hjarta sitt. Og hún notaði sorgar lögin við útfararsálmana.

Dag eftir dag sat hann við hljóðfærið og hugsanir hans fóru herför — syngjandi sigurför móti óvinum þjóðar hans. Hann sá herveldi fjendanna eyðast og vígin mölbrotin og þá sjálfa flýjandi burt úr landi sínu — langt, langt inn í afkyma lands þeirra. Stórskotadrunur og bardagagnýr frá sigrandi þjóðinni hans, barst út um allan heiminn—lengra, lengra; hærra, hærra — sjálfur guð hlustaði og horfði með velþóknun á hið réttláta frelsisstríð þjóðar hans.

Og hljóðfærið bergmálaði hugsanir hans — hin tryldu hergöngulög hins trylda frelsisstríðs. En hvað hafði sofandi þjóðin hans með þau að gera? Þau mundu að eins orsaka máttvana uppreist hér og þar, sem af sér leiddi blóðsút-

hellingar yfir hans eigin þjóð og verða ægivopn í máttarhöndum þrælmennanna að meiða og myrða.

Þess vegna spenti hann uppreistar - tónana megingjörðum hinna gömlu sönglaga þjóðar sinnar. Og móðirin söng vögguljóðin með þeim við barnið sitt. Æskan söng þá sem lífshvöt í uppvextinum. Og þeir bárust inn í brúðkaupsljóðin og hátíðasöngvana. En mest inn í dansinn. Þar áttu þeir heima. Þar nutu þeir sín. Þar hljómuðu þeir í danslögum þjóðarinnar, ýmist sem herlúðrar eða bumbur, framsóknar-hróp eða fallbyssuskot, vopnaglamur eða hófaskellir, í hoppdönsum, hringdönsum og öllum dönsum. Meðan þjóðin hans dansaði sig þreytta— og það gera allar þjóðir — drakk hún óafvitandi í sig trú á sjálfa sig — vonina að lifa til að vinna og sigra, úr uppsprettulindum undiröldu danslaganna. Og þjóðin blístraði þau fyrir munni sér við vinnu sína, um morgun, kveld og miðjan dag.

En þjóð hans svaf enn þá.

Við hljóðfærið sitt sat hann sýknt og heilagt. Hann sá í anda þjóð sína rísa úr rústum eftir unninn sigur, frjálsa og blómlega, og tengjast samúðarböndum hins djúpa mannkærleika — alla, alla. Hann sá allan heiminn ummyndast í guðsríki jarðarinnar — friðarríkið tilkomanda. Og sýnir hans breyttust í tóna og tónarnir í lög— dýrðlega fagnaðarhljóma. En fáir af þjóð hans skildu þá—jafnvel þótt þeir léku þá og syngju — því þjóðin var enn ekki vöknuð.

Samt áður en hann dó, fanst honum hún vera farin að rumskast. Meira ei. En hann vissi, að hún mundi vakna.

Og þjóðin vaknaði.

Það skeði mörgum, mörgum árum eftir að tónsnillingurinn hafði safnast til feðra sinna, grafinn en eigi gleymdur.

Fyrst opnuðust augu hennar fyrir harmlögunum og hún þekti sína eigin mynd.

Næst var dansbúningnum svift af hinum oddhvössu vopnum hersöngvanna, og þeir hljómuðu með sigursæld hjá þjóðinni hans, sem nú rak kúgarana af höndum sér. Seint en stöðugt höfðu sigurdraumarnir hans dulbúnu verið að vekja þjóðarsálina. Enginn samtíðarmanna hans sá þann dag. En þegar hún vaknaði, vaknaði hún öll einhuga, skildi herhvötina og sigraði.

Nú er hún kölluð frjáls, þjóðin hans. En fagnaðarhljómana hans þekkir hún ekki. Heyrandi heyrir hún ekki né skilur. Sýnirnar hans þær, hefir hún ekki en þá séð. Fyrir þeim er hún sofandi. Þær eru líka torskildustu gátur listarinnar á þroskaleið andans. En hún vaknar og lærir þær og skilur — einhvern tíma.

Öll lönd heimsins sjá þær sýnir að lokum — sjá þær til að skilja þær.

———o———

# Þú—

Eg hafði sofið — vissi' ei vel hve lengi,
því værðin á svo marga gleymna strengi.
Þú vaktir mig með ylsins andardrætti,
sem óma-rím í vorsins bragarhætti.

Eg leit þig fyrst í tíbrá draumsins titra,
sem tárablik á vorsins hvarmi glitra, —
í sólbráðinni sá þín áform stækka
og sálar minnar Berurjóðrum fækka.

Eg grét sem barn við hálfar sögur sagðar,
með særðar vonir — aðrar kistulagðar.
En jafnvel mitt á æfisorgar söndum
með sól þú komst frá vorsins Bjarmalöndum.

Með þér eg hefi kannað heiðishöfin
og haft að seglum norðurljósatröfin, —
í fararlok að brúna þinna bending,
sett bátinn upp í Morgunroðalending.

Eg hefi vakað — vorið er að kalla
til vöku-sigurs þjóna sína alla.
Í blæ þess kenni' eg klökkvi raddar þinnar —
finn klakann leysa' af unnum sálar minnar.

Sem gróðrarþrá í undirvitund vorsins
þú vakir hjá mér alt til hinsta sporsins.
Og sé þess von þig síðast vildi' eg leiða
til Sólarlands um næturhafið breiða.

*Einar P. Jónsson.*

# "Santa Claus."

Kafli úr sögunni "Karl litli".

Eftir *J. Magnús Bjarnason.*

ARL litli lá á svanadúnssænginni mjúku í höllinni fögru. Hann lét sem hann svæfi, en samt vakti hann og var að rifja upp fyrir sér æfintýrin, sem hann hafði ratað í. Enginn var í herberginu hjá honum, því að fóstra hans var gengin inn í næsta herbergi til þess að hvíla sig. Nóttin var björt, eins og um hádag væri; tunglið skein hátt á loftinu í allri sinni dýrð, og stjörnurnar blikuðu á fagurbláum himninum og sendu undur-skæra geisla ofan á jörðina. En hringinn í kringum höllina brann ávalt um nætur nokkurs konar vafurlogi, sem myndaðist af ótrúlegum grúa af rafmagnsljósum alla-vega litum.

Um miðnættið heyrði Karl litli, að drepið var ofurhægt á herbergis-hurðina.

"Komdu inn!" sagði hann og reis upp við olnboga.

Dyrnar lukust upp, og inn í herbergið gekk ungur maður vöxtulegur og vænn sýnum. Hann var glóhærður; var hárið mikið og féll í lokkum um herðar honum. Ekki hafði hann húfu eða hatt eða hjálm á höfði, en hann hafði gullhlað um ennið og líktist það kórónu. Hann var í glitrauðum tignarklæðum og hafði gullfjallaða glófa á höndum.

"Gleðileg Jól, ungi Íslendingur!" sagði hinn glóhærði gestur, og augnaráð hans var sérlega hýrlegt og blítt. "Gleðileg jól! *Gleðileg jól!*"

"Gleðileg jól!" sagði Karl litli og settist upp í rúminu. "En hvernig geta jólin verið komin? Eg hélt það væri langt til jólanna. Eða er ekki vorið rétt að byrja?"

"Já, já, ungi Íslendingur!" sagði gesturinn og settist á stól, sem stóð skamt frá rúminu. "Nú heyri eg að þú ert farinn að ruglast í ríminu. Þú hefir víst aldrei lært *Fingrarímið,* sem þó er bæði fögur og gagnleg íþrótt. Eg gæti bezt trúað því, að þú þektir ekki *Sunnudags-bókstafinn* og *Gyllinitalið,* og vissir ekki vitund um *Sumaraukann* og *sólstöðurnar.* — En eg get fullvissað þig um það, að jólin eru komin með öll ljósin sín og allan fögnuðinn og friðinn fyrir blessuð börnin og — alla menn."

"Eg hefi vanist því," sagði Karl litli, "að snjór væri á jörðu, þegar jólin koma."

"Þú veizt þá ekki, hvað *rauð* jól eru," sagði gesturinn og brosti. "Og kannske þú hugsir að snjór og kuldi sé í Brazilíu um jólin? Kannske þú ímyndir þér, að fólkið í Kongódalnum aki yfir snjófannir á aðfangadagskvöldið, og að börnin í Kúba og Kosta Ríka renni sér á skíðum um jólin?"

"Eg hefi aldrei hugsað neitt út

í það," sagði Karl litli. "En fyrst að jólin eru komin, þá má eg búast við honum Jólaskrögg á hverju augnabliki. Hann kemur vanalega niður reykháfinn."

"Hvað ertu að segja! Hver er er þessi *Jólaskröggur?*"

"Enskir kalla hann *Santa Claus;* en sumir Íslendingar hafa nefnt hann Jólaskrögg. — Hann kemur með alls konar góðgæti og leikföng til barnanna á hverri einustu jólanótt."

"Hvaða óskapa nafn!" sagði hinn glóhærði maður, brá hendinni upp að enninu og lagaði gullhlaðið ofurlítið. Já, já, Jólaskröggur! Ekki nema það þó! Þetta eru allar þakkirnar, sem eg fæ! Þetta er öll virðingin, sem mér er sýnd! Svona er starf mitt metið! Eg er nefndur Jólaskröggur af einni hinni lang-mentuðustu og bráðgáfuðustu þjóð heimsins! Eg er uppnefndur og kallaður Skrögg — Skröggur — Skröggur! Hvorki meira né minna en *S k r ö g g u r!* En skröggur þýðir *refur!* Og Skröggur var algengt nafn á hrímþursum og nátttröllum, sem reyndar voru aldrei til, nema í ímyndun fáfróðra og hjátrúarfullra manna. Og eg veit ekki betur, en að einn af sonum þeirra Leppalúða og Grýlu gömlu væri nefndur Skröggur. En, eins og betur fer, þá var Grýla og hennar hyski aldrei til. Og flest af Grýlu-kvæðunum gömlu voru ort og sungin af mönnum og konum, sem ekki vissu, að slík kvæði fylla hjarta barnsins ótta og kvíða og hafa því skaðleg áhrif — Jæja! Jæja! Svo eg er þá nefndur Skröggur! Eg vissi það ekki fyr. Eg er þér þakklátur fyrir að segja mér það."

"Ert þú," sagði Karl litli hikandi, "ert — ert ert þú hann Jóla- — hann *Santa Claus?*"

"Já, eg er kallaður Santa, eða Santa Claus, hjá enskumælandi þjóðum. En sumir kalla mig Kláus hinn helga. Og af sumum hefi eg verið nefndur Nikulás hinn góði. En hvað sem eg annars heiti, þá er eg á öllum tímum og á öllum stöðum einlægur vinur allra barna, hvort sem þau eru hvít eða gul, eða eirrauð, eða kaffibrún, eða blá á litinn. Eg er æfinlega *vinur* barnanna og jólanna. Og þú mátt kalla mig Jólabaldur, eða Jólatý, eða Jólaguma, eða Jólaver; en fyrir alla muni, þá kallaðu mig ekki Jólaskrögg."

"Eg skal kalla þig *Santa,* því að það er stutt og laggott."

"Eins og þú vilt."

"En fyrst þú ert hann *Santa,* þá hefirðu komið inn í höllina um reykháfinn."

"Hvaða ógnar fjarstæða! Heldurðu að maður sé að renna sér niður reykháfinn í öðrum eins klæðum og eg er í? Það væri falleg sjón, eða hitt þó heldur, að sjá mann eftir að hafa skriðið niður um sótugan reykháfinn! Og hvernig heldurðu að gjafirnar, sem börnin eiga að fá, líti út, ef þær koma þá leið? — Sussu, nei; eg hefi aldrei verið sótari."

"Eg hefi samt séð mynd af þér, Santa, þar sem þú varst að fara með fulla körfu af gjöfum ofan um reykháfinn á bjálkahúsi í skógi."

"Það er ómögulegt, að þú hafir séð mynd af mér í svoleiðis stellingum, því að eg hefi aldrei á æfi minni farið niður um reykháf á neinu húsi."

"Það var samt sýnd mynd af *Santa Claus,*" sagði Karl litli og virti hinn glóhærða gest fyrir sér. "Það var Santa Claus, hann var aldraður, hafði mikið grátt skegg, og var með krítarpípu í öðru munnvikinu, en lét reykinn fara út um hitt. Hann var í fötum úr loðskinni og hafði bláan silki-linda um mittið. Og gleðin ljómaði úr augunum."

"Það hefir verið mynd af einhverjum *ímynduðum* Santa Claus," sagði hinn tigulegi gestur og brosti blíðlega. "Menn hafa ýmsar einkennilegar og kynjafullar hugmyndir um mig. En það er enginn Santa Claus til, nema eg einn. Eg vona, að þér sýnist eg ekki vera svo grettur og grár. Og eg hefi litla ástæðu til að dúða mig í dýrafeldum. En hvað pípu og tóbaki viðvíkur, þá hefi eg aldrei vanið mig á slíkan óþarfa. Það er hætt við því, að ljót tóbaks-lykt væri af sumum gjöfunum, sem eg sendi börnunum, ef eg hefði tóbaks-pípu ávalt uppi í mér. — Eg á heima hér á Draumamörk. Og eg fer aldrei til Mannheima, nema á jólanótt; og þá sér mig ekkert mannlegt auga. — Þeir, sem vilja sjá mig og kynnast mér, verða að gjöra sér ferð hingað inn á Draumamörk."

"Á!" sagði Karl litli. "En ekur þú aldrei í sleða, sem hreindýr ganga fyrir?"

"Nú þykir mér þú spyrja barnalega."

"Mér hefir verið sagt," sagði Karl litli, "að Santa Claus ætti sex eða sjö eldfjörug hreindýr, sem hann beitti fyrir sleðann sinn á hverri einustu jólanótt. Eg hefi, meira að segja, séð mynd af þeim, og eg veit, að eitt þeirra heitir *Þruman* og annað *Elding.* Og þau fara óttalega hart."

"Þetta nær engri átt," sagði glóhærði gesturinn. "Þú veizt það sjálfur, ungi Íslendingur, að enginn ekur á sleða nema yfir snjó og ís. En mikið af leið Santa Claus liggur yfir breið höf, sem aldrei frjósa, og langar eyðimerkur, þar sem aldrei kemur frost eða snjór. Og meiri hluti barnanna á heima í þeim löndum, þar sem jörðin er alveg snjólaus um jólin. Eg er líka viss um, að þú hlýtur að skilja það, að Santa Claus gæti ekki á einum sólarhring komið heim á hvert einasta heimili á jörðinni, þar sem börn eiga heima, ef hann ætti að fara alla þá leið á *hreinum,* þó þeir séu fráir á fæti og þolnir. Og setjum sem svo, að hann færi svo geyst, að hann þyrfti ekki nema eina sekúndu, að jafnaði, til þess að fara frá einu húsi til annars, þá gæti hann samt ekki komið við á fleiri en áttatíu og sex þúsund og fjögur hundruð heimilum á sólarhringnum. En það eru til borgir, sem hafa fleiri heimili en það. — Nei, ungi Íslendingur, eg verð að hafa önnur flutnings-tæki, en sleða og hreina, til þess að fara um allan Mannheim á einni nóttu."

"Ekur þú þá í bifreið?"

"Sussu, nei. — Eg kæmist ekki nema um sextíu mílur enskar á klukkustundinni, með því að aka í bifreið; og eg yrði að þræða rennisléttar akbrautir. — Eg skal segja þér, ungi Íslendingur, hvernig eg ferðast á jólanótt. Eg fer í dálitlu loftfari, sem heitir *Huginn*. Það fer um tuttugu og fimm þúsund mílur á einni klukkustund. Það svífur með mig um hundrað mílur fyrir ofan jörð. Og þegar eg er kominn svo hátt í loft upp, tek eg *geisla-vélina* mína og sendi ótal geisla ofan á hvert hús, sem eg svíf yfir."

"Eru það X-geislar?"

"Sumir kalla þá *Xmas*-geisla; en að réttu heita þeir *jóla-geislar*. — Og með hverjum geisla fer *ósk* frá mér til hinna sofandi barna, sem eiga heima í húsinu. En að morgni, þegar börnin vakna, er óskin orðin að einhverjum fallegum hlut, eða einhverju *happi*, sem gleður börnin á jóladaginn.. Og vélin getur sent heila billjón af þessum dásamlegu undra-geislum til jarðar í einu; svo ekki getur hjá því farið, að fleiri eða færri óskir komi í hvert einasta hús. Eg fer á hálfri klukkustund beina leið frá einu heimskauti til annars, og sendi geislana sex þúsund mílur til beggja handa, svo geislastraumurinn er um tólf þúsund mílur á breidd. Eg get því komið jólageisla inn á hvert einasta heimili á jarðarhnettinum á einum sextíu mínútum, ef eg vil. En af því, að jólanóttin kemur ekki á sama tíma sólarhringsins yfir öll lönd, þá verð eg að fara hægara með köflum."

"Það er víst gaman að ferðast á loftskipi," sagði Karl litli..

"Sumum þykir það. — Viltu koma með mér í nótt?"

"Það vil eg gjarna."

"Farðu þá í fötin, og flýttu þér."

Karl litli lét ekki segja sér það tvisvar. Hann klæddi sig í skyndi og að lítilli stundu liðinni var hann ferðbúinn. Gengu þeir Karl litli og glóhærði maðurinn út í aldingarðinn fagra. Þar var dálítið loftskip, sem var fagurt og gjört af miklum hagleik. Það var í lausu lofti, fáein fet frá jörðu, og ruggaði ofur-hægt í andvaranum, eins og hafskip, er liggur við akkeri á lygnum firði og hreyfist af hægum lognöldum, sem koma frá úthafinu.. Loftskip þetta var með dálítið öðru lagi en nú tíðkast. Það var eins og afar-stór fugl langt til að sjá, og vængirnir voru í lögun eins og svölu-vængir og ákaflega stórir. Voru vængirnir hreyfðir af lítilli en mjög einkennilegri vél, sem var í miðju skipinu. Og gekk vélin af afli, sem enn er alveg óþekt í Mannheimum. En á Draumamörk er það kallað "ljósvaka-afl" eða "ljósmagn."

Þegar Karl litli hafði virt loftskipið fyrir sér um fáein augnablik, gekk hann á eftir glóhærða manninum upp kaðalstiga, sem lá út af borðstokk skipsins og niður á grundina. Og fóru þeir á þann hátt um borð. En rétt í því, að Karl steig inn fyrir borðstokkinn, sá hann að fóstra hans var þar komin. Hún tók í hönd hans og var nokkuð alvarleg á svipinn.

"Eg verð með drengnum á þessu

ferðalagi,'' sagði fóstran og leit til glóhærða mannsins.

''Það verður svo að vera,'' sagði glóhærði maðurinn og hnyklaði brýrnar ofurlítið; ''það verður líklegast svo að vera, en við förum ekki alveg eins hratt fyrir bragðið.''

Glóhærði maðurinn dró nú kaðalstigann upp á borðstokkinn, og studdi síðan fingri á fílabeinshnapp, sem var í litilli flaggstöng aftast á skipinu. Í sama vetfangi hóf skipið sig með geysihraða upp í loftið, og að fáum augnablikum liðnum var það komið svo hátt upp frá jörðu, að Karl litli misti sjónar á öllu fyrir neðan sig, og urðu fjöll og dalir eins og sléttlendi.

''Ekki hærra!'' sagði fóstran. ''Drenginn fer að sundla!''

''Við erum ekki nema níutíu og níu mílur enskar fyrir ofan jörð,'' sagði ljóshærði maðurinn og leit á nokkurs konar loftþyngdarmæli.

Um leið hætti skipið að fara hærra upp í loftgeiminn, en þaut með leifturhraða beint í norður. Og tók nú að hringla í þúsund litlum og hljómfögrum silfurbjöllum, sem voru utan á borðstokknum. ''Gling- gling- gló! Gling-gling - gló! Gling - gling - gling-gling - gló!'' sögðu silfurbjöllurnar. Það var sönn unun að heyra það. Það minti Karl litla á sleðaferð í tunglsljósi um hávetur í Manitoba, þegar tveir eldfjörugir gæðingar ganga fyrir sleðanum, og bjöllurnar á aktýgjunum hringla svo mjúklega og þýðlega, að unun er á að hlýða; hringla svo fjörlega og svo glaðlega í næturkyrðinni, að hjarta manns getur ekki annað en slegið *taktinn* af ánægju, og hoppað af heilsusamlegri kæti, eins og heilbrigður æskumaður á dansleik. ''Hæ! Hó! Gling - gló! Gling - gló! Gling - gling - gló!''

''Nú veit eg, af hverju menn hugsa að Santa Claus aki á sleða,'' sagði Karl litli við fóstru sína; ''það er hringlið í bjöllunum þeim arna, sem veldur því.''

En fóstran þagði og kreisti saman varirnar.

Og um leið og silfurbjöllurnar tóku að hringla, kviknaði á tíu þúsund rafljósum, sem var fagurlega niður raðað um alt loftskipið og út á báða vængi þess. Voru ljósin með alls konar litum, og mynduðu þau marga *regnboga* í kringum alt skipið. Það var dýrleg sjón! Aldrei sér maður neitt svipað því á hreyfimynda-sýningum. Ekkert kemst í samjöfnuð við það, nema sólarlag, þegar það er allra fegurst.

Eftir að loftskipið hafði brunað áfram til norðurs með hraða eldingarinnar um nokkurar mínútur, hægði það alt í einu á ferðinni og tók að hnita ótal hringa í loftinu.

''Nú erum við beint yfir norðurheimskautinu,'' sagði glóhærði maðurinn og handlék verkfæri, sem líktist hornmæli (*theodolite*). ''Það er siður minn að byrja hér starf mitt hverja jólanótt og halda suður yfir Austurálfu (Asíu) og alt suður á suður-heimskautið, og þaðan aftur yfir vestur-hvel jarðar hingað til norður-heimskautsins á ný, og svo heim til Draumamarkar. — En nú skal eg lána þér

sjónaukann minn, sem heitir *Muninn*. Og þegar þú lítur í hann, sérðu alt, bæði smátt og stórt, sem er á jörðinni, þar sem loftskipið svífur yfir. Þú sérð, meira að segja, inn í híbýli mannanna. Þú sérð hvert einasta barn, sem sefur, en ekki þau, sem vaka. — Loftskipið fer fimm sinnum ofan að jörð í nótt, og þá máttu í hvert sinn kalla fram tvö börn, sem sofa, pilt og stúlku, sem eru systkini. Þú mátt sýna þeim skipið mitt og veita hverju þeirra eina ósk. Það er að segja: Þú mátt spyrja þau, hvað þau vilji helzt í jólagjöf. Og það, sem þau óska sér, læt eg verða komið til þeirra, þegar þau vakna að morgni."

"En verð eg ekki að vekja þau til þess, að þau geti talað við mig?" spurði Karl litli.

"Nei, þú þarft ekki annað en bara að horfa á þau í gegn um sjónaukann og óska, að þau komi til þín. Þá klæða þau sig á fáum augnablikum og koma hingað upp í loftskipið og tala við þig."

"Verður ekki erfitt fyrir þau að vakna?" spurði Karl litli.

"Þau klæða sig sofandi, ganga sofandi, og tala sofandi með opin augun. En þau vakna ekki fyr en á jóladagsmorgun. Þá verða óskirnar þeirra komnar fram, en draumurinn þeirra gleymdur."

Að því mæltu rétti ljóshærði maðurinn Karli litla sjónaukann. Og þegar Karl bar sjónaukann að augum sér, þá sá hann alt, bæði smátt og stórt, fyrir neðan sig á jörðinni. Í fyrstu var samt ekkert að sjá, nema íshrannir og snjóskafla. En brátt kom í ljós ýmislegt annað, því að loftskipið var nú komið á suðurleið. — —

---

"Hér nemum við staðar," sagði glóhærði maðurinn, sneri snerlinum á flaggstönginni þrisvar, og lét skipið hnita nokkura hringa í loftinu yfir Reykjavíkur-bæ og höfninni, eins og þegar riddari þenur eldfjörugan gæðing á ýmsum snúningum á sléttum völlum. "Þarna er dómkirkjan, og latínuskólinn. Sérðu myndastyttuna þarna? Það er líkneski Íslendingsins Alberts Thorvaldsens. Og þarna er Tjörnin. Skólavarðan þarna. Þetta er Laugavegur, þarna Ingólfsstræti, og þarna liggur Grettisgata. Þú sérð líka líkneski Jóns Sigurðssonar þarna yfir frá. Það var gjört af meistaranum Einari Jónssyni frá Galtafelli, einum hinum lang-mesta listamanni heimsins. — Þetta er verkstofan hans Ríkarðar Jónssonar, sem er einn af mestu listamönnum Íslands og Norðurlanda."

"Þarna á höfninni er skipið *Gullfoss*," sagði fóstran. "Það bjargaði heilli þjóð frá harðrétti og — hungurdauða. Þeir, sem stýrðu því skipi á árunum 1915, 1916, 1917 og 1918, eru mestu fullhugarnir, sem nokkurn tíma hafa uppi verið með Íslendingum. Og það má óhætt segja, að skipshöfnin á Gullfoss, á þeim árum, hafi unnið Íslandi eins mikið gagn og allir listamenn og skáld."

Loftskipið leið niður að jörðu og nam staðar hjá litlum torfbæ ekki all-langt frá Landakoti. Þar hafði Karl litli, er alt af horfði í

sjónaukann, komið auga á pilt og stúlku, sem sváfu á mjúkri dúnsæng í þokkalegri baðstofu. Og að fáum augnablikum liðnum voru börnin komin um borð á skipinu. Drengurinn hét Kári og var sjö ára gamall, en stúlkan hét Lóa og var átta ára gömul. Þau voru fremur vel búin, og fötin þeirra voru með líku sniði og barnaföt alment gjörast hjá alþýðufólki í borgum á Englandi og í Norður-Ameríku. Bæði voru börnin ljóshærð og bláeygð, með rjóðar kinnar og rauðar varir; og þau voru sérlega góðleg og gáfuleg, sem æfinlega fylgist að.

"Þú kemur þá á gríðar-miklum flugdreka," sagði Kári, þegar Karl litli var búinn að heilsa þeim systkinunum og óska þeim gleðilegra jóla.

"Heldurðu að þetta sé flugdreki?" sagði Kári litli.

"Eg er hreint alveg viss um það," sagði Kári. "Eg hefi heyrt hann pabba minn lesa um alls konar flugdreka, svo eg ætti að þekkja þá, þegar eg sé þá."

"Þú ert býsna skýr," sagði Karl litli, "því að þetta er eins konar flugdreki, þó hann andi ekki og hafi ekki hjarta eða fóarn. Þetta er sem sé loftskip, með alveg spánnýju lagi."

"Við vissum, að það var loftskip," sagði Lóa; "við höfum lesið um loftskip — það er oft getið um þau í blöðunum. Og loftskip voru notuð í *stríðinu mikla.*"

"Þetta er mesta skýrleiksbarn," sagði fóstran við glóhærða manninn.

"Hún er líka *íslenzk,*" sagði glóhærði maðurinn.

"Það lá að," sagði fóstran og brosti.

En þau Kári og Lóa heyrðu ekki hvað fóstran og glóhærði maðurinn sögðu. Það var bara Karl litli, sem heyrði það. Og systkinin sáu engan á skipinu nema hann.

"Þetta loftskip er langtum betra en loftbátarnir, sem þeir höfðu í *stríðinu mikla,*" sagði Karl litli. "Þetta skip er fjarskalega fljótt á ferðinni, alveg eins og elding, og það kemur alla leið frá Draumamörk. Hvað haldið þið annars að það hafi að færa?"

"Líklega þrjár yngisstúlkur vænar," sagði Kári.

"Eða þrjá yngis-sveina væna," sagði Lóa brosandi.

"Það hefir margt að færa," sagði Karl litli. "Það flytur einn mann, eina konu og einn dreng."

"Hvað meira?" sögðu systkinin.

"Það kemur með ótal rafmagnsljós. Eru þau ekki yndisleg?"

"Jú, þau eru falleg," sagði Lóa; "en samt vil eg heldur blessað sólarljósið."

"Svo kemur skipið með hljóm af þúsund fögrum silfurbjöllum. Menn hafa aldrei heyrt slíkt á Íslandi. Heyrið þið, hvað silfurbjöllurnar óma þýðlega, þegar golan hreyfir við þeim! Er ekki fallegt að heyra það?"

"Jú, þetta er fallegur hljómur," sagði Lóa; "en sætara og þýðara er þó fugla-kvakið á blíðum vordegi. Og þúsund sinnum heldur vil eg hlýða á svanasöng á heiði, en á óminn í þessum silfur-

bjöllum. Já, eg vil heldur hlýða á lóu-sönginn og vatna-niðinn á vorin, en á allar þær silfurbjöllur, sem til eru á jörðinni."

"Það er auðheyrt, að þetta er barn náttúrunnar," sagði fóstran.

"En skipið hefir meira að færa, en ljós og silfurbjöllur," sagði Karl litli. "Það færir öllum börnum heimsins góðar jólagjafir,"

"Frá hverjum?" spurði Kári. Frá honum *Santa Claus*."

"Er það sá, sem sumir kalla: *Kláus hinn helga?*" spurði Lóa.

"Já, það er hann."

"Er það hann *Jólaskröggur?*" spurði Kári og gleðin ljómaði í augum hans.

"Sumir kalla hann það."

"Það er víst allra bezti karl," sagði Kári.

"Og hann er ósköp góður við börnin," sagði Karl litli.

"Eg hélt, að hann kæmi æfinlega á sleða, sem mörg hreindýr ganga fyrir," sagði Kári.

"En eg hugsaði að hann væri ekki til nema í sögum, sem búnar eru til fyrir lítil börn," sagði Lóa.

"Eg get nú samt sagt ykkur, að hann er virkilega til," sagði Karl litli. "Þetta er loftskipið hans og heitir *Huginn*. Og þið megið nú óska ykkur einhvers. Og vitið þið svo, hvort það, sem þið óskið, verður ekki komið til ykkar í fyrra málið, þegar þið farið á fætur. Óskið þið nú."

"Pabbi minn segir, að vandi sé velboðnu að neita," sagði Kári. "Og fyrst eg má óska mér eineinhvers, þá vil eg helzt af öllu, að það sé dálítið *loftskip*, sem eg get sjálfur stýrt og ferðast á alla leið til Ameríku. Eg vil endilega eignast loftskip. Það er svo undur gaman, að geta farið yfir sjóinn og fjöllin eins og fuglinn fljúgandi!"

"Eg er ánægð," sagði Lóa, "þó mér sé ekkert gefið, bara ef hún amma mín fær eitthvað gott. Hún er búin að vera svo lengi blind."

"Guð hefir gefið þessu barni gott hjarta," sagði fóstran.

"Það verður hugsað um ömmu þína," sagði Karl litli. "Amma þín fær margar gjafir á morgun. — En hvað vilt þú sjálf eignast?"

"Eg hefði gaman af að eignast kvæðin hennar Huldu, og — dálitla brúðu," sagði Lóa og leit niður fyrir sig.

"Af hverju baðstu ekki um *silkikjól?*" hvíslaði Kári að systur sinni.

"Þetta er bezt," sagði hún.

"Á morgun, þegar þið vaknið," sagði Karl litli, "þá verður brúðan og kvæðabókin á borðinu við rúmið ykkar. En verði ekki lítið loftskip fyrir utan dyrnar á torfbænum hérna, þegar þið komið út, þá fær þú, Kári litli, einhverja aðra gjöf, sem þér verður til eins mikils gagns og eins mikillar ánægju og loftskip."

"Lofaðu mér að taka í höndina á þér," sagði Kári.

"Og eg þakka þér hjartanlega fyrir mig," sagði Lóa.

Og systkinin tóku í höndina á Karli litla.

"Mig langar til að vita, hvað þú heitir," sagði Lóa.

"Eg heiti Karl. Eg er íslenzkur eins og þið. Eg á heima í Manitoba í Canada. Eg ætla að vera

þar alla mína æfi, en samt vil eg alt af vera Íslendingur."

"Okkur þykir vænt um, að þú ert íslenzkur," sagði Lóa. "Og við skulum aldrei gleyma þér."

"Eg skal aldrei gleyma ykkur," sagði Karl litli. "Eg skal aldrei gleyma Íslandi; og eg skal aldrei gleyma íslenzkunni. — Verið þið nú blessuð og sæl! Og gleðileg jól!"

"Vertu blessaður og sæll!" sögðu systkinin. "Við biðjum hjartanlega að heilsa öllum íslenzkum börnum í Ameríku. Þúsund þakkir fyrir að koma til okkar! Og gleðileg jól!"

Og svo fóru börnin ofan kaðalstigann og gengu inn í torfbæinn.

En loftskipið hóf sig hátt upp í himingeiminn og helti jólageislaflóði yfir Reykjavík og alt Ísland. Og Vestmanneyjar, Grímsey og aðrar eyjar kringum landið, fengu fyllilega sinn skerf af þeim góðu geislum. — — —

———o———

# Æfintýr

Eftir FEDOR SOLOGUB

## *VEGURINN OG LJÓSIÐ.*

Einu sinni voru nokkrir menn á ferð, eftir löngum héraðsvegi, með hesta og vagna. En silfurbjarmi stjarnanna var eina ljósið, er vísaði þeim veg. —

Nóttin var löng, en ferðamennirnir voru vanir myrkrinu og gátu því ávalt greint ójöfnurnar og hlykkina á veginum.

Einum þeirra fanst vegurinn aldrei ætla að taka enda og mælti hann því til félaga sinna:

"Ættum vér ekki að kveykja á luktunum, til þess að sjá betur vegarskil? Klárarnir verða viljugri og þar af leiðandi náum vér áfangastaðnum fyr."

Hinir trúðu honum allir, kveyktu samstundis á luktunum, brutu jafnvel stórar greinar af trjánum og notuðu að blysum. Sumir kveyktu í grasinu við veginn, til þess að auka birtuna sem allra mest.

En nú hreyfðust klárarnir með engu móti úr sporunum.

"Það stendur alveg á sama," sögðu ferðamennirnir, "oss hlýtur að sækjast ferðin greiðar áður en langt um líður."

Umhverfis þá sýndist alt standa í björtu báli, en stjörnuljósin huldi skuggi.

Nú komust ferðamennirnir alt í einu að þeirri niðurstöðu, að um var að ræða fleiri en einn veg. Allstaðar komu krossgötur og hliðarbrautir. En hver ferðamaðurinn um sig benti á hina eða þessa brautina og stóð á því fastara en fótunum, að einmitt hún væri bæði beinust og skemst.

Að lokum lenti þeim í hár saman út úr því, hvern veginn ætti að velja og skildu fjúkandi reiðir. —

Næsta morgun voru þeir enn allir á ferð, sinn á hverri brautinni — allir miklu lengra frá áfangastaðnum, en nokkru sinni fyr.

*Einar P. Jónsson.*

# Líf í landi.

Eftir *Hjálmar Gíslason.*

---

EIMLESTIN brunaði áfram eftir gljáandi stálteinunum, ýmist gegn um akur og engi, fram hjá þorpum og bændabýlum, eða yfir auða, óbygða grassléttuna, eða gegn um græna skóga.

Jón Jónsson sat við gluggann í einum farþega vagninum og virti fyrir sér landið. Nú var hann kominn til Vesturheims. Þetta var Manitoba-sléttan, framtíðarlandið, loforða-landið, faðmvíða, frjósama landið, hlaðið farsæld og velgengni, sem breiddi sólvermdan faðminn móti hverjum komandi gesti.

Leiðin sóttist óðum, nú var komið á síðasta áfangann. Jón var hugsandi, en þó léttur í skapi. Honum fanst hann nú vera laus við flest það, sem þyngt hafði á huga hans hin síðustu ár. Saga hans var lítið frábrugðin sögu nafna hans, sem þessa sömu leið hafði farið árið áður.

Hann hafði byrjað búskapinn ungur heima á ættjörðinni með dálítil efni, sem hann hugsaði sér að auka við og jafnvel margfalda á fáum árum. Hann hafði varið mestum hluta eigna sinna til að kaupa báta og veiðarfæri, því hann hafði ætlað að leita gæfu sinnar í auðugu gullnámunni, sem lá alt í kring um landið og sem svo mikið hafði verið talað um. En hepnin var ekki með honum. Hvert aflatregðu árið rak annað, svo útvegurinn bar sig ekki. Veiðin brást nú á grunnmiðunum, þar sem áður hafði verið gnægð fiskjar. Og bátarnir hans voru of smáir til þess að sækja þangað, sem björg var að fá. Jón var orðinn öreigi eftir fá ár. Hann varð að selja útgerðina, andvirðið hrökk tæplega fyrir skuldunum. Jón stóð uppi eignalaus, með konu og fjögur börn á ómaga-aldri.

Hann reyndi nú að hafa ofan af fyrir sér með daglaunavinnu; honum fanst hann nota hvert tækifæri, sem gafst, en samt var afkoman ekki betri en það, að á hverjum vetri hlaut hann að leita til kaupmannsins um lán fyrir lífsnauðsynjar, og var þá oft búinn að taka út á mestan part sumarkaupsins, þegar atvinna byrjaði á vorin. Þegar hann leitaði á náðir kaupmannsins, fékk hann stundum ónot og áminningar um að halda sig nú betur að vinnunni. Þetta sveið Jóni meira en alt annað. Hann hefði tekið fegins hendi hvaða vinnu, sem í boði væri; en vinnu var hvergi að fá. Þegar hann svo kom heim og sá börnin sín klæðlítil og hálf-svöng, konuna magra og þreytulega, heimilið með fingraförum skorts og fátæktar hvar sem á var litið, lá honum við örvinglun. Jafnvel datt honum í hug, að fyrirfara sér, en þeirri hugsun reyndi hann ávalt

að hrinda frá sér. Ofan á þetta bættist svo kvíðinn fyrir framtíðinni, ef til vill hlyti hann nú bráðlega að leita til hreppsins; láta frá sér börnin, sitt í hvern stað, til vandalausra, þar sem þau mættu misjafnri meðferð og slæmu uppeldi. Þá mundi hann verða að horfa á konuna sína gráta saknaðartárum á kveldin og vakna áhyggjufulla og sorgbitna að morgni.

Svona voru kringumstæður Jóns, þegar honum fyrst kom til hugar að flytja sig vestur um haf. En hvernig átti hann að komast? Hann átti ekkert til að borga fargjaldið sitt með. Bróðir hans hafði farið vestur fyrir mörgum árum, og Jón hafði heyrt, að hann væri nú í góðum efnum. Eftir að hann hafði velt þessu fyrir sér í margar vikur, skrifaði hann bróður sínum, sagði honum kringumstæður sínar og bað hann um hjálp til að komast vestur, ef hann héldi að þar væri betra að komast af.

Bróðir Jóns hafði brugðist vel við. Skrifaði honum hlýlegt bréf og sendi fargjöldin. Sagði, að hann þyrfti engu að kvíða hér vestra, ef hann hefði heilsu og vilja til að vinna. Bújörð gæti hann fengið hér endurgjaldslaust, og atvinna væri nóg í bæjunum og kaupgjald gott.

Það birti yfir huga Jóns, þegar hann las bréfið. Sjálfstæðisþráin og trúin á framtíðina, sem legið höfðu í dvala, vöknuðu nú aftur til lífsins. Kjarkurinn rétti sig úr örbirgðarkengnum og vonin hafði nóg að starfa að byggja ofan á nýjum undirstöðum. Heima á ættjörðinni var mikið talað um vesturflutninga um þessar mundir, og blöðin létu ávíturnar óspart skella á þeim, sem þá voru að kveðja landið. Bríxl um skort á ættjarðarást, um ónytjungsskap og leti var síðasta kveðjan frá þeim.

Jón fékst ekki um það. Inni í huga sínum átti hann nóg svör, en hann hreyfði þeim ekki. Hann hugsaði sér að sýna það, þegar tækifæri gæfist, að sér væri nú gert rangt til af þeim, sem hrópuðu á eftir honum. Landið sjálft lagði enga fæð á hann. Aldrei hafði það verið fegurra, en nú, þetta síðasta vor sem hann dvaldi heima; aldrei höfðu löngu, björtu næturnar vafið hann að sér með meiri innileik, aldrei hafði vorblærinn fært honum meiri lífsþrá og styrk, og aldrei hafði svipur fjallanna verið tignarlegri, en þegar hann horfði á þau í síðasta sinni kveldið sem hann lét frá landi.

Síðasti áfangi ferðarinnar var nú á enda. Lestin smá-hægði á sér. Hún var nú á leið inn í borgina Winnipeg. Þangað, sem förinni hafði verið heitið. Loks stöðvaðist hún alveg. Innflytjendurnir voru nú reknir síðasta spölinn, af lestinni inn í "Emigranta húsið". Þetta var um hádegisbil og um þann tíma árs, þegar mest var að gera. Alt var á ferð og flugi. Sporvagnar, hestavagnar og sjálfhreyfivagnar þutu fram og aftur um strætin. Skröltið og háreystin barst upp í gluggann, þar sem Jón sat og virti fyrir sér borgarlífið. Jón hugsaði með

sér: Hér er líf í landi; líf og vinna.

Alt í einu blésu lúðrarnir í verksmiðjum borgarinnar og tilkyntu, að nú væri miðdegisverðar tími. Þeir, sem voru við vinnu á strætunum, lögðu frá sér verkfærin; fólkið streymdi út úr stórbyggingunum, og allir flýttu sér sem mest þeir máttu. Aftur sagði Jón við sjálfan sig: "Hér er líf í landi; líf og vinna."

Jón hafði hugsað sér að setjast að í borginni um tíma, vinna af sér fargjaldsskuldina og reyna að draga eitthvað saman til að byrja með búskapinn úti á landi. Vonir hans um vinnu rættust bráðlega. Hann komst inn í eina verksmiðjuna, inn að einni vélinni. Hann var ástundunarsamur við vinnuna og trúr í öllu, sem hann átti að gera, og vann sér hylli yfirmanna sinna. Hann borgaði bróður sínum fargjaldið; kom sér upp laglegu heimili og lifði, sem sagt er, góðu lífi; en aldrei hafði hann neitt í afgangi og aldrei hafði hann ráð á að taka sér hvíld frá vinnu.

Hann lærði að stýra einni vélinni, hún vann einn hluta verksins, og Jón vann sinn. Jón stóð við vélina dag eftir dag árið um kring.

Hann var ekki ánægður með hag sinn; sjálfstæðisþrá hans var að nokkru leyti fullnægt. Hann var engum háður, þurfti ekkert til annara að sækja, bar engan kvíðboga fyrir framtíðinni. Meðan kraftarnir entust til að vinna, mundi hann hafa nóg og geta veitt börnum sínum sæmilegt uppeldi. En hann var heldur ekki ánægður. Innan um allan skarkala borgarinnar var lífið eitthvað tómlegt og tilbreytingalaust. Börnin hans uxu upp og lifðu sig inn í hérlendan hugsunarhátt, sóttu nautnir og skemtanir út frá heimilinu. Það færðist einhver sljóleiki yfir sálarlíf Jóns. Áður hafði hann ætíð haft eitthvert umhugsunarefni, hafði lesið alt, sem hann komst yfir, og haft ríkt ímyndunarafl. En nú var hann hættur að lesa og hugsaði lítið. Líf hans var lítið annað en svefn og vinna. Vinnan hafði honum ekki fundist erfið í fyrstu, en nú var hún farin að lýja hann. Þegar kom fram yfir miðja vikuna, fór hann að finna til verkja í fótunum, og í vikulokin var hann orðinn máttvana. Svo hvíldi hann sig yfir sunnudaginn og safnaði kröftum fyrir næstu viku.

Samverkamenn hans á verksmiðjunni voru flestir annara þjóða menn, og samrýmdist Jón þeim lítið. Þeir töluðu sjaldan um annað en "daginn og veginn." Yngri mennirnir um það, sem fram fór á leikhúsunum eða um kappleiki og þess háttar. Eldri mennirnir töluðu um hvernig auðveldast væri að vinna sér inn peninga, og hvernig bezt væri að komast áfram efnalega. Svona leið ár eftir ár.

Þegar fór að hlýna í veðrinu á vorin, eftir vetrarharðindin og kuldann, kom vanalega einhver óþreyja í Jón. Honum fanst þá sig langa heim. Vorblærinn og vorsólargeislarnir komu með nýja lífsstrauma í verksmiðjuna til

Jóns. Þá brauzt eitthvað um í huga hans, sem hann skildi ekki til fulls. Íslenzkar vornætur, íslenzk víðsýni, íslenzkir æskudraumar gægðust fram úr fylgsnum hugans. Fossniður og fuglasöngur bárust honum til eyrna innan úr hans eigin sál. En vélaskröltið, erfiðið og þreytan þurkuðu þetta fljótt úr huga hans, og sama hugsanaleysis kyrðin færðist yfir hann aftur.

Mörg ár höfðu liðið svona, frá því Jón fluttist vestur. Hann hafði nýlega haft vistaskifti. Verksmiðjan, sem hann vann nú á, lá í útjaðri borgarinnar og var skógarbelti á aðra hönd, en hinumegin sá út yfir borgina. Jón sat úti í glugga á þeirri hlið byggingarinnar, sem að skóginum vissi. Hann hafði matarskrínu sína fyrir framan sig og snæddi miðdegisverð. Vélarnar snerust og skröltu eftir vanda. Alt í einu stöðvuðust þær allar í einu, eins og gripið hefði verið um þær með ósýnilegri hendi. En það var þó ekki, lífæð þeirra, rafmagnsþráðurinn, hafði slitnað, og nú stóðu þær hreyfingarlausar og gláptu á mann eins og steinrunnin tröll. Jón hélt áfram að matast. En alt í einu stanzaði hann, eins og hann hefði líka steinrunnið. Hann sat nokkur augnablik án þess að hreyfa legg eða lið. Svo lagði hann frá sér nestið, starði út í skóginn og hlustaði. Honum bárust nú til eyrna raddir úr skóginum, raddir, sem vélaskröltið hafði áður borið ofur liði. Það voru raddir vorsins; fuglasöngur og og þytur vorblæsins í trjágreinunum. Jón tók hatt sinn og gekk út. Hann gekk fram hjá húsinu, þar sem gufukatlar verksmiðjanna voru í. Þar sátu samverkamenn hans á kolabyngnum og reyktu pípur sínar og vindlinga. Annars staðar máttu þeir ekki reykja. Þeir töluðu um kappreið mikla, sem fram hafði farið daginn áður einhversstaðar suður í Bandaríkjum. Blöðin höfðu skýrt frá því með feitu letri og fögrum orðum, að canadisk hryssa, brúnskjótt að lit, hefði unnið þar frægan sigur.

Þessi dagur, sem nú var að líða, var einnig mikill merkisdagur — kapphlaup átti fram að fara í New York. Voru það drengir tveir, sem ætluðu að reyna sig, var annar frá Canada og sæmd og heiður landsins var nú komin undir fótfimi hans og þolgæði. Og allur hinn mentaði heimur stóð á öndinni yfir úrslitunum. Jón hélt áfram og stefndi til skógarins. — "Sjáum gamla John, hann ætlar að fara að tína blóm", sagði einn af kunningjum hans. "Ætli hann sé ekki í ástum við kóngsdótturina í skóginum?" sagði annar og hló. Þessi ummæli lutu að því, að í skóginum var Indíána-tjald, og bjuggu í því gömul hjón með dóttur sína. Þau lifðu af betli og svo því, sem þau tíndu saman af matarleifum þeim, sem fleygt var út úr gistihúsum þar í kring. Hafði Jón oft séð þau fara fram hjá verksmiðjunni með poka sína, áleiðis til tjaldsins. Þegar Jón kom móts við tjaldið, kom kerling á móti honum og hélt á blaði í hendinni. Á það var letruð ölmusubón. Jón rétti henni silfurpening,

sem hún þakkaði fyrir. Inni í tjaldinu sátu karlinn og dóttir hans, en þegar þau sáu peninginn stauluðust þau á fætur og komu til Jóns og réttu honum lófann. Karlinn var í gömlum kjólfrakka, sem einhver hafði gefið honum, og stóðu berir olnbogarnir út úr báðum ermunum. Á höfði hafði hann rifinn stráhatt. Dóttir hans hafði yfir sér sjaldruslu rifna og skitna, hún var há og þreklega vaxin, stórleit með tinnusvört augu, en hvítan í augunum var blóðstokkin, augnalokin þrútin, andlitið var alsett bólum og smákýlum, varirnar bólgnar og sár á þeim. Það fór hryllingur um Jón, þegar hann leit framan í hana. Hann gaf þeim sinn skildinginn hverju og hraðaði sér í burtu. Þetta voru nú menningar-mörkin á hinni hraustu og frjálsu veiðiþjóð, sem hann hafði lesið svo margar sögur um.

Jón lagðist niður í rjóður í skóginum. Vorblærinn strauk honum um vanga, fuglarnir sungu í trjágreinunum í kring, gróðrarilminn lagði fyrir vit hans og nýir lífsstraumar runnu eftir hverri taug. Þarna sat hann sem í leiðslu og starði út í geiminn bláheiðan og ómælandi. Hugljúfar æskuminningar streymdu fram í huga hans og hvísluðu um leið og þær liðu fram hjá: "Hér er líf." — Hann hrökk upp af þessum dvala, þegar blásið var í eimlúður verksmiðjunnar, og nú fanst honum hann vera kallaður frá lífinu til dauðans. Hann reis hægt á fætur og gekk áleiðis til verksmiðjunnar. Á miðri leið stóð hann við sem snöggvast og litaðist um. Öðru megin blasti við grassléttan, víð eins og útsærinn, með fangið hlaðið frjósemi og farsæld, fuglasöng og angandi gróðri. En hinu megin var borgin, menning hinna stóru landa. Menningin með sofandi sál, en vinnandi vöðva. Menningin, sem kæfir raddir náttúrunnar með vinnuvéla skrölti. Menningin, sem bægir sólargeislunum og vorblænum frá mannlífinu. Menningin, sem stingur augun úr fegurðartilfinningunni og svíður ræturnar undan manndóminum.

Jón leit löngunaraugum út á sléttuna fögru, þar sem frelsið og lífið réði ríkjum. Lífsþráin brauzt um í brjósti hans eins og lamaður fugl, sem horfir á eftir félögum sínum þar sem þeir svífa burt á heilum vængjum, af því þeir voru svo hepnir að komast hjá sendingu skotmannsins. En lífsþráin dró að sér heila vænginn; viðurkendi vanmátt sinn; sætti sig við kjör sín; skreið í fylgsni sitt og beið dauðans með ró.

Þegar Jón kom inn í verksmiðjuna, varð honum ógreitt um vinnutökin í fyrstu. Það var eins og hann sæi ekki handaskil, þó hábjartur dagur væri; hann þurfti hvað eftir annað að bregða hendi upp að augum sér. Vélarnar komust aftur í hreyfingu og unnu sinn hluta verksins, og Jón vann sinn. Bæði mólu gull í vasa menningarinnar. Dagarnir liðu, árin liðu, Jón hélt áfram að vinna. Vinna fyrir sjálfstæðinu, fyrir lífinu.

# Þjóðræknissamtök meðal Íslendinga í Vesturheimi.

Eftir séra *Rögnvald Pétursson.*



LANGT mál yrði það, ef rækilega ætti að skýra frá öllum þeim samtökum og félagsstofnunum, er Íslendingar vestan hafsins hafa komið á fót, þjóðerni sínu til viðhalds, á þessum aldar helmingi, sem liðinn er síðan hinir fyrstu komu hingað til álfunnar, til þess að setjast hér að. Samtökin, er hafin hafa verið í þeim tilgangi, félögin, er stofnuð hafa verið, eru orðin mörg. Svo mikill er félaga- og fyrirtækjafjöldinn, að þó ótrúlegt megi virðast, verður hann tæpast talinn. Ef í ýmsum atriðum að skort hefir hugsun og ákveðinn tilgang með stofnun allra þessara fyrirtækja, þá er hitt þó eins skýrt, að hvorki hefir skort vilja eða löngun til þess að varðveita það, sem þjóðin hingað flutta átti dýrmætast og bezt í eigu sinni, og lýsir það með hvaða hugarfari fólk flutti hingað og hvernig hugurinn lá til ættjarðarinnar og þjóðarinnar heima. Það hafði ekki þjóðernislega klæðaskifti um leið og leystar voru landfestar né gekk úr ætt eins og sauður gengur úr reifi.

Að menn urðu eigi ávalt ásáttir og sammála um fyrirkomulag, að nöfnin voru mörg, er gefin voru þessum félögs-samtökum og að kepst var við með lagasamningi að tína alt til, er einhverjum kom til hugar að félagið myndi geta gjört, getur fyrir komið, þótt eigi sé um afar mikil kappsmál að ræða. En markmiðið var eitt og hið sama, og eins og skáldið Einar Hjörleifsson komst að orði í þá daga: "Að verða menn með mönnum hér, þars mæld oss leiðin er."

Það væri fróðlegt, einkum fyrir seinni tímann, ef samið væri greinilegt yfirlit yfir félagssamtök þessi fram að þessum tíma, og myndi fátt lýsa betur því þroskastigi, er þjóðin stóð á um það leyti, sem útflutningar hófust frá Íslandi, eðli hennar og hugsunarhætti, og svo hvaða breytingum hún hefir tekið síðan. En engin tök eru á því, að rita svo ítarlega um það mál í þetta sinn. Bæði er það, að eigi eru öll þau skilríki fyrir höndum, er til þess þurfa og svo hitt, að allur söfnunar- og undirbúningsfrestur er liðinn. Hafði Félagsstjórnin samið við mann um að gjöra þetta verk, er gagnkunnugur er félagslífi Íslendinga hér frá fyrstu byrjun, en sérstakra orsaka vegna varð hann að gefa það frá sér á síðustu stundu. Hér verður því eigi um annað að ræða, en mjög stutt og ófullkomið söguágrip, af því helzta, er gjört hefir verið.

Þegar fara á að telja saman hvaða verk það eru helzt, sem að-

allega má segja að tilheyri þjóðræknis-samtökum Íslendinga, þá verða þau mörg. Fyrst og fremst ber að telja öll þau verk, er á einhvern hátt stuðla að viðhaldi þjóðarinnar og varðveita hjá henni þau einkenni í tungu og trú, háttum og siðum, sem henni eru eiginleg. Þá verður og að telja þau samtök, er eiga að miða að því, að hefja hana til frægðar og frama á einn eður annan hátt og skapa virðingu fyrir henni bæði út á við og inn á við. Enn fremur ber að telja þau samtökin líka, er stofnuð eru til þess að auka krafta hennar, bæði á andlega og efnislega vísu, svo henni verði auðveldari baráttan fyrir tilverunni og hún fái haldið hlut sínum, við hvað sem er að etja. Undir fyrsta liðinn heyrir alt það, sem unnið hefir verið til viðhalds og útbreiðslu ísl. tungu, með útgáfu og samningi rita, bóka og blaða, enn fremur allur andlegur félagsskapur, er að einhverju leyti er grundvallaður á þeim hugsjónum, er náð höfðu að festa rætur í huga þjóðarinnar; allur sá félagsskapur, er stutt hefir að lestri íslenzkra bóka og rita, og má tilnefna í því sambandi lestrarfélögin mörgu; öll samtök, stór og smá, með að veita börnum og unglingum tilsögn í að lesa og skilja móðurmál sitt; allan þann félagsskap, er haft hefir það að markmiði, að sameina alla í eitt allsherjar félag, er byggir á þjóðlegum grundvelli, — og svo ótalmargt fleira. Undir annan lið heyrir alt það, er Íslendingum hér hefir auðnast að gjöra sér til sæmdar og virðingar, hverjum fyrir sig eða sameiginlega; sú virðingarstaða, sem þeim hefir hlotnast í þjóðlífinu hérlenda, mentun, tiltrú, opinber umboð og alt, er hafið hefir þá til sannra metorða. Undir þriðja og síðasta lið heyrir það, sem þeir hafa gjört til þess að tryggja framtíð sína hér í landi, á efnalega og andlega vísu; grundvöllurinn, sem þeir hafa lagt undir framhaldandi mentun og framför niðja sinna, og er því eigi að neita, að þar er um minst og fátæklegast starf að ræða. Þar verður ekki bent á neitt verulegt verk, er unnið hefir verið. Að vísu er efnahagur margra sæmilegur, en engir eru stórefnamenn. Stór fyrirtæki hafa engir með höndum, og menningarstofnanir, er geymt geti og ávaxtað þjóðararfinn eru engar að nefna. Er það verk enn óunnið, en ber eigi ógjört að láta. Við ríkis- og fylkis-háskóla landsins, á þeim svæðum, þar sem Íslendingar búa, hefði fyrir löngu átt að vera stofnuð kennaraembætti, vel skipuð, í norrænum og íslenzkum fræðum, sögu og bókmentum, og hefði það átt að vera innanhandar, ef um það hefði verið skeytt. Þetta myndi, fremur flestu öðru, tryggja framtíð íslenzkrar tungu í Vesturheimi og þar með halda óslitnu sambandi við ættjörðina um ótalin ár. — En þetta er hlutverk næstkomandi ára og verður sjálfsagt vel og rækilega af hendi leyst.

Sem vikið hefir verið að, hefjast þjóðræknissamtök meðal Íslendinga strax og hingað kemur, þótt sumt af þeim félagsskap, er myndaðist snemma á árum, ætti eigi langan aldur. En þótt öllum

þessum félagssamtökum væri eigi skapaður langur aldur, og bar margt til þess, en einkum flutningur manna af einum stað á annan, þá bar hann þó allmikla þýðingu fyrir seinni tíma og hefir óefað hjálpað mikið til þess, að tungan hefir haldist við. Sá félagsskapurinn, sem orðið hefir varanlegastur, er hinn kirkjulegi félagsskapur, og getur engum blandast hugur um það, að hann hefir verið öflugasta stoðin fyrir þjóðerni vort hér. Hans verður því að nokkru hér að geta, en fljótt verður yfir sögu farið og að eins drepið á helztu atriði í sambandi við stofnun hans og eigi annað. Saga safnaðanna ætti að vera rituð, hvers um sig, getið tildraganna að safnaða myndunninni, með því fengist heimildir fyrir sameiginlegri kirkjusögu Íslendinga vestan hafs. Til þess að geta skýrt frá félagssamtökum sem greinilegast, verður að geta allra helztu bygða, en í því efni þykir réttast að fylgja aldursröð.

### Fyrstu stöðvar Íslendinga vestan hafs.

Innflutningur Íslendinga til Norður Ameríku er alment talinn að hafa byrjað með árinu 1870. [1]) Þó voru nokkrir Íslendingar komnir hingað áður, er tekið höfðu Mormónatrú og fluttust til Utah í Bandaríkjunum árið 1855. [2]). Árið 1863 [3]) taka fjórir menn sig upp og flytja til Brazilíu úr Þingeyjarsýslu, og tíu árum seinna fara þangað, úr sömu sýslu, um 35 manns. Eigi er þess getið, að þangað flytji neinir eftir það.

En fyrir alvöru byrjar útflutningurinn til Norður Ameríku með árinu 1870. Eru það fjórir ungir menn af Eyrarbakka, er fyrstir ríða á vaðið. Lögðu þeir af stað að heiman 12. maí og komu til Milwaukee í Bandaríkjunum hinn 27. júní. Fyrir þessum mönnum var Jón Gíslason, prests Ísleifssonar etazráðs á Brekku Einarssonar.[4]) Árið 1871 flytja enn nokkrir og aðallega af Suðurlandi; er þar talinn Jóhann nokkur [5]), bóndi sunnlenzkur. Ritar hann um það ferðalag bréf frá Washington, er birtist í "Norðanfara" á Akureyri, 11. árg., 1872. Þetta sama ár, 1872,[6]) fer hátt á þriðja hundrað manns vestur, og meðal þeirra, er ber að nefna, eru: Sigtryggur Jónasson frá Möðruvöllum í Hörgárdal, er telja má aðal forgöngumann að stofnan Nýja Íslands; séra Páll Þorláksson frá Stóru-Tjörnum í Þingeyjarsýslu, er var aðal hvatamaður að stofnun Dakota-nýlendunnar, og séra Hans B. Thorgrímsen af Eyrarbakka, er upphaf átti að því, að stofnað var Hið ev. lút. kirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi.

Árið 1873 fóru frá Akureyri, að kveldi hins 4. ágústmánaðar, 153 manns. Fleiri höfðu "skrifað sig" til vesturferðar, en eigi var rúm fyrir fleiri á skipinu og urðu

1) Einar Ásm. Hkr. III. ár. Nr. 21, 23. maí 1889.

2) E. H. Johnson. Saga Ísl. í Utah. Alm. 1915.

3) J. Jónsson frá Mýri. Enn um Brazilíuferðir. Alm. 1917.

4) Árni Guðm.: Landnám Ísl. á Washington-ey. Alm. 1900.

5) Einar Ásm.: Hkr. III. ár. Nr. 21.

6) Einar Ásm.: Hkr III. ár. Nr. 21.

því nær 30 manns að setjast aftur, en fóru þó seinna um haustið. Áður en farið var af stað, því löng bið varð eftir skipinu, höfðu menn nokkra fundi með sér, til þess að ræða um, til hvaða staðar skyldi fara. Öllum kom saman um, að æskilegast væri að halda hópinn og tvístrast sem minst, er vestur kæmi, og reyna að mynda íslenzka nýlendu. Nokkrir höfðu þá skrifað sig til Milwaukee, og vildu eigi þeirri ákvörðun breyta; aðrir vildu fara til Nýja Skotlands og enn nokkrir sem lengst inn í óbygðir Vestur-Kanada.[1]) Loks varð niðurstaðan sú, að farið skyldi til Ontario í Canada. Þrír menn voru kosnir til þess að vera leiðtogar hópsins: Ólafur Ólafsson frá Espihóli í Eyjafirði, Friðjón Friðriksson frá Harðbak í Þingeyjarsýslu, og Baldvin Helgason frá Gröf á Vatnsnesi. Í hópi þessum var margt manna, er síðar kemur við sögu Íslendinga vestan hafs: Kristinn skáld Stefánsson læknis frá Egilsá Tómassonar, Stephan G. Stephansson skáld og foreldrar hans, Guðm. Stefánsson og Guðbjörg Hannesdóttir frá Víðimýrarseli í Skagafirði; Baldvin L. Baldvinsson af Akureyri (nú aðstoðar fylkisritari Manitoba), Niels Steingrímur Þorláksson (prestur í Selkirk), Sigurður J. Jóhannesson skáld frá Manaskál í Húnavatnssýslu, Árni Friðriksson frá Harðbak í Þingeyjarsýslu, Jón Jónsson Bardal frá Mjóadal í Bárðardal, Jón Þórðarson frá Skeri við Eyjafjörð, Eiríkur Hjálmarsson Bergmann frá Laugalandi í Eyjafirði, Ásgeir V. Baldvinsson frá Gröf á Vatnsnesi og fleiri. Fóru nú nokkrir til Milwaukee, sem ákveðið var, en megin-hópurinn til Ontario, til Rosseau bæjar við Muskoka. Myndaðist þar dálítil íslenzk bygð upp með Rosseau-ánni, er enn helzt við. Var þar sett pósthús og nefnt "Hekkla". Nokkrir munu þó hafa farið skjótlega frá Rosseau til Milwaukee, því þeirra getur þar eigi löngu seinna. Til Milwaukee kom og það sama sumar Torfi Bjarnason, síðar skólastjóri í Ólafsdal.

1) Ásg. V. Baldvinsson: Landnám Ísl. í Muskoka. Alm. 1900.

### Fyrsta þjóðhátíð Íslendinga í Vesturheimi.

Í Milwaukee var nú þegar orðin nokkur bygð Íslendinga. Auk þeirra, sem þegar eru taldir, fluttust enn vestur sumarið 1873: Jón ritstj. Ólafsson, er flýja varð af Íslandi út úr málaþrefi við hin dansk-sinnuðu yfirvöld í Reykjavík, og séra Jón Bjarnason, er til prestsþjónustu réðst meðal Norðmanna í Wisconsin. Varð nú Milwaukee einskonar höfuðból Íslendinga hér í þessari álfu. Árið 1874 voru liðin 1,000 ár frá upphafi Íslandsbygðar. Var þessa atburðar rækilega minst heima á ættjörðinni, heimsótti Kristján konungur ix. þjóðina og var staddur við messu í dómkirkjunni 2. ág., og á Þingvöllum þ. 5. Tóku nú Íslendingar í Milwaukee sig saman um að minnast þessa atburðar í sögu þjóðarinnar með hátíðarhaldi hjá sér. Er það fyrsta þjóðminningarhátíð íslenzk, er haldin hefir

verið í þessari heimsálfu. Hófst hátíðin 2. ágúst með skrúðgöngu út í einn skemtigarð borgarinnar. Fór gangan fram eftir helztu götum borgarinnar og bjóst kvenfólk alt sínum ísl. búningi. Í garðinum fluttu ræður þeir séra Jón Bjarnason, Jón ritstj. Ólafsson og Ólafur frá Espihóli Ólafsson. Gengu ræðurnar út á það, að brýna fyrir mönnum framtak og samheldni og að varðveita þjóðerni sitt hér í framandi landi. Hafði samkoma þessi hin hollustu áhrif á hugsunarhátt manna.

Um þetta leyti mun hafa verið stofnaður félagsskapur meðal leiðandi Íslendinga þar í bænum, er nefndur var Íslendingafélag. [1]) Var tilgangur þess að viðhalda andlegu lífi meðal manna þar í bænum, með samkomuhaldi o.s.frv. annast um hag þeirra, er þangað voru komnir, afla upplýsinga um þetta nýja land, útsjá hentugt nýlendusvæði fyrir þá, sem þangað voru fluttir og síðar var von, svo að fólk dreifðist ekki óþarflega mikið, en fengi haldið við tungu sinni og þjóðerni þar sem það kynni að bera niður. Verkefnið var mikið og þarft. Vakti fyrir sumum, að finna *einn nýlendustað fyrir alla íslenzka vesturfara.* [2]) Þóttust menn sjá, að Wisconsinríki væri í engan stað til þess hæft. Vorið 1874 voru haldnir fundir og þar afráðið að skoða sig um, og menn kosnir til þeirra landskoðunarferða. Voru þannig gerðir út menn, til Nebraska-ríkis, Sigfús Magnússon prests frá Grenjaðarstað og Jón Halldórsson eldri úr Bárðardal. [3]) Að þangað var snúið leitinni, var aðallega því að kenna, að Torfi Bjarnason hafði farið þangað sumarið áður og fest sér þar land. Eigi varð þó af því, að þarna yrði tekin upp nýlenda, þó fluttu þangað nokkrir Íslendingar, þá og síðar, og búa nokkrir þeirra þar enn.

Meðan á þessu stóð, var hafin önnur landskoðunarferð, mest fyrir fortölur Jóns Ólafssonar, og kosnir menn til þeirrar farar. Var ferðinni heitið til Alaska og í leiðangur þenna valdir Ólafur Ólafsson frá Espihóli og Jón Ólafsson. Völdu þeir með sér Pál Björnsson alþingism. Péturssonar prests Jónssonar. Gaf Jón Ólafsson út bækling um þessa ferð (Alaska. Lýsing á landi og landkostum o. s. frv. Um stofnun íslenzkrar nýlendu o.s.frv. Washington, D.C., 1875), er mun vera með fyrstu íslenzkum ritum, prentuðum í Ameríku, ef eigi hið fyrsta. En leitað virtist langt yfir skamt með Alaskaferð þessari, og eigi var meira um það nýlendusvæði hugsað, eftir að landskoðunarmenn komu til baka.

## Sjálfstæðis - yfirlýsing Íslendinga 1874.

Haustið 1874 kom gufuskipið "Patrekur helgi" með 365 Íslendinga beina leið til Quebec. [4]) Það var 23. sept. Voru í þessum hópi margir hinir efnilegustu menn, er mjög koma við sögu Íslendinga

1) Sbr. Alm. 1900, bls. 65.

2) Jón Ólafsson: Alaska. Wash. 1875, bls. 46.

3) Jón Halldórsson: Alm. 1914. Tildrög til ísl. nýlendustofnunar í Nebraska.

4) Sig. J. Jóhannesson: Þáttur Íslendinga í Nýja Skotlandi. Alm. 1900.

síðar. Meðal þeirra má nefna Brynjólf Brynjólfsson frá Skeggstöðum í Svartárdal í Húnaþingi og sonu hans og dætur; Jóhann Elíasson Straumfjörð frá Straumfjarðartungu í Mýrasýslu; Arngrím og Kristján, syni Jóns Björnssonar frá Héðinshöfða í Þingeyjarsýslu, og fleiri. Á skipi þessu var fundur haldinn,[2]) er telja má með þeim merkilegustu atburðum í sögu vesturfara, en sem jafnframt sýnir hvernig og hvað manna þeir voru þessir íslenzku vesturfarar, er nú voru í þann veginn að stíga á land í Ameríku. Er komið var inn úr St. Lawrence flóanum, mætti hafnsögumaður skipinu og með honum var umboðsmaður Canadastjórnar, Jóhannes Arngrímsson (prests Bjarnasonar frá Bægisá í Eyjafirði), er hingað hafði fluzt árið 1872. Hafði hann nú tal af vesturförum og vildi fá þá til að lofa því, að setjast að í Canada. En fjöldi manna hafði ætlað sér, er að heiman fór að fara suður til Bandaríkjanna og nema sér byggðir þar er álitlegast kynni að þykja. Vildu nú þeir, er helzt voru fyrir hópi þessum, eigi heita neinu í þessu efni utan ábyggileg og skýlaus loforð stjórnarinnar kæmi þar á móti. Var þá skotið á fundi og gekst Brynj. Brynjólfsson fyrir því, til að ræða þetta mál. Hafði hann og orð fyrir mönnum. Var þá saminn sáttmáli, er Íslendingar vildu gera við Canadastjórn, og hétu þeir á móti að setjast að í Canada, ef að öllum samningsatriðum væri gengið. Var þar fyrst fram tekið, að Íslendingar skyldu njóta fullkomins frelsis og borgararéttar jafnt við þarfædda menn, strax og þeir hefði fullnægt búsetuskilyrðum, er áskilin væri þar í landi. Hið annað, að þeim væri fengið hæfilega stórt og í alla staði byggilegt svæði fyrir byggðarlög sín; og hið þriðja, að þeir fengi óátalið að halda öllum sínum mannréttindum, tungu og þjóðerni, þeir og niðjar þeirra um aldur og æfi. Að þessi fyrirvari var hafður, kom til af því, að þá var það á almæli, að miklu væri ófrjálsara allt stjórnarfyrirkomulag í Canada en í Bandaríkjunum. Stjórnarumboðsmanni var svo fenginn þessi samningur og að honum gengið af stjórnarinnar hálfu. Að þetta vakti mikla athygli á Íslendingum, meðal betri manna hér í landi, má marka af því, að þegar Dufferin lávarður, er var landstjóri Canada, heimsótti Nýja Ísland haustið 1877, getur hann þessa í ræðu sinni, er hann flutti á Gimli hinn 14. sept., og enn fremur, að megi orð sín nokkurs, muni við þetta loforð verða staðið.

Var nú afráðið að setjast að í Canada. Hélt nú flokkur þessi áfram frá Quebec og vestur til Ontario-fylkis og settist að í smábænum Kinmount, um 60 mílur norður af Toronto-borg. Litlar sögur fara af veru manna þar um veturinn, þar til voraði.

**Nýlendu-árið mikla.**

Þúsundasta og fyrsta ár Íslandsbygðar, árið 1875, er hið mesta

2) Frá fundum þessum hafa skýrt oss Brynjólfur Brynjólfsson sjálfur, Arngrímur Jónsson og fleiri, er á skipinu voru, og hefir frásögn þeirra í öllu borið saman.

merkisár í sögu Íslendinga í Ameríku. Á því ári voru tekin upp fjögur bygðarlög, svo að segja öll jafn-snemma, — Markland, Minnesota-bygð, Winnipeg og Nýja Ísland.[1]) Þrjár þessara bygða haldast við enn. Það, sem vakað hafði fyrir mönnum, strax og að heiman var farið, var, að nema sér land í hinni nýju heimsálfu og setja sig niður við bú. Héldu þeir fast við þessa ákvörðun, eftir að hingað kom. En, eins og þá var ástatt, vildu þeir halda hópinn, fremur en að setjast að í dreifingu innan um aðra þjóðflokka, þótt þeir gætu með því móti fest sér land án langra hrakninga. Treystu menn því, að betur gætu þeir bjargast og komið fótum fyrir sig, ef þeir væri svo nálægt hver öðrum, að einn gæti annan stutt, en ef treysta þyrfti á liðveizlu ókunnugra manna og annara þjóða, er þeir áttu ekkert sameiginlegt með, í siðum, tungu eða háttum. Reyndist sú tilgáta rétt, og eru allar hinar eldri bygðir ólygnast vitni þess. "Fólk eru fjórir tigir, herr er hundrað," og fyrir þeim "herr" urðu allir erviðleikar undan að láta.

**Markland.**

Haustið 1874, eftir að Íslendingar voru komnir til Kinmount, kom þangað umboðsmaður stjórnarinnar, Jóhann Arngrímsson [2]) og hafði fund með mönnum og hvatti þá til að flyta til Nýja Skotlands, lét mikið af landkostum þar eystra, hét þeim sérstöku landsvæði þar svo þeir gætu stofnað þar bygðarlag. Fyrir fortölur hans ákváðu sig um 80 manns að fara þangað austur með næstkomandi ári. Flutti sumt af þessu fólki strax og voraði, en aðrir komu seinna um sumarið. Var því vísað til landnáms á hálendi einu um 30 mílur upp frá ströndinni, er "Elgshæðir" nefndust. Nefndu Íslendingar bygð þessa *Markland*. Eigi var land þetta frjótt eður byggilegt, var það alt skógi vaxið og afar hrjóstugt. Í hóp þessara landnema bættist á næstu árum allmargt fólk, er þangað flutti beinleiðis frá Íslandi. Talið er, að þar muni hafa verið um 200 manns þá flest var. Strax og bygð var komin á fastan fót, byrjuðu félagssamtök af ýmsu tagi. Fyrst var að koma á fót skóla, er nýlendumenn að eins tóku að parti þátt í. Hið næsta var, að komið var saman á helgum dögum til að hlýða lestri, og hafa þá sjálfsagt velferðarmál manna verið rædd jafnframt. Elfdi þetta samheldni og bróðurhug, er var mjög ljós meðal búenda í öllum efnum. Fyrir samtökum þessum gekst Brynjólfur Brynjólfsson frá Skeggstöðum og var hann þann tíma, er bygðin hélzt við, leiðtogi manna í öllum andlegum efnum. Flesta þá, er dóu í nýlendunni, jarðsöng hann.[1]) Eigi gat íslenzkari mann í anda, en hann var, né fróðari. Hann var frábærlega einarður í framkomu, en ávalt hinn prúðasti og vingjarnlegur, hrein-

1) Séra Fr. J. Bergmann: Saga ísl. nýl. í Wpeg. Alm. 1903 Guðbr. Erlendsson: Markland Guðl. Magnússon: Landnám Íslendinga í Nýja Ísl.. Alm. 1899, bls. 25. Alm. 1900, bls. 55.

2) Sig. J. Jóhannesson: Páttur ísl. í Nýja Skotl. Guðbr. Erl.: Markland.

1) Guðbr. Erlendsson: Markland.

skilinn og vinfastur og manna ráðhollastur og hinn mesti framfara- og mentavinur. En stór í lund gat hann verið, er því var að skifta. Til hans var jafnan mikils styrks að leita, og kusu flestir fremur að eiga hann að vin, en fjölda annara. Metnaðarmaður var hann hinn mesti fyrir virðingu og sæmd þjóðar sinnar. Honum að líkastir sona hans voru þeir Skapti (er síðar varð efrideildarþingmaður í Dakota, og talinn er að hafa verið málsnjallastur allra Íslendinga vestan hafs), og Magnús (er síðar varð ríkislögmaður innan Pembina héraðs í Dakota), en þeir voru þá báðir ungir. Brynjólfur hafði mikil og holl áhrif á þá, sem þar voru. Næstyngsta son sinn, Björn Stefán (lögmaður í Grand Forks í Dakota), sendi hann í skóla og ætlaði að láta hann læra til prests. Gekk hann um nokkur ár í mentaskóla í Greenville í Pennsylvania ríki, þó eigi yrði af, að hann tæki prestsvígslu. En Markland varð eigi langær aðseturstaður Íslendinga. Tókust bygðarlög vestar í álfunni, er alla kosti höfðu fram yfir þetta bygðarlag. Fluttu allir burtu þaðan árin 1881—2.

**Minnesota-nýlendan.**

Snemma sumars 1875 tóku sig upp hjón, er komið höfðu frá Íslandi 1873 og sezt að í Norðmannabygð í Iowa héraði í Wisconsin, Gunnlögur Pétursson frá Hákonarstöðum á Jökuldal, og Guðbjörg Jónsdóttir, og færðu sig búferlum til Lyon héraðs í Minnesota-ríki, um 500 mílur vegar, og settust þar að. Flutningur þessi var með miklum erviðismunum gjörður. Þá var land þar mjög óbygt, en hið ákjósanlegasta. Nefndi Gunnlögur bygð sína Hákonarstaði. Hið næsta ár komu fleiri Íslendingar á eftir honum, frá Wisconsin, og 1877 beina leið frá Íslandi. Var þetta byrjun til hinnar frjósömu bygðar Íslendinga í Minnesota. Skömmu eftir að Íslendingar komu til Minnesota byrjaði þangað innflutningur mikill annara þjóða manna, svo þeir náðu eigi saman hangandi bygð. Eru um 10 mílur milli bygða, en bærinn Minneota stendur þar nær miðja vega, og er þar stór hópur Íslendinga búsettur. Nefnast bygðirnar Eystri og Vestri bygð. Austur af Eystribygð er bærinn Marshall, og búa þar margir Íslendingar. Í íslenzku nýlendunni í Minnesota eru því tvær sveitabygðir og tvær bæjabygðir.

Snemma hófust þar félagssamtök í bygðinni og byrjað á fundahöldum og um það rætt, "hvernig menn fái bezt varðveitt menning og sóma sín á meðal."[1] Árið 1878 kemst þar á félagsskapur, er gengst fyrir því, "að útvega bækur og blöð til lesturs, eignast grafreit til að jarða í hina dauðu, og koma á húslestrum á helgum dögum." Upp úr samtökum þessum myndast svo tvö sérstæð félög, annað er gekst fyrir safnaðar myndunum, og hitt er tók sér meira snið eftir félagi Íslendinga í Milwaukee, að efla mentun bæði á andlega og verklega vísu, koma á fót bókasafni og auka bókalestur. Kom það upp samkomuhúsi árið 1884

1) Alm. 1900: Landn. Ísl. í Minn., bls. 55.

er var um langt skeið helzti samkomustaður nýlendunnar. Kirkjufélagskapur komst þar á 1878. Var sameiginleg nefnd skipuð úr Eystri og Vestribygð til þess að semja safnaðarlög. Tvær stefnur réðu þá í safnaðarmálum Íslendinga í Nýja Íslandi. Sú hin fyrri var að fylgja lúterskum lærdómi á sama hátt og kirkjan á Íslandi, en hin síðari að fylgja stefnu Norsku sýnódunnar hér í álfu. Stóðu þá deilur um þetta. En félagsþörfin réð brátt meira. Komu menn sér saman um safnaðarlögin. Var fyrst stofnaður söfnuður í Vestribygð, er heitir "Lincoln-County söfnuður", þá annar í Eystribygð, er heitir "Vesturheims söfnuður". Nokkru síðar myndaðist "St. Páls söfnuður" í Minneota-bæ og "Marshall söfnuður" í bænum Marshall. Allir eiga söfnuðir þessir vandaðar kirkjur, og þjónar sami prestur við þær allar. Fastaprestar í Minnesotabygð hafa verið þessir: Séra Haldór Briem (1881-2), eitt ár. Séra Níels Steingrímur Þorláksson (1887-1894). Séra Björn B. Jónsson (1894-1914). Séra Guttormur Guttormsson, frá 1919.

Árið 1897 er stofnað fyrsta tímaritið þar í nýlendunni. Er rit þetta nefnt "Kennarinn" og er mánaðarrit, "til notkunar við uppfræðslu barna í sunnudagsskólum og heimahúsum." Ritstjórar voru séra B. B. Jónsson og séra Jónas A. Sigurðsson prestur á Akra í Dakota. Alls komu út 4 árgangar í Minneotabæ, var þá ritið flutt norður til Winnipeg og gefið út þar um önnur 4 ár, eða til 1905. Stofnuðu þá Íslendingar í Minnesota mánaðarblað, er byrjaði að koma út í Minneota árið 1902. Komu út 6 árgangar og voru ritstjórar við það þeir Þórður læknir Thordarson og séra Björn B. Jónsson (við fyrstu 2 árg.). Blaðið var vinsælt og flutti fræðandi ritgjörðir almenns efnis. Það hætti útkomu árið 1908.

**Nýja Ísland.**

Um það leyti sem Íslendingar voru að flytja til Marklands, kom til orða að stofnuð væri nýlenda vestur í Manitoba, er þá var lítt bygt. Það var fyrir tilhlutun og milligöngu skozks manns, er John Taylor hét og kynni hafði haft af Íslendingum í Kinmount. Leitaði hann styrktar Canadastjórnar, að hún legði fram fé til nýlendustofnunar þessarar og tók hún því vel. Mun margur þá hafa verið fremur tæpt staddur efnalega og því urðu fleiri, er fýstust að taka boði þessu, en annars hefði verið. Var nú til fundar boðað um vorið (1875), og gjörðir út menn í landskoðun vestur. Fyrir kjöri urðu: Sigtryggur Jónasson· Einar Jónasson læknir frá Harastöðum í Dalasýslu, Kristján Jónsson frá Héðinshöfða og Skapti Arason frá Hringveri á Tjörnesi. Með þeim fór Sigurður Kristófersson frá Neslöndum við Mývatn, — frá Milwaukee, og John Taylor, umboðsmaður Canadastjórnar. Menn þessir lögðu af stað 2. júlí og komu til baka aftur seint í ágústmánuði. Höfðu þeir aðallega skoðað land á vesturströnd Winnipegvatns. Fýstu þeir nú menn mjög á að

stofna þar nýlendu og töldu svæði þetta hið hagstæðasta. Eftir nokkurn umhugsunartíma varð það að ráði, að þangað skyldi flytja. Fluttust nú þangað flestir, er setið höfðu í Kinmount og eigi höfðu flutt eða ákveðið að flytja til Nýja Skotlands, enn fremur flest allir, er staðar höfðu numið í Muskoka og sumir hinna leiðandi manna, er dvalið höfðu í Milwaukee.

Farið var til Toronto, þaðan með járnbraut til Sarnia við Stórvötnin, svo á skipi til Duluth, þá aftur með járnbraut vestur að Rauðá, og þaðan vatnsveg eftir ánni á "flat-bátum" til Winnipeg, og eftir litla viðstöðu þar, áfram, norður á Winnipegvatn, og tekið land þar sem nefnt er á Víðinesi. Þar var stigið á land síðasta sumardag, hinn 21. október, kl. hálf-fimm um kvöldið, og hafði þá gengið mánuður í ferðalagið.[1] Tveim dögum síðar var byrjað á því að reisa fyrsta húsið inn með víkinni og nefnt *á Gimli*. En landsvæðinu öllu, er Íslendingum var nú úthlutað, var nafn gefið og kallað *Nýja Ísland*. Hátt á fjórða hundrað manns var í þessum hóp, er tók sér nú þarna bólfestu.

Hin fyrstu félagssamtök, eftir að sezt var að, voru um það, að koma á fót einhvers konar stjórnarskipun. Mælt hafði verið fyrir bæjarstæði, svæðið þar sem nú stendur Gimlibær; komu menn sér þar flestir upp einhverju skýli og biðu svo þess að voraði. Þá þurfti og að setja einhverja til umráða og skifta með fé því, er Canada-stjórn hafði veitt til nýlendunnar. Var því til fundar kveðið 4. janúar 1876 og þar kosin fimm manna nefnd, er kölluð var 'Bæjarnefnd', og var nefnd þessi hin fyrsta stjórn þessa litla íslenzka ríkis, er þarna var stofnsett. Nefndin hafði á hendi alt eftirlit með bygðinni og annaðist um alt það, er að einhverju leyti snerti velferð manna. Kosningu í Bæjarnefndina hlutu: Ólafur Ólafsson frá Espihóli, Friðjón Friðriksson frá Harðbak, Jakob Jónsson frá Munkaþverá, Jóhannes Magnússon frá Stykkishólmi og John Taylor.

Vorið eftir (1876) sundraðist nefndin, þá dreifðist fólk út um sveitina, varð þá líka að taka upp öðruvísi og víðtækari stjórnarskipun. Var nú boðað til tveggja funda upp úr nýári 1877, til að íhuga þetta og önnur velferðarmál nýlendunnar. Annar fundurinn var haldinn á Gimli, en hinn norður við Íslendingafljót. Fimm manna nefnd var kosin á hvorum fundi til að semja frumvarp til bráðabirgðarlaga. Voru frumvörp þessi síðan borin saman og sameinuð með meiri hluta atkvæða, á almennum fundi, er haldinn var á Gimli þann 5. dag febrúarmánaðar þá um veturinn, og lögin því næst samþykt. Með þeim var nýlendunni skift niður í fjórar bygðir, er svo hétu: Víðinesbygð, Árnesbygð, Fljótsbygð, Mikleyjarbygð. Samkvæmt lögum þessum voru svo næst haldnir kjörfundir í öllum bygðunum hinn 14. s.m. og kosin fimm manna nefnd í hverri bygð, er nefndist "*Bygðarnefnd*". Kaus svo hver nefndin formann

1) Guðlögur Magnússon Landn. Ísl. í Nýja Íslandi. Alm. 1899, bls. 28.

úr sínum hópi, er nefndist Bygðarstjóri. Viku síðar áttu svo allar Bygðarnefndirnar fund með sér norður í Sandvík, meðal annars til að kjósa formann og varaformann fyrir "Nýlenduráðið", en það var skipað "Bygðarstjórunum" fjórum. Nefndist formaður sá "*Þingráðsstjóri*" en héraðið alt *Vatnsþing*.[1])

"Þingráðið" starfaði að ýmsum málum, sem varðaði almenning. En þau mál er þá þurfti samþykki búenda til, tóku Bygðarstjórar til meðferðar, hver í sinni heimaþinghá. Þingráðið skipaði meðal annara hluta, að hver karlmaður, er aldur hefði til (21 árs), skyldi árlega leggja til vegagjörða tvö dagsverk eða að öðrum kosti gjalda til héraðsins $2.00; að ekkjum og munaðarleysingjum skyldi veittur nægilegur styrkur sér til framfærslu; að ekkjum, er hefðu fyrir ómegð að sjá, skyldi útvegaður landtökuréttur og þær styrktar til að vinna landið; að fimm manna nefnd sé kvödd til í hverri bygð að hafa eftirlit með hreinlæti og umbúnaði húsa, svo varnað verði eldsvoða o. fl. Stjórnarlög Nýja Íslands voru að fullu afgreidd á fundi, er haldinn var 11. janúar 1878 í "Lundi" og eru þá í 18 liðum.[2])

1) Til Bygðarstjóra voru kosnir: Í Víðinesbygð, Björn Jónsson frá Ási í Kelduhverfi; í Árnesbygð, Bjarni Bjarnason frá Daðastöðum í Skagafirði; í Fljótsbygð, Jóhann Briem frá Völlum í Skagafirði; í Mikleyjarbygð, Jón Bergvinsson úr Fljótsdal í N.-Múlasýslu. Til "Þingráðsstjóra" var kjörinn Sigtryggur Jónasson, en til vara, Friðjón Friðriksson. Voru þannig "Þingráðsstjórar" valdir, annar úr nyrzta, hinn úr syðsta hluta nýlendunnar.

2) "Framfari", I. ár, 8. tbl.

Stjórnarskipun þessi hélzt til ársins 1887,[1]) og er alveg einstök í sögu Íslendinga vestan hafs. Hvergi annarsstaðar hefði verið mögulegt að koma slíku við. En nýlendusvæði þetta var Íslendingum afmælt og fengið og þar máttu eigi aðrar þjóðir byggja. Nýlendan lá utan við hið forna Manitobafylki, í svo nefndu Keewatin-héraði, og náði því eigi sveitalöggjöf fylkisins til þessa bygðarlags. Hvar annars staðar, þar sem Íslendingar settust að, spratt brátt upp bygð í kring um þá, og lutu þeir þar því í öllum efnum hérlendum lögum.

Þó eigi sé haldið hinum sömu nöfnum á embættum í stjórnarskipun þessari og tíðkuðust á Íslandi má þó þekkja, að þau eru öll hin sömu. "Þingið" er eigi annað en hið, forna íslenzka sýsluheiti, og verður þá "Vatnsþing" hið sama og "Vatnssýsla", en "Þingráðið" sama sem sýslunefnd, en "Þingráðsstjóri" hið sama og sýslumaður. Skifting í "bygðir" er hin íslenzka skifting í hreppa, verður þá "Bygðarnefndin" hreppsnefnd og "Bygðarstjórinn" eigi annað en hreppstjóri. Að sjálfsögðu hafa menn þó kunnað þessum nöfnum betur, en hinum eldri, og fundist þau að einhverju leyti frjálslegri; en því mun að mestu hafa ráðið, að flestir þeir menn, er þá fluttu frá Íslandi og vestur, munu hafa eftirskilið alla hreppstjóra- og

1) Guðl. Magnússon: Landn. Ísl. í Nýja Íslandi Alm. 1899, bls. 37.

sýslumanna-ást og eigi haft hana með sér hingað.

Á sama hátt bygði öll almenn uppfræðslu á íslenzkum stofni. Börnum var kent að lesa og skrifa í heimahúsum. Menn fluttu að heiman með sér allmikið af bókum og handritum og meira en alment er kunnugt um, og lestur var eigi síður tíðkaður þá en nú. Margir hinir sömu siðir héldust og almennir höfðu verið í þeim sveitum, er menn komu úr, þar á meðal sögulestur, húslestrar o. fl.

Skömmu eftir að "Þingráðið" var stofnað, kom til umræðu að nauðsynlegt væri að koma upp kirkjum eða skólahúsum, hæfilega mörgum, og fá presta til bygðarinnar. Haustið áður hafði komið til orða, að séra Páll Þorláksson réðist þangað, en koma hans drógst. Endurnýjaði hann boð sitt nokkrum sinnum, en eigi varð þó af komu hans. Var nú haldinn almennur fundur við Íslendingafljót, 27. og 28. apríl 1877, og kom þá í ljós, að meiri hluti manna var eindregið með því, að fá prest. Voru litlar líkur taldar á því, að séra Páll myndi koma. "Hann var prestur í kirkjufélagi suður í Bandaríkjum, er nefndist Norska Sýnódan", en það þektu menn ekkert, vissu aðeins að það var lúterskt og fornt í anda og fornt í kenningu. [1]) Var því afráðið, að Íslendingar stofnuðu kirkjufélag sín á meðal, er óháð væri öðrum kirkjufélögum þessa lands. Nefnd var skipuð til að leita samþykkis hinna annara bygða nýlendunnar, útvega prest, semja um að kirkjur yrði reistar, o. fl. Þá var og samþykt að afþakka tilboð séra Páls. Var nú þingað í máli þessu víðsvegar um nýlenduna.

Um þetta urðu skiftar skoðanir. Mikleyjarbygð og meiri hluti Víðnesbygðar fylgdi Fljótsbygð í þessu, en Árnesbygð, allnokkrum í Víðinesbygð og nokkrum í Fljótsbygð fanst eigi full ástæða til að hafna boði séra Páls. Á máli þessu klofnuðu menn og getur þar fyrst sundrungar í sögu Íslendinga vestan hafs. Eigi fékk nú nefnd þessi loforð fyrir meira fé en svo, að launa mætti einum presti. Hefir það að líkindum dregið úr fjárframlögum, að séra Páll bauðst til að þjóna endurgjaldslaust. Máli þessu lyktaði svo, að stofnuð voru tvenn safnaðafélög: "Hið lúterska kirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi" og "Hinn íslenzki lúterski söfnuður í Nýja Íslandi." Í hinu fyrnefnda stóðu 5 söfnuðir: Bræðrasöfnuður (við Ísl.-fljót), Breiðuvíkursöfnuður, Mikleyjarsöfnuður, Bæjarsöfnuður (á Gimli) og Steinkirkjusöfnuður (í syðri Víðinesbygð). Í hinu síðarnefnda stóðu þrír söfnuðir: Vídalínssöfnuður (í Víðinesbygð), Hallgrímssöfnuður og Guðbrandssöfnuður (í norður og suður Árnesbygð.[1]) Að eins tveir þessara safnaða eru enn við lýði (Bræðra- og Breiðuvíkur), hinir hafa horfið, aðrir aftur myndast í þeirra stað. Kall-

1) Guðl. Magn.: Landn. Ísl. í N. Í. 1899, bls. 42.

1) Guðl. Magn.: Landn. Ísl. í N. Í.

aði nú hið fyrnefnda kirkjufélag séra Jón Bjarnason til sín sem prest, en hann var þá ritstjóri við norskt blað í Minneapolis, en hið síðarnefnda séra Pál Þorláksson. Til nýlendunnar kom séra Páll 19. okt. en séra Jón 8. nóv. um haustið. Á þessu sama hausti voru settir á fót tveir barnaskólar, annar í Lundi við Íslendingafljót, en hinn á Gimli. Var séra Jón hvatamaður að því, að skóli var stofnaður á Gimli og var kennari við þann skóla kona hans, frú Lára Bjarnason. Tilsögn var þar veitt í lestri, skrift, réttritun, reikningi, landafræði, ensku, söng og kristilegum fræðum,[1]) og var sú kensla ókeypis. Í stað skóla þessara munu brátt hafa komið hinir hérlendu alþýðuskólar, og hefir þá kenslan í íslenzkum fræðum aftur farið fram eingöngu í heimahúsum, unz sunnudagsskólar voru upp teknir, er eigi var fyr en 1886,[2]) en þar var kent að lesa íslenzku.

Það er eigi staður hér til að fara nákvæmlega út í sögu safnaðanna í nýlendunni en geta verður þess, að sundrung sú, er lét á sér bera út af prestsmálunum, óx nú fremur eftir að prestarnir voru báðir komnir til nýlendunnar. Ráku sig nú á tvær stefnur innan hinnar sömu kirkjudeildar. Hérlenda stefnan, eða Sýnódustefnan, og íslenzka stefnan, eða sá skilningur trúarinnar, er tíðastur var í huga þjóðarinnar heima. Leiddu deilur þessar til þess með öðru,

1) Guðl. Magn.: Landn. Ísl. í N. Í.
2) Sameiningin 1886, I. árg., bls. 15.

að burtflutningur hófst úr nýlendunni, en við hann leið "Hinn íslenzki lúterski söfnuður í Nýja Íslandi" undir lok. Hinir söfnuðirnir hættu og að vera til, en aðrir nýir komu í þeirra stað. Árið 1885 eru þessir söfnuðir taldir í Nýja Íslandi: Syðri Víðiness., Nyrðri Víðiness., er síðar nefndist Gimli-s.; Árness., Breiðuvíkur og Bræðra-söfn.[1]) Mikleyjarsöfnuður er aftur reistur við árið 1886.

Nýlendan var um langt skeið prestslaus, eða frá 1881 til 1887, að séra Magnús Jósepsson læknis Skaptasonar frá Hnausum í Húnaþingi kom vestur og tók þar við prestsþjónustu. Árið 1890 gekk hann úr kirkjufélaginu, er þá var stofnað fyrir 5 árum, út úr trúmála ágreiningi, og fylgdu honum allir söfnuðirnir að undanteknum Bræðrasöfnuði við Íslendingafljót. Skiftist nú nýlendan aftur í trúmálunum og stendur svo enn. Nýir söfnuðir mynduðust þar sem hinir eldri voru, er sagt höfðu sig úr kirkjufélaginu svo safnaðatalan hefir vaxið mikið í bygðinni. Svo hefir bygð færst út mikið við það, sem hún var til forna. Rétt fyrir og um aldamótin bygðust stór svæði vestur og norður af hinni fornu Fljótsbygð, er nefnast Árdalsbygð og Víðirbygð. Eru þar söfnuðir. Safnaðatalan í Nýja Íslandi er nú, sem fylgir[2]): Víðines-, Gimli-, Árnes-, Breiðuvíkur-, Árdals-, Geysis,- Bræðra,- Mikleyjar og Víðir-söfn-

1) Sameiningin, Sýnisbl., des. 1885. bls. 17.
2) Gjörðabók: 35. ársþing, Hins ev. lút. kirkjufél. Ísl. í Vesturh., 1919.

uðir tilheyrandi Hinu ev. lúterska kirkjufélagi Ísl. í Vesturheimi; og Gimli,- Árnes,- Hnausa,- Ísl.-fljóts- og Mikleyjar-söfnuður, er heyra til hinni Únítarisku trúmálastefnu meðal Íslendinga hér í álfu. Hafa söfnuðir þessir verið lítt starfandi nú í síðari tíð sökum prestaleysis. Þessir hafa verið prestar í Nýja Íslandi: Séra Páll Þorláksson (19. okt. 1877 til vors 1879). Séra Jón Bjarnason, (8. nóv. 1877 til 31. marz 1880). Séra Halldór Briem (1880—1881). Séra Magnús J. Skaptason (1887—1894). Séra Oddur V. Gísílason (1894-1902) í norðurhluta nýlendunnar). Séra Rúnólfur Marteinsson (1902-1910). Séra Jóhann Bjarnason (í norðurhluta nýlendunnar frá 1908). Séra Carl J. Olson (í suðurhluta nýlendunnar 1912—1918). Séra Jóhann P. Sólmundsson (1902—1910). Séra Albert E. Kristjánsson (1910—1914). Tveir hinir síðasttöldu hafa verið prestar hinna Únítarisku safnaða.

Næst hinum andlega félagsskap má telja blaða-fyrirtæki og bókaútgáfur með þeim samtökum, er einna bezt styðja að þjóðræknismálum nýlendunnar. Árið 1877 myndaðist hlutafélag, er gekst fyrir því, að koma á fót blaði í Nýja Íslandi. Var Sigtryggur Jónasson aðal hvatamaður þess. Í stjórnarnefnd félagsins voru kosnir ásamt honum: Friðjón Friðriksson og Jóhann Briem. Nefndist félagið "Prentfélag Nýja Íslands." Prentáhöld voru keypt sunnan frá Minneapolis og gekk séra Jón Bjarnason á milli með að útvega þau. Á blaða útgáfu var byrjað 10. september 1877 og var blaðið nefnt "Framfari."[1]) Er þetta fyrsta íslenzka blaðið, er út er gefið vestan hafs. Af því komu út að eins tveir árgangar og voru 36 blöð í fyrra árgangi, en 38 í hinum síðari. Blaðið var gefið út í Lundi við Íslendingafljót og var Halldór Briem (síðar kennari á Möðruvöllum í Hörgárdal) ritstjóri þess. Blaðið hætti útkomu 30. jan. 1880, en aukablað er gefið út 10. apríl sama ár og er Sigtryggur Jónasson ritstjóri þess. Þó eigi yrði blaðið eldra en þetta, bar það þó með sér stórmikla þýðingu á þeim tíma, og er eitt hið bezta heimildarrit fyrir sögu Nýja Íslands á þessum árum. Eftir að "Framfari" féll, er eigi byrjað á blaða útgáfu aftur, fyr en með árinu 1893. Stofna þeir þá í félagi, séra Magn. J. Skaptason og Gísli H. Thompson á Gimli tímarit, er nefndist "Dagsbrún", "til stuðnings frjálsri trúarskoðun". Kom það út mánaðarlega og byrjaði með janúar 1893. Þrír árgangar eru prentaðir á Gimli, en fjórði og síðasti árgangurinn er gefinn út í Winnipeg og endar í desember 1896. En strax og "Dagsbrún" er flutt til Winnipeg, byrjar Gísli á tímariti, er hann nefnir "Svöfu"; var það safn af sögum og kvæðum og komu út sex árgangar (1895—1904). Jafnframt þessu tímariti gaf hann út hálfsmánaðarblað, er hét "Bergmál", í félagi við Guðna Þorsteinsson, póstmeistara á Gimli, af Vatnsleysuströnd, kom vestur 1886.

1) Guðl. Magnússon: Landn. Ísl. í Nýja Ísl., Alm. 1899, bls. 46.

Byrjaði það að koma út 18. des. 1897, en hætti með 15. tölublaði III. árgangs, 14. febr. 1901. Var hann sjálfur ritstjóri og flutti blað þetta mestmegnis smágreinar og fréttir, um ýms mál innan héraðs. Árið 1903 myndast hlutafélag á Gimli og byrjar þá á blaðútgáfu, er það nefndi "Baldur". Var það vikublað og komu út sjö árgangar. Útkomu hætti það með febr. 1910. Blað þetta náði allmikilli útbreiðslu og þótti oft vel ritað. Ritstjóri við það um tíma var Einar Ólafsson, frá Firði í Mjóafirði (d. í ágúst 1907), orðlagður gáfumaður. — Ársfjórðungsrit stofnuðu þeir Jóhann P. Sólmundsson og Einar Ólafsson haustið 1904, er nefndist "Ný Dagsbrún'". Komu út að eins 3 hefti (1904-6). —Um það leyti sem útgáfa "Baldurs" hætti byrjaði Gísli P. Magnússon, er hluthafi var í Baldursfélaginu, nýtt vikublað, "Gimlung", er kom út í 2 ár (30. marz 1910—4. okt. 1911), en lítið þótti að því kveða. Síðan hefir ekkert rit verið gefið út í Nýja Íslandi, það frézt hafi.

Snemma á árum munu lestrarfélög hafa verið stofnuð í hinum ýmsu bygðum nýlendunnar, og eru flest þeirra enn við lýði. Eiga mörg þeirra allgóð söfn íslenzkra bóka. Lestrarfélög standa við: Húsavík, Gimli, Árnes, Hnausa, Íslendingafljót, Geysir, og víðar. En eigi er oss kunnugt hvenær þau voru stofnuð.

Sumarið 1901, dagana 16.—18. júní, var stofnað á Gimli "Hið Únítariska Kirkjufélag Vestur-Íslendinga". Mættu þar erindrekar frá N. Íslandi, Winnipeg, Dakota og Álftavatnsbygð. Voru aðal hvatamenn að stofnun þess, séra Magnús J. Skaptason, Þorvaldur Þorvaldsson (er lézt í Cambridge, Mass., 9. febr. 1904), Einar Ólafsson (frá Firði í Mjóafirði) o. fl. Um það urðu skiftar skoðanir, þegar kom til að semja grundvallarlög fyrir félagið, hvort það ætti að kallast "Fríkirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi", eða "Hið Únítariska kirkjufélag" o. s. frv. Héldu þeir, er á fundinum sátu fyrir hönd Nýja Ísl. safnaðanna, fram með fyrra nafninu, en hinir, er komu frá Winnipeg og Dakota, með hinu síðara. Fyrir miðlun Þorvaldar Þorvaldssonar var sæzt á að sameina nöfnin og var það svo nefnt "Hið Únítariska Fríkirkjufélag Vestur-Íslendinga". Var þessu svo breytt seinna. Í félaginu standa 10 söfnuðir og smáfélög. Tímariti hélt það út um níu ára skeið ("Heimir", W.peg 1904—1914) og eitt rit hefir það gefið út: "Barnalærdómur eftir Únítariskri kenningu" (W.peg 1911). Forsetar félagsins hafa verið: Séra Magnús J. Skaptason (1901—1906), Skapti B. Brynjólfsson (1906—21. des. 1914), séra Albert E. Kristjánsson (frá 1914). — Skrifarar hafa verið: Þorvaldur Þorvaldsson (1901—1904), Bjarni Lyngholt (1904), Dr. Þorbergur Þorvaldsson (1904—8), séra Gm. Árnason (1909—10), séra Rögnv. Pétursson (1910—13), séra Guðm. Árnason (1913—14), séra Rögnv. Pétursson (frá 1914).

## Dakota-nýlendan.

Vegna hinnar megnu sundrungar, er leiddi af hinum tvískiftu skoðunum manna í trúmálunum, sem sýndi sig er stofnuð voru tvö kirkjufélög; vegna þeirra erviðleika, er nú fóru að gjöra vart við sig eftir 1877, þegar lokið var við stjórnarlánið; vegna skæðrar drepsóttar (bólunnar), er geysaði um nýlenduna veturinn 1876-7 og lagði 102 menn í gröfina; [1]) vegna vatnsgangs og flóða og annarar óárunar, fór að búa um sig hjá mönnum mikill burtfararhugur úr Nýja Íslandi. Hefir það einhverju sinni verið sagt, að stjórnarlánið og atvinnuleysi hafi bygt Nýja Ísland, en sýnódan og bólan eytt því aftur. Mörgum fanst það eigi fullreynt, að eigi væri um betra nýlendusvæði að ræða í Ameríku, en þetta. Fýsti séra Páll menn á að leita til Bandaríkjanna og hafði helzt í huga að leita eftir nýlendusvæði í grend við Íslendinga í Minnesota.[2]). Í landskoðunarferð suður réðust með séra Páli: Jóhann Pétur Hallsson frá Egg í Hegranesi, Gunnar sonur Jóhanns, Árni Þorláksson Björnssonar frá Fornhaga í Hörgárdal, Sigurður Jósúa Björnsson frá Bæ í Dalasýslu, Magnús Stefánsson frá Kjarna í Eyjafirði.[3]) Farið var frá Gimli hinn 27. apríl. En svo atvikaðist, er komið var til Winnipeg, að skemra var farið en ætlað var, og var ferðinni snúið upp í að skoða landsvæði það, er liggur milli Pembina-fjalla og Rauðár, norðaustast í Dakota-ríkinu. Leizt landskoðunarmönnum svo vel á sig, að þeir afréðu að setjast þar að. Hvarf Jóhann Hallsson og sonur hans, og Sigurður Jósúa til baka aftur hið bráðasta. Komu þeir til Gimli hinn 19. maí, en hinn 24. s.m. lögðu þeir af stað alfarnir þaðan með skyldulið sitt. En með þeim urðu samferða Gísli Egilsson frá Skarðsá í Skagafirði, Jón Jónsson Hörgdal frá Staðartungu í Hörgárdal, Jónas Jónsson læknis frá Saurbæ í Skagafirði, og Benedikt Jónsson frá Mjóadal í Bárðardal.[4]) Að kvöldi hins 6. júní var komið á þær stöðvar, þar sem sezt var að. Voru þetta fyrstu landnemarnir í bygð þessari, er síðan er nefnd *Dakota nýlendan.*

Á næstu árum flutti fjöldi fólks til nýlendunnar, fyrst og fremst frá Nýja Íslandi, og svo frá Nýja Skotlandi, að heita mátti allir þaðan; frá Shawano-héraði í Wisconsin, þar sem myndast hafði dálítil íslenzk bygð á árunum 1874—6; frá Minnesota, og beina leið frá Íslandi. Kvað nú svo mikið að burtflutningi úr Nýja Íslandi, til Dakota, Winnipeg og annara staða, að til auðnar horfði, og eigi sátu þar eftir, er burtflutningurinn hætti 1886, nema 60 búendur, en þar höfðu áður verið um 400 búendur, þegar flest var. [5]) Félagslíf fellur þar þá og líka í kaldakol, en rís upp með því meira fjöri í Dakota nýlendunni.

1) Guðl. Magn.: Landn. Ísl. í N. Í, bls. 38.

2) Páll Þorláksson: Fyrstu ár Íslendinga í Dakota. Alm. 1901, bls. 39.

3) Páll Þorláksson: Fyrstu ár Íslendinga í Dakota. Alm. 1901, bls. 39.

4) Fr. J. Bergmann: Landn. Ísl. í Norður-Dakota. Alm. 1902, bls. 22-23.

5) Guðl. Magn.: Landn. Ísl. í N. Í., bls. 41.

Fæstir verða taldir, er til Dakota fluttu á hinum fyrstu árum. En þangað safnaðist hið mesta mannval um tíma. Hin fyrsta ritgjörð um nýlenduna, er var prentuð 1882 og send til Íslands og víðar, var rituð af alþingism. Birni Péturssyni frá Hallfreðarstöðum í N.-Múlasýslu. Var það lýsing "Rauðárdalsins" óskreytin og öfgalaus. Réði hann Íslendingum fastlega til að flytja þangað. Um rit þetta orti Páll Ólafsson, mágur Björns, hina alkunnu vísu:

"Þú ræðir mikið um Rauðárdalinn
og ræður til þess menn flytji skjótt."

Árið 1879 eru 50 búendur seztir að í nýlendunni,[1]), en um það leyti er hún var 10 ára gömul, mun þar hafa verið orðin fjölmennust íslenzk bygð fyrir vestan haf. En þá byrjaði þaðan útflutningur, til nýbygða er stofnaðar voru.

Fyrstu samtök til félagsskapar byrjuðu þar árið 1880. Er fundur haldinn syðst í nýlendunni, hinn 24. nóv., boðaður af séra Páli í því skyni að stofna söfnuð. Var Stephan G. Stephansson skrifari þessa fundar, en 16 manns voru á fundi. Samþykt var að mynda söfnuð, er nefndur var Park-söfnuður. Voru safnaðarlög séra Páls, frá Nýja Íslandi, samþykt að mestu óbreytt. Þrír fundarmanna töldu sig þó eigi við því búna að samþykkja þau og gengu eigi í söfnuðinn [2]). Viku síðar var annar fundur haldinn í samskonar tilgangi í Vík (Mountain, í miðjum vesturhluta nýlendunnar). Þar voru 33 á fundi. Samþykt var að stofna þar söfnuð, er var nefndur Víkur-söfnuður; voru hin sömu safnaðarlög þar samþykt. Einn maður var þar á fundi, er andmælti safnaðarlögunum og kvaðst eigi í safnaðarfélag þetta geta gengið, — Jónas Kortsson frá Sandi í Aðaldal. Norðast í nýlendunni, við Tunguá (í landnámi Jóhanns Hallssonar), er síðar var nefnd Hallson-bygð, var stofnaður þriðji söfnuðurinn eftir nýár 1881. Átján manns sótti fundinn. Þar voru samþykt safnaðarlög séra Páls óbreytt. Vorið 1882, hinn 12. marz, andaðist séra Páll að heimili sínu í Vík og var öllum harmdauði, er hann þektu. Mátti hann heita sannnefndur faðir þessarar nýlendu, og fyrir hana hafði hann strítt og starfað það sem af var og heilsan leyfði. Dofnaði nú yfir félagsmálum öllum um stund, og eigi voru fleiri félög stofnuð að svo komnu.

Þetta sama vor útskrifaðist séra Hans B. Thorgrímsen frá prestaskóla Missouri sýnódunnar lútersku í St. Louis, í Missouri ríkinu. Var það samkvæmt ráðstöfunum, er séra Páll gjörði, nokkru fyrir andlát sitt, að Víkursöfnuður sendi honum nú köllun. Kom hann svo til nýlendunnar haustið 1883. Um þetta leyti myndaðist söfnuður í bænum Pembina, en hann var þá höfuðbær þessa héraðs. Þar urðu nokkrir Íslendingar eftir, meðan á innflutningunum stóð að norðan og myndaðist þar svo dálítil íslenzk bygð, í bænum sjálfum og sunnan við hann. Á næsta ári (1884) stofnaði séra Hans fjórða söfnuðinn í nýlend-

1) Páll Þorl.: Fyrstu ár Ísl. í N. D., bls. 44.
2) Fr. J. B.: Landn. Ísl. í N. D., bls. 48.

unni vestur á Pembina-fjöllum, en þangað höfðu ýmsir farið, er þrengjast tók í bygðinni neðan við fjöllin, og numið sér land. Var sá söfnuður nefndur Fjalla-söfnuður. Þetta sama ár var og stofnaður söfnuður í grend við bæinn Grafton í Walsh héraði, en þar höfðu nokkrir Íslendingar sezt að. Nefndist þessi söfnuður "Little Salt söfnuður". Hann var lagður niður nokkru seinna, en þá stofnaður aftur söfnuður í Grafton-bæ meðal Íslendinga, er þar höfðu sezt að. Var sá söfnuður kendur við bæinn og kallaður Grafton-söfnuður. Árið 1885 er stofnaður söfnuður austast í nýlendunni á hinum svonefndu Eystri Sandhæðum. Gekk hann undir því nafni um tíma, en sameinaðist þá vesturhluta Tunguár-safnaðar og nefndist Vídalíns-söfnuður, en Tunguár-söfnuður aftur Hallson-söfnuður. Þá er stofnaður annar söfnuður allra syðst í nýlendunni, er nefndist Gardar-söfnuður, eftir póstafgreiðslustaðnum, er þá var nýtekinn upp. Skömmu þar á eftir sameinaðist Park-söfnuður þessum nýja söfnuði og hefir hinn sameinaði söfnuður borið nafnið Gardar-söfnuður síðan. En við þá sameiningu og fyrir eitthvað fleira, munu nokkrir er vestastir bjuggu, hafa gengið úr söfnuðinum, þar á meðal Stephan G. Stephansson, og víkur sögunni að því seinna.

Árið 1886 flytur séra Hans B. Thorgrímsen úr nýlendunni og gjörist prestur meðal Norðmanna í Suður Dakota. Þá var ný-útskrifaður frá prestaskóla lúterska kirkjufélagsins í Pennsylvania, Friðrik Jónsson Bergmann (frá Syðra Laugalandi í Eyjafirði). Vestur fluttist hann 1875, en til Dakota 1882, þá nýútskrifaður úr Mentaskóla Norðmanna í Iowa-ríki (Luther College í Decorah.[1]) Var hann nú kallaður til Garðar-safnaðar og kom hann til nýlendunnar þá um sumarið. Um þetta leyti myndaðist söfnuður í norðurhluta Garðar-bygðar og í suðurhluta Víkur-bygðar. Nefndist sá söfnuður Þingvallasöfnuður. Eigi var hann fjölmennur, en mjög varð hann sögulegur er fram liðu stundir og eru við hann kend hin miklu málaferli, er risu út af trúmála ágreiningi innan kirkjufélagsins árið 1909. Séra Friðrik þjónaði einn öllum söfnuðum nýlendunnar upp til ársins 1893. En þá um sumarið 25. júní var vígður til safnaðanna í austurhluta nýlendunnar Jónas A. Sigurðsson, guðfræðis kandídat frá hinum lúterska prestaskóla í Chicago. Frá Íslandi kom hann sumarið 1887, frá Gröf í Víðidal í Húnaþingi. Tók hann við Vídalíns, Hallson, Pembina og Grafton söfnuðum. Í umdæmi þessu myndaði hann ári síðar nýjan söfnuð norður af Hallson-bygð og nefndist sá söfnuður Péturs-söfnuður.

Fyrir tilhlutan séra Magnúsar J. Skaptasonar, er nú var prestur Únítara-safnaðarins í Winnipeg, myndaðist Únítara-söfnuður allfjölmennur í Hallson- og Vestur-Sandhæða bygð sumarið 1895, en sökum prestsleysis var söfnuður

1) Séra F. J. B.: Landn. Ísl. í N.D., bls. 53.

sá lítt starfandi og lagðist að lokum niður árið 1899.

Árið 1900 sagði séra Jónas söfnuðum þessum upp þjónustu sinni og flutti alfarinn úr nýlendunni vestur á Kyrrahafsströnd. Kom þá séra Hans B. Thorgrímsen aftur til nýlendunnar og tók að sér prestsþjónustu þessara safnaða og var hjá þeim frá 1901 til 1912. Haustið 1901 lagði séra Friðrik J. Bergmann að nokkru leyti niður prestsþjónustu safnaða sinna og fluttist til Winnipegborgar og tók við kennarastöðu í íslenzkri tungu og bókmentum. Sumarið 1904 vígðist til Garðar-safnaðar Kristinn Kristinsson Ólafsson guðfræðis kandídat frá lút. prestaskólanum í Chicago. Þjónar hann söfnuðum þessum enn. Sumarið 1909 varð ágreiningur mikill innan kirkjufélagsins út af lærdóminum um bindingarvald trúarjátninganna, innblástur ritningarinnar og fleira. Sögðu sig þá nokkrir söfnuðir úr kirkjufélaginu þar í nýlendunni.[1]) Myndaðist þá nýr söfnuður við Gardar, er nefndi sig Lúters-söfnuð, en hinn forni Garðar-söfnuður, Þingvalla-söfnuður og minni hluti Víkur-safnaðar kallaði til sín sérstakan prest. Nefndust söfnuðir þessir Ný-guðfræðissöfnuðir, og varð fyrstur prestur þeirra séra Lárus Thorarensen, sonur Jóns prests Thorarensens í Stórholti í Dalasýslu. Við söfnuðunum tók séra Lárus haustið 1910, en sagði þeim lausum vorið 1912. Lagði þá af stað heim til Íslands aftur, en svo var heilsa hans þrotin, að hann andaðist í hafi (11. júní). Kölluðu nú söfnuðirnir til sín séra Magnús Jónsson (nú kennara við háskóla Íslands). Kom hann vestur haustið 1912, en hvarf heim aftur eftir rúma þriggja ára veru. Kom þá til safnaðanna séra Páll Sigurðsson úr Bolungarvík, haustið 1916. Prestar í nýl. hafa þá þessir verið, og á þeim tíma, sem hér segir: Séra Páll Þorláksson: 1878—1882. Séra Hans B. Thorgrímssen: 1883—1886 og seinna (að eins í norðurhluta nýlendunnar) 1901—12. Séra Friðrik J. Bergmann: 1886—'93 (yfir allri nýlendunni) og 1893—1903 (yfir syðri hluta hennar). Séra Jónas A. Sigurðsson: 1893—1900 (yfir nyrðri hluta). Séra Kristinn K. Ólafsson: 1904—1912 (yfir syðri hlutanum) og frá 1912 yfir öllum söfnuðum nýlendunnar, er standa í kirkjufélaginu. Séra Lárus Thorarensen: 1910—1912. Séra Magnús Jónsson: 1912—1915. Séra Páll Sigurðsson: síðan 1916.

En nú víkur sögunni til baka til haustsins 1884, að séra Hans B. Thorgrímsen vekur fyrstur manna máls á því, að allir hinir íslenzku söfnuðir, er þá höfðu verið stofnaðir hér í álfu, sameini sig í eitt allsherjar kirkjufélag. Fékk tillaga þessi hinar beztu undirtektir og var í þessu skyni boðað til fundar 2. desember 1884 í Víkursöfnuði ,og skyldi þar kjósa nefnd til þess í sameiningu við nefndir frá hinum öðrum söfnuðum, að semja frumvarp til væntanlegra kirkjufélagslaga.

Í nefndina voru kosnir: Séra Hans B. Thorgrímsen, Halldór

1) Gjörðabók 26. ársþ. Hins ev. lút. k.fél. Ísl. í Vesturheimi. W.peg 1910, bls. 6.

Reykjalín, Friðbjörn Björnsson, Haraldur Þorláksson og Jón Pálmason. Fulltrúar voru kosnir í hinum öðrum söfnuðum nýlendunnar, svo og í Winnipegsöfnuði og víðar. Var svo haldinn fundur dagana 23.-25. janúar 1885 á Mountain og þar samið frumvarp til grundvallarlaga fyrir hið fyrirhugaða *Kirkjufélag*. Er fulltrúafundur þessi stofnfundur "Hins ev. lút. kirkjufélags íslendinga í Vesturheimi". [1]) Grundvallarlaga frumvarpið var svo borið upp til staðfestingar í hinum ýmsu söfnuðum. Eigi náði það samþykki Víkursafnaðar, vegna ummæla í 6. gr. laganna, er veitti konum atkvæðisrétt og kjörgengi til þings.[2]), né hjá söfnuðunum í Minnesota - nýlendunni, er eigi vildu ganga í félagið að svo komnu. Á stofnfundinum var séra Jón Bjarnason kosinn forseti framkvæmdarnefndar, er boða skyldi til þings í næstkomandi júnímánuði meðal þeirra safnaða, er samþykt hefðu grundvallarlögin. Þetta fyrsta þing kirkjufélagsins kom saman í Winnipeg 24. júní 1885. Höfðu þá 12 söfnuðir samþykt lögin, 5 í Dakota, en 7 í Manitoba. Átján erindsrekar mættu þá fyrir hönd safnaðanna, auk prestanna tveggja, og þrír menn frá Víkursöfnuði, er stóð fyrir utan félagið. Á þinginu voru þeim veitt full fundarréttindi.[3]) Fundarstjóri var kosinn Björn Jónsson frá Ási í Kelduhverfi, en skrifari Jón Ólafsson frá Laugalandi í Eyjafirði. Breytingar voru gjörðar á grundvallarlögunum og þar á meðal á 6. greininni. Að þinginu loknu samþykti Víkursöfnuður lögin og gekk í kirkjufélagið. Á þessu fyrsta þingi var séra Jón Bjarnason kosinn forseti félagsins, en Friðjón Friðriksson skrifari. Á þinginu var samþykt að gefa út mánaðarrit félaginu til eflingar, og kosin 3 manna nefnd til þess að koma þeirri samþykt í framkvæmd. Í nefndina voru kosnir: Séra Jón Bjarnason, B. L. Baldvinsson og Friðjón Friðriksson. Séra Jón Bjarnason var kjörinn ritstjóri að tímariti þessu, er hann skírði "Sameiningin", og kom fyrsta hefti þess út í desember 1885, en á reglulegri útgáfu var eigi byrjað fyr en með marz 1886. Er það elzta íslenzka blaðið, sem út kemur nú hér megin hafsins.

Enginn kostur er á að fara ítarlega út í sögu kirkjufélagsins, enda heyrir það ekki undir efni þessarar ritgjörðar; er saga þess, sem og allra trúmálanna, sérstakur þáttur í sögu Íslendinga vestan hafs. Eftir því sem frá leið, óx safnaðatalan. Árið 1895 er tala safnaðanna innan félagsins 23, árið 1905, 37, 1915, 45 og 1919, 58, en þar munu taldir söfnuðir með, er eigi geta talist vera lengur til. Svo hefir gengið frá því fyrsta, að ýmsir hinna eldri safnaða hafa hætt að vera til, en aðrir verið stofnaðir á nýjum stöðum, eftir því sem bygðarlögum hefir fjölgað.

---

1) Sameiningin, (Sýnisblað) Des. 1885, bls. 1. Leifur: 11. febr. 1885.

2) Séra Friðrik J. Bergmann: Landnám ísl. í N. Dak.

3) Hinn fyrsti ársfundur Hins ev. lút. kirkjufél. ísl. í Vesturheimi, W.peg 1885.

Félagið hefir haft fjölbreytilegt starf með höndinn, sem átt hefir mikinn þátt í viðhaldi íslenzkrar tungu innan safnaðanna, þó verkið hins vegar hafi aðallega verið unnið til eflingar hinum kirkjulega félagsskap. Má þar fyrst til nefna sunnudagsskólana. Strax eftir fyrsta ársþing var byrjað á að koma þeim á fót sem víðast í söfnuðunum. Var svo til ætlast, að öll kensla færi þar fram á íslenzku. Með þessu æfðust unglingar í að lesa, ef þeir fóru allrar tilsagnar á mis í heimahúsum. Haustið 1901 var byrjað á íslenzkukenslu við mentaskóla Meþódista í Winnipeg (Wesley College) fyrir milligöngu og undir umsjón kirkjufélagsins. Leiddi það til þess, að íslenzk tunga og bókmentir var viðtekið sem námsgrein í undirbekkjum háskóla Manitoba-fylkis. Kostaði kirkjufélagið kensluna að miklu leyti upp til haustsins 1913. Kensluna hafði á hendi séra Friðrik J. Bergmann frá 1901—'09, og séra Rúnólfur Marteinsson frá 1909 til 1913 að kirkjufélagið stofnaði sérstakan skóla (Jóns Bjarnasonar skóla), að hann tók við forstöðu þess skóla og hefir haft hana síðan. Þó hefir kenslan haldið áfram í íslenzkum fræðum við Wesley College fram til þessa og hefir prófessor Skúli Johnson veitt þeirri kenslu forstöðu nú síðari ár. En algjörlega hefir það verið undir umsjón Wesley College sjálfs og án allrar aðstoðar frá Íslendingum. Haustið 1905 stofnaði kirkjufélagið annað kennaraembætti í íslenzkum fræðum við sænskan lúterskan mentaskóla í bænum St. Peter í Minnesota (Gustavus Adolphus College). Embætti það skipaði prófessor Magnús Magnússon frá Cambridge á Englandi, unz það var lagt niður árið 1909.

Allmörg rit og bækur hefir kirkjufélagið gefið út auk þeirra, er þegar eru talin, og eru þessi hin helztu: *Aldamót*, ársrit, ritstjóri séra Friðrik J. Bergmann, gefin út af prestum Hins ev. lút. kirkjufél. Ísl. í Vesturheimi. R.vík 1891-97, Winnipeg 1898-1903. Fluttu þau aðallega fyrirlestra frá kirkjuþingunum, ritdóma um íslenzkar bækur, kvæði o. fl. *Áramót* (framhald Aldamóta), ritstjóri séra Björn B. Jónsson, Winnipeg 1905-'09; *Ársfundur* kirkjufélagsins (þingtíðindi) I.—II, W.-peg 1885-6. *Framtíðin*. Barnablað. I.-II. ár, ritstjóri séra Níels Stgr. Þorláksson. W.peg 1908-10. *Fyrirlestrar* frá kirkjuþinginu 1889. W.peg 1889. *Þingtíðindi* (*Gjörðabók*) frá 17. ársþingi til hins 35. W.peg 1901-1919. *Minningarrit* 25 ára afmælis kirkjufélagsins, W.peg 1910. *Minningarrit* um Dr. Jón Bjarnason. W.peg 1918. *Nýjar Biblíusögur*, eftir séra Friðrik Hallgrímsson, W.peg 1919. *Sálmar* og aðrir söngvar, bandalaganna, Wpeg 1905. *Sálmabók* kirkjufélagsins, W.peg 1914. Sagan *Ben Húr*, í þýðingu eftir Dr. Jón Bjarnason (sérprentun úr Sameiningunni) í 3 bindum, 1909-'12 *Sunnudagsskólakver*, Wpeg, 1917. *Söngvar Bandalaganna*, W.peg 1912.

Stóru og vönduðu íslenzku bóka-

safni hefir kirkjufélagið komið upp og stendur það við skóla þess (Jóns Bjarnasonar skóla). Það var upphaf þess safns, að árið 1893 keypti kirkjufélagið alt bóka og handr.-safni séra Eggerts Briem, prests á Höskuldsstöðum í Húnaþingi, er andaðist það ár. Fyrir kaupunum stóð Sigtryggur Jónasson, er staddur var á Íslandi það sumar.[1]) Við safninu, er hingað kom, tók svo séra Jón Bjarnason, varðveitti það um mörg ár og jók það að stórum mun með bókum, er hann safnaði til þess. Að lokum arfleiddi hann safn þetta að flestum bókum sínum, svo það mun mega telja það með hinum meiri bókasöfnum íslenzkum hér vestan hafs.

Forsetar kirkjufélagsins hafa þessir verið síðan það var stofnað: Séra Jón Bjarnason, 1885—1908. Séra Björn B. Jónsson síðan 1908. Skrifarar: Jón Ólafsson 1885 (á fyrsta kirkjuþingi). Friðjón Friðriksson 1885—'6. Jakob Lindal 1886—'8. Séra Níels Stgr. Þorláksson1888—'90 og 1891—'93. Séra Hafsteinn Pétursson 1890—'91 og 1893—'95. Séra Jónas A. Sigurðsson 1895—'98. Séra Björn B. Jónsson 1898—1906. Séra Friðrik Hallgrímsson síðan 1906.

Árið 1886 var stofnað kappræðufélag við Mountain. Fyrir því stóðu margir ungir menn og þar á meðal þeir synir Brynjólfs Brynjólfssonar frá Skeggstöðum, Magnús, er síðar varð héraðslögamður í Pembinahéraði, og Skapti, er þá var nýkominn til nýlendunnar austan frá Duluth í Minnesota, þar sem hann hafði dvalið öðrum þræði, eftir að foreldrar hans fluttu frá Nýja Skotlandi. Markmið félagsins var, að æfa yngri menn í að koma fyrir sig orði í samkvæmum og ræða áhugamál bygðarinnar á opinberum mannfundum. Félag þetta stóð með miklum blóma nokkur ár. Fundir fóru allir fram á íslenzku og lét það sig eingöngu varða þau mál, er efst voru á baugi meðal Íslendinga. Jók það mikið fjör í félagslífi bygðarinnar og efldi kapp og framgirni meðal yngri kynslóðarinnar. Eftir að draga fór úr félaginu risu upp fleiri samskonar félög víðsvegar um nýlenduna, við Hallson, á Sandhæðunum og víðar, er höfðu fundahöld um nokkur ár.

Eins og á var minst hér að framan, um það leyti sem Park og Garðar- söfnuðir sameinuðust, gengu nokkrir úr Parksöfnuði. Mun þar ýmislegt hafa til greina komið og meðal annars ágreiningur í skoðanamálum. Til dæmis í Víkursöfnuði var neitað að samþykkja lög hins nýstofnaða kirkjufélags af því að þau (í 6. gr.) veitti konum jafnrétti við karlmenn í trúar og safnaðarmálum. Þá var og lengi vel á dagskrá kirkjuagamálið og þótti miklu skifta. Alt þetta mun sumum hafa þótt nokkuð ófrjálslegt, og leiddi það til þess, að stofnaður var nýr félagsskapur árið 1888 (4. febr.), er nefndist, Hið íslenzka Menningarfélag, er setti sér sem markmið að efla frjálsa rannsókn í trúarefnum, útbreiða þekkingu á hinum ýmsu trúarskoðunum og vísinda-

1) Sam.: júlí 1894, bls. 69.

kenningum, meðal leikmanna. Félagið var stofnað í húsi Stephans G. Stephanssonar fyrir vestan Garðar. Helztu stofnendur voru þeir Brynjólfssynir tveir, Skapti og Magnús, Ólafur frá Espihóli, Ólafsson, Björn alþ.m. Pétursson, Einar Jónasson læknir, Jónas Hallgrímsson (Hall), Arngrímur Jónsson frá Héðinshöfða, Jakob Líndal, Björn Halldórsson frá Úlfsstöðum í Loðmundarfirði, Sveinn Björnsson (Péturssonar), Brynjólfur Brynjólfsson og Stephan sjálfur. Fundarbókin ber með sér, að í félaginu hafi staðið um 40 manns.

Félag þett mun vera hið fyrsta sinnar tegundar, er stofnað hefir verið til meðal Íslendinga beggja megin hafsins. Umtal vakti þessi félagsmyndun afar mikið, enda sló þeim oft saman í all orðhvassar deilur formönnum safnaðanna og félagsmönnum. Í 5. gr. félagslaganna er gjört ráð fyrir ársfundi í júnímánuði, en "samkomu hvern almennan hvíldardag, verði því við komið. Á samkomum félagsins verða haldnar tölur, fyrirlestrar o.s.frv." Fyrir stofnendum vakti upphaflega, að samskonar félagsskapur skyldi stofnaður í hverri íslenzkri bygð, og félögin svo sameinast undir eina aðalstjórn, "með því fyrirkomulagi, sem deildunum kæmi saman um." Félagið hafði afar víðtæk áhrif á hina andlegu stefnu Íslendinga, eigi eingöngu þar í nýlendunni, heldur alls yfir. Það kom á fót öflugu lestrarfélagi og hélt uppi opinberum fyrirlestra-samkomum fram að árinu 1892. Síðasti ársfundur, er getur í Gjörðabók félagsins, er haldinn í júní 1891, voru þá margir hinna upphaflegu stofnenda fluttir úr nýlendunni og seztir að á víð og dreif í hinum yngri bygðarlögum. Út í sögu félagsins verður eigi nákvæmar farið að því er snertir trúmálastefnu þess, en þó má geta þess, að félaginu og félagsmönnum hinum fornu tileinkar skáldið St. G. Stephansson kvæðasafn sitt, "Andvökur", er út var gefið í R.vík 1908—9, að tilhlutan hinna gömlu félagsbræðra hans. Forsetar félagsins voru: Skapti B. Brynjólfsson, 1888—1891. Björn Halldórsson, 1891—93. Skrifarar: Stephan G. Stephansson, 1888. Ásgeir J. Líndal, 1888—9. Árni Árnason, 1889—90. Björn B. Olson, 1890—91. Bjarni Jóhannsson, 1892—1893. Bókavörður: Björn Halldórsson, 1888—1891. Brynjólfur Brynjólfsson eftir 1891.

Mörg lestrarfélög voru stofnuð í nýlendunni, og með þeim fyrstu lestrarfélag Sandhæðabúa "Aurora", stofnað 1887 og Fjallabúa sama ár. Mun tala lestrarfélaga um 1889 hafa verið sex, og eigi fjölgað eftir það. Good Templara stúka var stofnuð við Hallson vorið 1892 og kölluð "Dögun". Stóð hún með miklum blóma í 5 ár, en þá fór henni að fara aftur, svo að um aldamótin mun hún hafa verið lögð niður. Önnur stúka var stofnuð við Akra í Austur Sandhæða bygð, en eigi átti hún langan aldur.

Tilraunir voru gjörðar á ýmsum tímum í nýlendunni að koma upp íslenzku blaði, er mistókust

jafnóðum. Til orða kom að "Heimskringla", sem þá var fyrir skömmu stofnuð í Winnipeg, yrði keypt og flutt suður árið 1888, þó eigi yrði af. Aftur kom til orða að hún yrði keypt og flutt suður árið 1897. Var þá myndað hlutafélag til þess að gangast fyrir þessu, en þegar til kom vildu hluthafar í W.peg eigi selja. Árin 1889-90 reyndi "Menningarfélagið" að koma á fót blaði í nýlendunni. Í því sambandi skrifuðust þeir Björn Halldórsson og Brynjólfur Brynjólfsson á við þá séra Matth. Jochumsson og Valdimar Ásmundsson, og vildu fá þá vestur til þessa fyrirtækis. Gaf Valdimar kost á því, en þá fengust eigi nægileg fjárframlög til þess að af þessu gæti orðið. Árið 1896 byrjaði enskt blað, *Crystal Call*, í bænum Crystal, austan við nýlenduna, að flytja nokkra dálka á íslenzku. Ritstjóri við þá var Jóhann Sigurgeirsson Björnsson úr Vopnafirði. En eigi var því haldið áfram. 1899 byrjaði annað enskt blað, *The Pink Paper*, í bænum Bathgate norðaustur af nýlendunni, á hinu sama. Ritstjóri við þá dálka var Magnús Pétursson prentari frá Winnipeg. Eigi var þessu heldur haldið áfram nema stuttan tíma.

Um 1890 byrjuðu Íslendingar fyrst að stunda nám við háskóla ríkisins í Grand Forks. Með þeim fyrstu, er þangað fóru, voru þeir Barði G(uðmundsson) Skúlason frá Reykjavöllum í Skagafirði (nú lögmaður í borginni Portland, Oregon), Kristján Indriðason frá Syðra Laugalandi í Eyjafirði, bóndi við Mountain. Ólafur Björnsson Péturssonar alþm. frá Hallfreðarstöðum (nú læknir í W.peg). Magnús B(jörnsson) Halldórssonar frá Úlfsstöðum í Loðmundarfirði (nú læknir í Winnipeg), o. fl. Brátt fjölgaði nemendum við háskólann svo að fyrir eða um aldamót var þar komið á stofn fjölmennu stúdentafélagi íslenzku. Tók félagið sér fyrir höndur að koma á fót íslenzku bókasafni þar við háskólann. Vann það að þessu kappsamlega um mörg ár og varð vel ágengt. Er þar nú myndarlegt íslenzkt bókasafn, er algjörlega hefir verið safnað og keypt af félaginu. Að fyrirtæki þessu áttu góðan hlut Vilhjálmur (Jóhannsson) Stefánsson frá Kroppi í Eyjafirði, norðurfarinn og landkönnunarmaðurinn frægi, Árni Kristinsson (nú sveitarskrifari í Efros-bæ í Saskatchewan fylki), Páll Bjarnason nú ritstjóri við "Wynyard Advance", enskt blað í bænum Wynyard, Sask., o. fl. Um þetta leyti var stofnað kennara embætti við háskólann í norrænum fræðum. Hét sá, er við embættinu tók, Tinglestad, uppgjafa prestur norskur. Eigi þótti mikið að honum kveða sem fræðimanni. — Nokkru sunnar í ríkinu, í Fargo, stendur landbúnaðarskóli ríkisins. Við hann hafa verið margir íslenzkir nemendur, og hafa þeir stofnað stúdentafélag sín á meða. Árið 1917 sýndi félagið íslenzkan sjónleik þar í bænum og var látið vel yfir hversu það hefði tekist. Helztu hvatamenn þessa félagsskapar voru þeir bræður Matthías (Thor-

láksson) Thorfinnsson og Theodore. Búa foreldrar þeirra við Mountain. Eru þau ættuð úr Skagafirði.

### Winnipeg.

Eftir 1874 færðist miðstöð íslenzkra bygða vestur. Meðan á bygging Nýja Íslands stóð og flutningi að austan, var farið um í Winnipeg. Settust þar þegar í öndverðu all-margir Íslendingar að og fóru eigi lengra. Má því Winnipeg-nýlendan heita jafngömul Nýja Íslandi. Brátt varð þar fjölment og hefir Winnipegbær nú í nær heilan mannsaldur verið í öllum skilningi miðstöð hinnar íslenzku bygðar vestan hafs. Lítið var um félagssamtök fyrstu árin tvö, þó þá strax, sem og ávalt síðan, að hver sem eitthvað gat og búinn var að koma sér niður, sýndi hjálpsemi þeim, sem seinna komu og ókunnugir voru og allslausir. Hefir því og líka verið viðbrugðið meðal hinnar hérlendu þjóðar og á orði haft, að enginn þjóðflokkur, er til bæjarins komi, eigi sömu viðtökum að mæta sem Íslendingar, því það sé sjaldnast að nokkrir þeirra séu látnir bíða á innflytjendahúsinu næturlangt, heldur sæki landar þeirra þá og taki þá heim til sín. Siður þessi hófst mjög snemma og hefir haldist æ síðan. Hve stóra þýðingu hann hefir haft fyrir sögu þjóðarinnar vesturfluttu, verður aldrei til fulls sagt, en þó er svo mikið víst, að með því varð eftirleikurinn óvandari þeim, er seinna komu, að koma sér fyrir, kynnast atvinnumálum, viðskiftum og lifnaðarháttum, með því að hagnýta sér þá reynslu og þekkingu, er hinir höfðu öðlast, sem fyrir voru, og fúslega var látin í té.

Eitthvert hið fyrsta félag, er stofnað var í Winnipeg meðal Íslendinga, var "Íslendingafélagið", haustið 1877 (6. sept.). Fyrir félagsmynduninni gengust aðallega menn, sem komnir voru frá Milwaukee. Tilgangur félagsins, eftir því sem fram er tekið í lögum þess, var: "að efla og varðveita sóma hinnar íslenzku þjóðar í heimsálfu þessari, viðhalda og lífga meðal Íslendinga hinn frjálsa framfaraanda, sem á öllum öldum sögunnar hefir einkent hina íslenzku þjóð." Forseti var kjörinn Jón Þórðarson frá Skeri við Eyjafjörð, en skrifari Arngrímur Jónsson frá Héðinshöfða. Fundir voru haldnir aðra hverja viku. — Félagið hafði margbrotið verk með höndum fyrst og fremst að sporna við því eftir mætti, að þeir Íslendingar, er vestur fluttust, "týndust" gjörsamlega, eða hyrfu svo, að enginn vissi hvar þeir væru niður komnir; annað, að halda uppi samkomum, þar sem fólk gæti komið saman og hlýtt lestri o.s.frv.; og í þriðja lagi, að veita börnum og unglingum einhverja tilsögn í tungu, háttum og siðum hérlendum og í móðurmáli þeirra. Þá lagði það og fyrir sig, að styrkja sjúkt og allslaust fólk, eftir því sem kraftar þess leyfðu. Félagsstofnunin var ein hin þarfasta og hafði mikið gott í för með sér. Sunnudagsskóli var settur á stofn og voru þessar þrjár konur

kennararnir: Andrea Fischer frá R.vík, Helga Þorsteinsdóttir frá Mýralóni í Eyjafirði (giftist Arngrími Jónssyni) og Jóhanna Skaftadóttir frá R.vík, nú allar löngu dánar. Aðal námsgreinar voru íslenzka og barnalærdómur. "Munu allflestir hafa sent börn sín til þeirra og þóttu þær leysa kensluna prýðilega af hendi." 1) Tilsögn þessi var góð, en eigi var hún einhlít, og það sem menn fundu til að af öllu reið mest á að nema, var hin hérlenda tunga, enskan. Án enskunnar gat enginn brotið sér braut. Allmargir barnaskólar voru komnir á stofn í bænum um þessar mundir, en eigi gátu unglingar notað þá sem skyldi, sem komnir voru yfir hinn algenga barnaskóla aldur (14 ára) og svo þurftu þeir margir hverjir að vinna fyrir sér og gátu því eigi sótt þá. Eins var eigi laust við, að íslenzku börnin mættu stundum aðkasti þar, frá leiksystkinum sínum, sem *"útlendingar"*, en vegna kunnáttu skorts á hérlendri tungu, gátu þau eigi ætíð borið af sér við kennarana, ef að á þau var hallað. Skirðust því foreldri oft við að senda börn sín á skólana, er voru þá heldur eigi svo búin að klæðnaði sem þau hefði viljað. En er tímar liðu fram, hvarf alt þetta. Og langt er nú orðið síðan að játa varð, að íslenzk börn stæði engum að baki að náms hæfileikum, en öllu heldur flestum framar. Skólamálið varð því bráðlega eitt af stórmálum félagsins, þó framkvæmdir yrðu fremur af hálfu einstaklinga, fyrstu árin.

Þenna sama vetur gengust tveir Íslendingar fyrir því, að koma á fót skóla, Magnús Pálsson 2) (fluttist vestur 1876 frá Hólum í Hjaltadal) og Guðmundur Björnsson 3 (Árnasonar frá Ærlækjarseli í þingeyjarsýslu; fluttust þeir feðgar vestur 1874). Tilsögn var veitt í skrift, reikningi, íslenzku og ensku. Skólinn stóð allan veturinn og sóttu hann um 40 nemendur. Sýndi tilraun þessi, að þörf var á slíkum skóla og að fyrirtækið var vinsælt. Veturinn eftir mun þvílíkur skóli hafa verið haldinn, þó eigi séu til skírteini um það, né hverjir stjórnað hafi. En úr þessu fór félagið aðallega að beita sér fyrir í þessu máli.

Um þetta leyti virðist vera einhver ruglingur með nafn félagsins. Er það nefnt ýmist "Íslendingafélagið í W.peg" eða "Þjóðarfélag Íslendinga í Vesturheimi", og eiga þó bæði nöfnin sjálfsagt að tákna hið sama. En 1881 er félagið endurreist og þá nefnt "Framfarafélag Íslendinga í Vesturheimi", ný lög samin fyrir félagið og þar tekið fram, að tilgangur þess skuli vera, "að efla eftir megni alt það, sem er og getur orðið Íslendingum til framfara

1) Séra Friðrik J. Bergmann. Saga ísl. nýlendunnar í W.peg. Alm. 1903, bls. 48.

2) Einn af stofendum Kirkjufélagsins. Varaforseti þess 1885—6. Ritstjóri Lögbergs frá júlí 1901 til okt. 1905. Missögn er í Sögu ísl nýl. í W.peg 1903, bls. 49 um skóla þenna. Er þar talinn kennari Þorst. Einarsson, en hann kom eigi fyr en tveim árum sienna.

3) Tók sér nafnið William Anderson. Einn af stofnendum Kirkjufélagsins. Flutti til Dakota. Varð þar fyrstur ísl. "Friðdómari". Fluttist því næst til W.peg aftur og svo vestur að hafi og býr þar nú.

í heimsálfu þessari." Hélt félagið nafni þessu eftir það. Allnákvæm saga er til um félagið ofan til ársins 1883, rituð af Sveini Björnssyni (Péturssonar) og birt í 5. tölubl. "Leifs", I. ár. Skýrt er þar frá starfi þess og myndun og málefnum þeim, er það barðist fyrir fram að þessum tíma.

Eftir nú að einstakir menn höfðu haldið uppi skóla um hríð, sem frá var sagt, en orðið að leggja það verk niður, varð það berara og brýnna, að ef framhald átti að verða að þessu, þá varð félagið að taka það að sér. Lá það og líka beinast við. Stofnaði félagið því skóla veturinn 1881—1882. Hafði þá Íslendingum fjölgað að stórum mun í bænum og var alt af að bætast við í tölu þeirra fólk, er flutti nú búferlum úr Nýja Íslandi eða kom beina leið að heiman. Bráðabirgðar skólastjórn var kosin og var Eyjólfur Eyjólfsson, frá Dagverðargerði í Hróarstungu, skipaður féhirðir þeirrar nefndar. Kona hans var Signý Pálsdóttir (d. 1913; komu þau hjón og margt skyldmenna þeirra frá Íslandi 1876 og settust að fyrst í syðri Víðinessbygð í Nýja Íslandi, en fluttu upp til W.peg vorið 1880.[1]) Varði félagið $235.50 til skólans þenna vetur. Var fé þessu safnað að mestu leyti meðal yngra fólks, er þá vann í vistum eða að daglaunum. Veturinn eftir stendur félagið enn fyrir skólahaldi. Er þá samin reglugjörð fyrir skólann: Félagið skal kjósa skólanefnd, er ráði kennara, ákveði námsgreinar, haldi reikninga skólans, o. fl. Kennarar séu ráðnir til eins mánaðar í senn, en ekki lengri tíma. Skóli sé byrjaður með 15 börnum og einum kennara, en fari nemendatala fram úr 25, skulu tveir kennarar ráðnir. Kenslugjald sé ákveðið $2.00 með hverju barni um mánuðinn, en munaðarlausum börnum og fátækum, er eigi geta borgað hið ákveðna gjald, skal veitt ókeypis tilsögn í skólanum. Hús og allan útbúnað skal félagið sjá um, en skólanefndin ásamt kennurunum hefir á hendi alt eftirlit með skólanum. Kennarar við þenna skóla Framfarafélagsins eru tilgreindir: Kristján Jónsson frá Héðinshöfða (d. 1919), Kristrún Ólafsdóttir (gift Sveini Björnssyni, er nú býr í Seattle, Wash.), Stefán Pálsson (apótekari, af Austurlandi), Bjarni Guðmundsson Dalsted[2] (frá Sauðafelli í Dalasýslu). Veturinn 1883 til '84 varð aftur einstakur maður til að halda uppi skóla, Baldvin L. Baldvinsson, er til Winnipeg kom vorið 1882. Var hann þá

---

1) Þau hjón komu mjög við félagsmál öll í W.peg framan af árum. Um Signýju Pálsdóttur segir séra Jón Bjarnason í "Sam.", jan. 1914: "Um konu eina göfga í fornsögu Íslands, á landnámstíð þjóðar vorrar hinni fyrri, segir svo: ("Hún) lét gjöra skála um þjóðbraut þvera. Hún sat á stóli og laðaði út gesti, en borð stóðu inni ok matr á." Slík var Signý heitin hér vestra, á landnámstíð Íslendinga hinni síðari — hún ásamt með manni sínum. Þau bjuggu hér lengi svo að segja um þjóðbraut þvera. Báru að því leyti af flestum eða öllum Íslendingum í hinni erviðu tíð frumbýlingsáranna. Þessa var meðal annars í Jesú nafni minzt við útför hinnar framliðnu heiðurskonu og því má komandi kynslóð ekki gleyma."

2) B. Dalsted varð síðar fyrsti kennari við barnaskóla Vestur-Sandhæða bygðar árið 1887 í Dakota, er alþýðuskóli var stofnaður þar í bygðinni.

búinn að dvelja í Torontoborg í nær 9 ár, og hafði gengið þar á kveldskóla. Auk þess hafði hann gengið á hermannaskóla og útskrifast þaðan með góðum vitnisburði. Nemendur hafði hann eigi marga, rúma 12 talsins, en sem dæmi þess, að hvaða notum slík kensla kom, má geta þess, að um vorið, er hann hætti kenslunni, settust sumir af nemendum hans upp í 6. bekk alþýðuskólans og höfðu þó engrar tilsagnar notið annarar en þessarar. Skólahald þetta meðal Íslendinga á þessum tíma var alveg einstakt í sinni röð, meðal hinna innfluttu þjóðflokka í bænum. Lengi fram eftir árum héldu ýmsir uppi kveldskóla eða tímakenslu, þó því sé nú alveg hætt, nema meðal þeirra, sem tilsögn veita í söng og hljómleikum.

Árið 1881 eignaðist Framfarafélagið fyrst samkomuhús. Fram að þeim tíma bjó það á hrakhól við húsnæðisleysi og hélt fundi sína helzt á gistiskálum íslenzkum, því húsrúm var þar einna mest, eða hvar annars staðar, er því varð viðkomið. Þá þrem árum áður kom til Winnipeg maður, er Helgi hét, frá Brekku í Skriðdal, Jónsson Hallgrímssonar. Frá Íslandi flutti hann sumarið 1875 og þá til Canada. Gekk hann í félagið. Hann var áhugamaður hinn mesti og fylginn sér. Fanst honum félagið alt of aðgjörðarlítið og hvatti það til meiri framtakssemi. Vildi hann láta það koma upp samkomuhúsi og vekja fjör og félagslíf með tíðum samkomuhöldum, koma á fót bókasafni, lestrarstofu o. fl. Af framkvæmdum varð þó eigi fyr en vorið 1881, að honum sjálfum hafði græðst það fé, að hann gat nú gefið félaginu byggingarlóð. En gjöfina skuldbatt hann því, að á lóðinni yrði strax reist samkomuhús. Til fyrirtækisins var safnað og gáfu til þess jafnt yngri sem eldri, er einhverja atvinnu höfðu, svo húsið var komið upp í byrjun júlímánaðar. Er þar haldin fyrsta samkoman 11. júlí 1881. Til hússins var keypt orgel, sem nota mátti við skemtisamkomur, húslestra og messur. En til þess að af því yrði enn betri not, kostaði félagið unga stúlku til hljómleikanáms, þó eigi yrði það því styrkur. Myndaðist þá og brátt söngfélag, er hafði fundi sína í húsinu. Fyrir því gekkst Þorsteinn Einarsson, ungur maður, frá Tungu-Seli í N.-Múlasýslu, er vestur flutti 1879 og settist að í Winnipeg. En fáum árum seinna andaðist hann (1884) og naut hans því skemur en skyldi. Við það að komið var upp samkomuhúsi, er eign var Íslendinga, var sem risi upp af blundi nýr áhugi fyrir allskonar félagsstarfsemi. Þutu nú upp ýmiskonar smáfélög, er flest áttu skamman aldur. Má þar til nefna Ungmennafélag, Málfundafélag, Söngfélag o. fl., en öflugast og bezt þessara félaga varð hið *Íslenzka kvenfélag*, er nú var stofnað að nokkru leyti hliðstætt við Framfarafélagið, af konum, er í Framfarafélaginu stóðu. Vann það að hinum sömu málum og Framfarafélagið og styrkti fyrirtæki þess með fjárframlögum og samkomuhaldi. Verður frá þessu félagi sagt síðar.

Með aðal-verkefnum Framfarafélagsins frá því fyrsta til hins síðasta má telja, að hjálpa nýkomnu fólki íslenzku, er til bæjarins kom og var allslaust, að komast til síns ákveðna áfangastaðar út í nýlendurnar. Þurfti ekkert lítið til þess að taka á móti fólki í þeim kringumstæðum, sjá því fyrir nauðsynjum sínum meðan það stóð við, og koma því svo leiðar sinnar. Var það því gott, að stöku hjón höfðu reist bæ sinn "um þjóðbraut þvera", enda var sjaldnast gesta fátt í þeim skálum. Við þetta verk naut félagið jafnan hinnar ötulustu hjálpar frá Kvenfélaginu. Umkvartanir vesturfara, er að heiman komu árið 1881, um erviðleika, er þeim mættu við lendinguna, með að komast með farangur sinn vestur, urðu að einhverju leyti til þess, að félagið kostaði mann, sumarið 1882, til þess að fara til móts við innflytjendur, er þá voru að koma til landsins, og leiðbeina þeim vestur. Voru samskot tekin í því augnamiði, er námu $160.00. En eigi hepnaðist ferð þessi eins vel og ætlast var til og olli það mikilli óánægju. En árið eftir var útnefndur maður, af innflutninga umboðsmanni stjórnarinnar, til þessa verks. Að stjórnin vaknaði til umhugsunar með að þörf væri á að hafa einhvern til að leiðbeina hinu aðkomna fólki, hefir að líkindum verið þessu starfi félagsins að þakka, þó engan hlut ætti það í útnefningu leiðsögumannsins. Til þessa verks var nú B. L. Baldvinsson kjörinn, en honum uppálagt að leita jafnframt samþykkis félagsins, er var auðsótt, því allir báru hið fylsta traust til hans. Hélt hann þeirri stöðu lengi þar á eftir, sem leiðsögumaður íslenzkra vesturfara, og munu það allir bera, að þar hafi engum farist betur.

Þetta sumar kom margt fólk að heiman. Vesturfarahóparnir voru tveir; kom annar í júlí, en hinn í ágúst. Lagðist því ærið starf á félagið að liðsinna þeim, er til Winnipeg komu. Auk þess sem einstaklingar skutu skjólshúsi yfir nýkomna landa sína, er þess getið, að félagið, með tilhjálp Kvenfélagsins, hafi varið $160 eingöngu til fargjalda til styrktar fólki þessu. Á innflytjenda húsinu unnu í hálfan mánuð, að matreiðslu, til þess að fæða þá, sem þar urðu að bíða, Kristrún Sveinungadóttir og Björg Pálsdóttir (systir Signýjar, áður nefndrar), og Jóhann Gottfred (mágur Bjargar), og höfnuðu með þessu líknarverki sínu góðri vinnu, sem þá var hægt að fá og vel launaðri.[1]). Telja mætti fleiri dæmi þessu líkt.

Árið 1880 hætti "Framfari" að koma út. Var því þá hreyft á fundum félagsins, að það gengist fyrir að stofna íslenzkt blað í Winnipeg. Var Helgi Jónsson aðal flutningsmaður þessa máls. Undirtektir urðu daufar og munu félagsmenn eigi hafa treyst sér til þess. Það fundu þó allir, að án blaðs yrði Íslendingum erviðara að halda saman og vernda þjóðerni sitt. Nokkuð var talað um þetta fram og aftur, og voru það

---

1) Séra F. J. B. Saga ísl. nýl. í W.peg. Alm. 1904, bls. 102.

einkum fimm menn, er höfðu það með höndum: Jón Júlíus, Friðfinnur Jóhannesson, Magnús Pálsson, Helgi Jónsson og Þorsteinn Einarsson. Fóru þeir þess á leit við séra Friðrik J. Bergmann, er þá var nýútskrifaður úr Decorah Mentaskólanum í Iowa ríkinu, að hann tæki að sér ritstjórn, ef blaðið yrði stofnað. Boðuðu þeir hann á fund til sín, til þess að bera sig saman við hann um þetta; en niðurstaðan varð þó sú, að eigi væri hugsanlegt að leggja út í þesskonar fyrirtæki að sinni. Eigi var Helgi Jónsson samdóma þeim í þessu; áleit hann það vel fært og eigi ofætlun einum manni, hvað þá fleirum, ef eigi brysti áhuga og góðan vilja. Urðu þær lyktir málsins, að hann stofnaði blaðið einn, og er það fyrsta íslenzka blaðið, sem gefið er út í Winnipeg. Nefndi hann það *"Leif"*, eftir Leifi Eiríkssyni hinum hepna. Kom það fyrst út um vorið, 5. maí 1883, og hélt hann því úti í rúm þrjú ár, en varð þá að láta það hætta, sökum efnaskorts. Síðasta blaðið er dagsett 4. júní 1886. Þrír menn komu nú honum til aðstoðar: Stefán Pálsson (nú kaupmaður í Minneapolis) apótekari úr Fljótsdalshéraði á Austurlandi, fluttist vestur 1882, var hann aðstoðar ritstjóri fyrsta ársfjórðunginn; Eggert Jóhannsson (Jóhannssonar frá Steinsstöðum í Skagafirði, fluttist vestur 1876, en býr nú vestur í Vancouver - bæ á Kyrrahafsströnd), maður vel gefinn, lipur og gætinn og miklum bókmenta hæfileikum búinn; ritaði hann blaðið að miklu leyti, eftir að Stefán hætti, nema ritstjórnargreinar, er Helgi vildi vera einn um; og Jón Vigfússon Dalmann (frá Kleif í Fljótsdal), fluttist til W.peg 1882 og andaðist þar 17. júlí, 1915). Gjörðist Jón prentari og hafði þó aldrei fyrr á því verki snert, en viljinn var góður og áhuginn mikill fyrir því, að Íslendingar gæti átt blað á sinni eigin tungu, er frætt gæti þá um hið helzta, er hér var að gjörast, og stutt að félagsskap og samheldni. Jón var hinn vandaðasti maður í öllu, stiltur og orðvar, alvörugefinn og ósérplæginn, og kom það sér vel, því eigi var fyrir launum að gangast. Misjafnlega var um fyrirtæki þetta dæmt, og eigi ávalt með sanngirni, en á hitt var síður litið, hvað þessir menn urðu í sölur að leggja, er eigi voru efnum búnari en aðrir, til þess að halda blaðinu úti. Þótti þó mörgum betur, að á þessu var byrjað, en eigi.

Telja má, að Framfarafélagið hafi staðið með fullum kröftum í 10 ár, en úr því fer því að fara aftur. Má óhætt fullyrða, að það var lang-helzti félagsskapurinn allan þann tíma. Verksvið hafði það stórt og margbrotið starf og áttu mörg þau mál, er lengst hafa verið á dagskrá hjá Íslendingum síðan, upphaf sitt hjá því. Meðal þeirra má nefna Skólamálið, er kirkjufélagið tók að sér, o. fl. Með árinu 1885 er kominn á fót annar félagsskapur, er setti sér að gjöra sumt hið sama og félagið hafði áður gengist fyrir, en félagsskapur sá var hinn "Fyrsti íslenzki lúterski söfnuður í Winni-

peg.'' Vildu nú ýmsir, er áður höfðu unnið mikið í félaginu, beina öllum kröftum félagsins í áttina til safnaðarins. Um þetta urðu menn eigi á eitt sáttir og risu út af því megnar deilur, er enduðu með því, að Framfarafélagið leið undir lok, sem starfandi félagsskapur. Samkomuhúsið, er félagið hafði látið reisa árið 1881, og var aðal samkomustaður allra Íslendinga um nokkur ár, var stækkað og endurbætt 1884. Í því hafði söfnuðurinn allar samkomur sínar, sem önnur íslenzk félög, þangað til hann kom sér upp kirkju haustið 1887. Var nú öll félagsstarfsemi söfnuðinum viðkomandi flutt úr Félagshúsinu og í kirkjuna. Fór þá líka að fækka um fundahöld í Félagshúsinu eftir það. Árið 1891 er húsið selt og er þá félagið þar með úr sögunni. Löngu seinna, eða 1903, er svo húsverðið gefið í sjóð hins fyrirhugaða skóla kirkjufélagsins og byggingarsjóð íslenzkra Good-Templara í Winnipeg.

(Framhald)

———o———

# Æfintýr

Eftir FEDOR SOLOGUB, rússneskan höfund.

## FRAMTÍÐIN.

Enginn veit hvað framtíðin felur í skauti sínu. Þó er til staður, sem varpar til vor endrum og eins ljósbliki af framtíðinni um bláheiðistjald þránna. — Sá staður er óðal hinna ófæddu, og ríkir þar ávalt sannur friður.

Sorgin er þar ókunn, en hinir ófæddu teiga andrúmsloft ótruflaðs draumfagnaðar. Óviljugur flytur enginn burt úr ríki því. —

Einu sinni voru fjórar sálir, er óskuðu sér þess allar á sama augnablikinu, að mega fæðast inn í hina jarðnesku veröld. Fjórar, ómótstæðilegar sýnir höfðu þær séð á jarðríki, gegn um blámóðuhjúpinn. Þrárnar seiddu, brendu, og engin bönd gátu lengur haldið þeim.

Fyrsta sálin sagði: "Eg elska jörðina, — hún er mjúk, hlý og sterk."

Önnur sagði: "Eg elska fljótin, — eilíf-streymandi, svöl og gagnsæ."

Þriðja sagði: "Eg elska eldinn, glaðan, bjartan, hreinsandi."

En hin fjórða sagði: "Eg elska loftið, — víðfaðma, djúpt, hátt, — loftið — hinn léttasta andardrátt lífsins."

Sálirnar fengu óskir sínar uppfyltar— urðu að menskum mönnum. —

Þessi urðu afdrif fjórmenninganna:

Hinn fyrsti gerðist námamaður. Dag nokkurn hrundu námagöngin og grófu hann lifandi.

Annar grét, grét alla æfina og druknaði að lokum.

Þriðji lenti í eldsvoða og brann til kaldra kola.

En sá fjórði var hengdur.

Veslings sakleysingjar! Flón eftirvæntinganna og nautnaþránna!

Hvers vegna lokkaði *Viljinn* yður burt úr hamingju-landi tilveruleysisins

*Einar P. Jónsson.*

Vinur Húsfreyjunnar!

# SELLERS Eldhússkápur




Eldhússkápur þessi er nýjasta uppfynding á skápasmíði, og er margt við hann, er ekki finst á öðrum skápum.

**$10.00 NIÐURBORGUN!**

Og þér fáið skápinn sendan heim. Afgang verðsins megið þér greiða með mánaðarlegum afborgunum. — Vextir verða yður engir settir né útgjöld önnur. — Viðskiftafólk út um sveitir nýtur sömu vilkaupa. —

Einka-umboð og útsölu fyrir Winnipeg-bæ hefir

## J. A. BANFIELD

"The Reliable Home Furnisher"

Talsími: Garry 1580 — 492 Main Street, Winnipeg

# Canadian Order of Foresters

Fremsta Bræðra og Ábyrgðarfélag í Canada

MEÐLIMATALA YFIR 90,000

Al-Canadiskt, Þjóðlegt, Ákveðin gjöld, Engin dauðsfalla-álög

ALDURSTAKMÖRK 16—45 ÁRA

Nálægt **$14,000,000** hafa verið borgaðir til meðlima og erfingja þeirra síðan félagið var stofnað 1879.

**Afgangs-Sjóður 1. Des., 1919 - - - - $6,627,431.93**

Fyrir $3,000,000 af þeim sjóði hafa verið keypt skuldabréf Canada-stjórnar, og afgangurinn trygður verðmætum eignum í Canada, og þessi sjóður vex um 25,000—30,000 dollara á mánuði : :

Félag þetta gefur út skírteini frá $250 til $2,000 gegn eftirfylgjandi fyrir fram borguðum mánaðargjöldum:

| Age | Rate per M. $250 | Rate per Mo. $500 | Rate per Mo. $1.000 | Rate per Mo. $1.500 | Rate per Mo. $2.000 | Age | Rate per M. $250 | Rate per Mo. $500 | Rate per Mo. $1.000 | Rate per Mo. $1.500 | Rate per Mo. $2500. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 16 | $ .20 | $ .40 | $ .80 | $1.20 | $1.60 | 31 | $ .32 | $ .65 | $1.25 | $1.88 | $2.50 |
| 17 | .21 | .41 | .82 | 1.23 | 1.64 | 32 | .33 | .65 | 1.30 | 1.93 | 2.60 |
| 18 | .21 | .42 | .84 | 1.26 | 1.68 | 33 | .34 | .67 | 1.35 | 2.02 | 2.70 |
| 19 | .22 | .44 | .87 | 1.31 | 1.74 | 34 | .35 | .70 | 1.40 | 2.10 | 2.80 |
| 20 | .23 | .45 | .90 | 1.35 | 1.80 | 35 | .37 | .73 | 1.45 | 2.18 | 2.90 |
| 21 | .24 | .47 | .93 | 1.40 | 1.86 | 36 | .38 | .75 | 1.50 | 2.25 | 3.00 |
| 22 | .24 | .48 | .96 | 1.44 | 1.92 | 37 | .39 | .78 | 1.55 | 2.33 | 3.10 |
| 23 | .25 | .50 | .99 | 1.49 | 1.98 | 38 | .40 | .80 | 1.60 | 2.40 | 3.20 |
| 24 | .26 | .51 | 1.02 | 1.53 | 2.04 | 39 | .42 | .83 | 1.65 | 2.48 | 3.30 |
| 25 | .27 | .53 | 1.05 | 1.58 | 2.10 | 40 | .43 | .85 | 1.70 | 2.55 | 3.40 |
| 26 | .27 | .54 | 1.08 | 1.62 | 2.10 | 41 | .44 | .88 | 1.75 | 2.63 | 3.50 |
| 27 | .28 | .56 | 1.11 | 1.67 | 2.22 | 42 | .46 | .93 | 1.85 | 2.78 | 3.70 |
| 28 | .29 | .57 | 1.14 | 1.71 | 2.28 | 43 | .48 | .97 | 1.95 | 2.92 | 3.90 |
| 29 | .30 | .59 | 1.17 | 1.76 | 2.34 | 44 | .50 | 1.05 | 2.10 | 3.15 | 4.20 |
| 30 | .31 | .60 | 1.20 | 1.80 | 2.40 | 45 | .53 | 1.05 | 2.10 | 3.15 | 4.20 |

Dauðsföll í Can. Ord. of Foresters síðastl. ár—40. árið—voru aðeins 9.12 af 1,000, og meðalt. dauðsfalla síðan 1879 er 5.72. — Yfir 50 þús. af meðl. félagsins standa í sjúkra- og útfarar-sjóðs deild þess. Styrkveiting í þeirri deild er $3 á viku 2 fyrstu vikurnar, ef veikindi eru, og $5 úr því í 10 vikur—alls $56 auk útfarartillags, sem er $50. Gjöldin borgist fyrir fram mánaðarlega og eru: Fyrir 16-25 ára **25c—25-30** ára **30c—30-35** ára **35c.** — Meðlimum er í sjálfsvald sett, hvort þeir eru í deild þessari eða ekki.

Frekari upplýsingar geta menn fengið hjá meðl. eða skrifað

W. F. ROSS, D.H.C.R.
Holland, Man.

D. E. McKINNON, D.H. Sec.
Winnipeg, Man.

**Skifstofa: 318 McIntyre Block, Winnipeg**

**Íslenzkar stúkur** (Courts) í Manitoba, eru deildir í ofangreindu félagi, og skyldu menn snúa sér til aðal-embættismanna í þeim stúkum eftir upplýsingum: **Stúkan "Vínland"**, Winnipeg. Sigurbjörn Pálsson, C.R.; Gunnl. Jóhannsson, F.F. **Stúkan "Tindastóll"**, Gimli, Man. B. B. Olson, C.R.; S.. Jóhannsson, F.S. **Stúkan "Brú"**, Brú P.O., Man. H. H. Johnson, C.R.; Albert Oliver, F.S.

## AUGLÝSINGA-SKRA TÍMARITSINS:

## AUGLÝSINGA-SKRÁ TÍMARITSINS (Framhald)



---

**Helztu leiðréttingar:**

Bls. 5, 14. lína, 1. dálki: stofendur f. stofnendur
Bls. 15, 28. lína, 2. dálki: lífí f. lífi
Bls. 43, 23. lína, 2. dálki: Aemrica f. America
Bls. 45, 29. lína, 1. dálki: Skrælngjarnir f. Skrælingjarnir
Bls. 52, 14. lína, 2. dálki: og f. ok
Bls. 52, 15. lína, 2. dálki: og f. ok.
Bls. 64, 13. lína, 1. dálki: fram f. áfram
Bls. 71, 38. lína, 2. dálki: Ísendingar f. Íslendingar
Bls. 77, 1. lína, 2. dálki: færi f. væri.
Bls. 111, 16. lína, 1. dálki: Gísílason f. Gíslason
Bls. 118, 2. lína, 1. dálki: höndinn f. höndum
Bls. 119, 6. lína, 1. dálki: safni f. safn
Bls. 119, 42. lína, 1. dálki: lögamður f. lögmaður
Bls. 120, 18. lína, 1. dálki: þett. f. þetta
Bls. 124, 8. lína, 1 dálki neðanmáls: og f. ok.

# Manitobastjórnin og Alþýðumála-deildin

## Verjið uppskeruna fyrir myglu.

Það meir en borgar sig fyrir hvern bónda, að fara vel með fræ það, sem nota skal til sáningar, svo það geti eigi síðar meir orsakað myglu.

Hvað er mygla? Það eru ýmsar myglutegundir mjög algengar í kornuppskeru vorri í Vestur-Canada, en eftirfarandi lýsing mun þó að mestu leyti ná til þeirra allra.

Mygla í korni kemur fyrst verulega í ljós um uppskerutímann. Kornhöfuðin eiga að vera um þær mundir þrungin af korni, en eru í þess stað full af sallafínu, svörtu dufti. Stundum er duft þetta laust, og hefir það þá þau áhrif, að myglulykt sterka leggur af hveitinu, og gerir það mikinn usla í hveiti-framleiðslu bænda, ef eigi er að gert í tíma. Aftur á móti fer myglan stundum í kúlur, svokallaða myglu-hnetti, er vaxa þar sem hveiti-kjarninn á að þroskast. Þessir smáu hnettir eru innan í hýðinu, þar sem *kjarninn* mundi eiga heima, ef kornhöfuðið væri ósjúkt.

Þessir mygluhnettir þurfa að verða hreinsaðir í burtu, áður en þeir ná að útbreiðast eða verða að dufti. Venjulega skal útrýming þessa ófagnaðar fara fram um uppskeru eða þreskingartímann. — Það leynir sér ekki, ef um nokkra verulega myglu er að ræða, því lytkin segir til sín fljótlega, enda verður hveitikjarninn þá svartur útlits.

Þetta svarta duft er í raun og veru ekki annað en svolítið frækorn — myglukorn. Ef að þessi myglukorn eru á fræinu um sáningartímann og enn með lífi taka þau þegar að gróa, en í stað þess að skjóta rótum ofan í jarðveginn, þá vaxa þau inn í hveitiplöntuna. Og um leið og hveitið, hafrarnir og byggið taka að gróa, þá vefjast mygluþræðirnir utan um jurtina og ræna næringarefninu, og svo, þegar til uppskerunnar kemur, hafa myglukornin orðið þess valdandi að í staðinn fyrir fallegt hveiti, hafra og bygg, verða ávextirnir bara svört myglukorn.

## Formalin-blanda.

Eina ráðið til þess að forðast myglu, verður það, að útrýma hinu svarta fræi, drepa það áður en korninu er sá á vorin. Og skal það gert með eiturvökva (Formalin).—Formalin er hægt að kaupa í hvaða lyfjabúð, sem vera skal.

Eina mörk Formalins skal nota út í 40 gallons af vatni og hræra vel saman. Síðan skal láta kornið, sem verja á, í hreinan vagn-kassa eða þá á slétt, hreint gólf, og láta lagið vera nokkurra þumlunga þykt. Að því búnu skal skvetta nokkru af þessum legi yfir kornið og róta því um jafnharðan, og skiljast eigi fyr við, en alt er orðið jafn rakt, síðan skal moka korninu í hrúgu og breiða vel yfir með pokum og ábreiðum. Sterkasta eiturefnið í Formalin er gas, og til þess að gasáhrifin geti notið sín fyllilega á meðal kornsins, þarf það að vera byrgt, að minsta kosti yfir eina nótt.

Skyldi nú vera svo ástatt, að ekki væri hægt að sá fræi þessu innan skamms tíma, frá því það hefir verið þannig meðhöndlað, er nauðsynlegt að dreifa úr því, svo að það geti vel þornað, og varast þarf að frost geti náð til þess á meðan það er rakt, því með því móti gæti það ef til vill myglað, og yrði þá seinni villan argari hinni fyrri. Pokarnir, sem kornið verður flutt í út á akurinn, þurfa að vera vandlega hreinsaðir fyrst og síðan vættir í Formalin-blöndu af sama styrkleik og áður hefir verið tekið fram, og sömu aðferð skal nota við sáningar áhöldin. — Fjörutíu gallons Formalin-blöndu duga í fimtíu gallons af hveiti; en nokkru meira þarf fyrir hafra og bygg.

## Blásteinn

hefir verið all-mjög notaður af bændum, til þess að verja korn gegn myglu, en nú í ár er örðugt að fá blástein, og þar að auki er hann afar-dýr. Það er líka miklu ódýrara og þægielgra á annan hátt að nota Formalin, heldur en blástein. Formalin getur upprætt ýmsar myglutegundir, sem blásteinn dugar ekki til.

Þeir bændur, sem nota kornhreinsunarvél (Fanning Mill) rækilega, standa miklu betur að vígi gagnvart hættunni, sem oft stafar af myglu. Og undir öllum kringumstæðum borgar það sig fyrir bóndann að nota kornhreinsunarvél, því við það er hann nokkurn veginn viss með að fá eins gott útsæðiskorn og framast getur hugsast.

---

**Landbúnaðardeild Manitoba-fylkis. Hon. Valentine Winkler, ráðgjafi**